# SJØ PREDJKANER
wt Af Þeim

# Sjø Ord=
## um DRottens Vors JEsu Christi, Er hann talade Sijdarst aa Krossenum.

Giørdar Af

## Sal. Mag. Jone
Þorkelssyne Vidalin,
Sup. Skaalholts Stifts.
(Saellrar Minningar)

Gal. VI. v. 14.

Þad verde mier ecke ad eg hroose mier nema af Krosse DRottens vors JESU Christi, fyrer hvorn mier er Heimurenn Krossfestur, og eg Heimenum.

Selst Alment Innbundenn 13. Fiskum.

Prentud aa Hoolum i Hialltadal,
Af Halldore Erikssyne, Anno 1753.

Esajæ LIII. v. 5.

Hañ er Særdur fyrer vorar Yfertrodſlur, og er Lemſtradur fyrer vora Mis-



giørningaa, Hegningeñ liggur aa hønum, ad vier ſkylldum nioota Fridar, og vier høfum feinged Lækning fyrer hañs Saar.

Vel-Edla, GUDhræddre og Dygdum prijddre Høfdings Matronæ,

# Hustru Þrude

ÞORSTEJNS DOOTTUR,

Miñe Allrar Æruvirdande Elskulegre Systur, Oska eg af Alhuga Guds Astar og allra Heilla.

## Vel-Edla SYSTER.

MArgt ær vid morgu, seiger i Ordshætte gomlum. Þott ad Synden hafe (med odru Staffe, sem hun tiluñed hefur) fært margviislega Siwkdooma iñ i Heimeñ, þa hefur þo Guds Fodurlea Giæska skickad þvi svo, ad varla er nockurt þad Mein, ad ecke fiñest Lækning vid, ef hun er Skynsamlega brwkud i Tijma. Eñ vid Daudanum ær eingeñ Lækning, nema Guds Daude. Svo banvænt Mein er Daudeñ, ad hañ vard ei læknadur, nema Lijfed dæe, og med honum droo Andskoteñ svo svartañ Myrkva yfer alla Verolld, ad honum vard ecke hroded, nema Lioos Heimsins slocknade um̃ Hrijd, til þess ad lijsa þeim sijdañ Eylijflega, sem ecke elska meir Myrk-



rid

red eñ Liooſed: Og er Daudeñ þeim allra Meina Boot, eñ hinum Upphaf allra Harmkvæla, ſem ad tapader verda. Nu er eingeñ ſvo good Lækning, ad hun duge, nema hun ſie i Tijma og med Skynſeme brwkud; Svo er og Dauþe DRotteñs: Eige hañ oſs ad Lækningu verda, þa ſkl ootum vier Tijmañlega og med hiñe meſtu Gudrækne uñ hañ ad hugsa. Þeim ſem hætt er vid noekrum ſkiædum Siwkdoome, þeir brwka Jduglega Raad þar vid. Nu kañ þad ecke ad ſegiaſt, ad oſs ſie hætt vid Daudanum, helldur er hañ oſs viſs, og þad aa hvorium Dege, hvorium Tijma, hvoriu Augnablike, og þvi maa oſs þad einſætt þykia, ad hafa þeſſa Lækning jafnañ vid Hondena, og laata hana oſs alldrei vidſkila verda. Eirn af hinum gömlu Skaalldum i Fyrndeñe hefur talad aa þañ Hatt; Ad ſaa ſem dæe fyrer Dygdena, hañ forgeinge ecke, helldur undergeinge hañ. Eñ eg vil ſegia: Saa ſem deyr Chriſtelega, hañ deyr alldrei; Þvi Endurlauſnareñ ſeiger: Joh. 11. Hvor ſem trwer aa mig, þad ſkal ſkie, ad þott hañ deyie, þa ſkal hañ ſamt lifa. Þeſſe Vijsdoomur, Jeg meina ad deya Riettlaatra Mañа Dauda, er ſvo ſtoor Speke, ad øll Veralldareñar Kuñaatta, øll Þecking Himentunglaña, Graſaña, Steinaña, Dijraña, Fuglaña, Fiſkaña, Tungumaalaña, er Faavitſka hiaa heñe: Og hefur margur vijs Madur ſkrifad þar uñ hellar Bækur, eñ eingeñ ſvo vel kiendt, ſvo ſem DRotteñ JEſus i

þeim Hiartnæmu Ordum; Er hañ talade under sitt Aüra Helgasta Andlaat aa Krossenum, i hvorium hañ hefur lagt fyrer oss synduga Meñ, allt þad er ein Christeñ Mañeskia aa ad þeinkia og giøra under sijna Burtfør af Heime þessum, svo ad Daudeñ verde heñe Jñgaangur til Lijfsins. Hid Fyrsta hañs blessada Ord kieñer oss ad tilgiefa vorum Ovinum af Hiarta, og er þad svo Naudsynlegt Christnum Mañe, ad hañ gietur ecke aan þess erft eilijft Lijf. Þvi vier høfum þad i Skilmaala Daglega, þegar vier lesum þa fullkomnu Bæn, er DRotteñ JEsus hefur feinged oss i Hendur, til ad bera fram fyrer Haatign þeirrar dijrdarfullu Guddoomsins Preñingar, og lyktad hana med þessum Ordum: Ef þier fyrergiefed Moñunum þeirra Avirdingar, Þa mun saa Himneske Fadereñ tilgiefa ydur: Eñ ef þier fyrergiefed ei Moñunum þeirra Misgiørder, þa mun miñ Himneskur Fader ei forlaata ydur, ydar Synder. Þad Añad Orded sijner oss Omælanlega Stærd Guds Naadar yfer Syndugum Mañe, og tekur allañ Efa fraa þeim, sem berst vid Daudañ, um þad, ad Guds Fødurleg Giæska vilie uppgiefa honum alla Skulldena, Hversu sem hañ er hinum verstu Syndum hladeñ, nær hañ ydrast þeirra af Hiarta. Og þoott ad ecke hafe aller þañveg syndgad, svo sem þesse Stoorbrota Madur, vid hvorn DRotteñ mællte þesse Lijknar Ord, þa er þo eingeñ svo Heilagur, ad ei mune honum þykia sijn Af-

brot noogu ſtoor og mørg, ſier til Fordæmingar, þegar komed er ad Reikningsſkapar Tijmanum: Og epter eingum vita Meñ ſvo margar Synder, ſem epter ſialfum ſier. Pvi giet eg ei añad ſied, eñ ad ſw Guddoomlega Fyrerhyggia hafe þvi ſvo tilſkickad, ad þeſſe Veſælingur ſkyllde verda i ſamre Fordæmingu med allrar Veralldareñar Frelſara, ollum þeim til Epterdæmis æ Daudaſtundune, ſem æ Nafn ſijns Eingietens Sonar trwa mundu. Hid Pridia kieñer oſs þad, ad jafnvel þoott vier eigum ad vera fleſtum Tijmañlegum Hlutum afhuga, nær ad þvi er komed, ad vier eigum ad gialld a Gude hina Siijduſtu Skulld, þa er þad eingañveigeñ honum æ moote, Langtum helldur af honum boded, ad hafa Gudrækelega Forſioon fyrer Naaungum vorum og Vandamoñum. Pad kieña oſs Dæme Gudhræddra Maña, hins gamla Iſraels, og ſvo Davids Iſraels Konungs, Svo og liet Gud ſegia Ezechiæ Konunge: Gior Raadſtofun þijns Hwſs, þvi þu ſkallt deya. Po miñer oſs allra hellſt æ þeſſa Kiærleikans-Skylldu, Bleſſad Dæme Guds Eingietens Sonar vors Frelſara. Eñ til þeſſ ad hañ kieñde oſs, ad ei ſkyl dum vier þvijnga oſs med ofmykilre Sorg fyrer vorum Aſtvinum i Daudans Tijd, hverſu ſem þeir væru Munadarlauſer epterlaatner, þa hafde hañ ecke ſtoor Umſvif fyrer ad Raadſtafa ſiñe Elſkulegre Moodur, helldur fool hana alleina æ Hendur ſijnum ſaatækum Lære-

ſvein.

ſvein. DRotteñ liet oſs epter eina Bæn, hveria aller Chriſtner Meñ Daglega brwka til ad frambera ſijna Naudþurft med fyrer hiñ Alvallda Gud; Þar i eru Sio Bæner, eñ alleina ein hlioodar um̃ Lijkamans Naudſyn. Chriſtens Mañs Daude æ hañs Lijferne lijkur ad vera, þvi talade og DRotteñ Sio Ord æ Kroſſenum, og var alleinaſta Eitt þeirra um̃ Tijmanlega Hlute, ſvo ad hañ kieñde oſs þar med, ad Eitt være Naudſynlegt, ſem er ad bwa ſig til Daudans, allt hitt mætte vera ſvo ſem Hiaa Verk hiaa þvi ad Reikna: Skylldu Meñ þvi ecke plaaga ſig med Um̃hyggiu mykellre fyrer þvi, ſem ad Gud giefur ſijnum Elſkendum, Jafnvel þa þeir ſofa. Hid Fioorda og Fim̃ta ſijna oſs Oum̃rædelega Poleñmæde Guds Eingietens Sonar. J honum bioo oll Fylling Guddoomſins Lijkamlega, ſvo ſem Paulus vottar, ſam̃t þreyngde ſvo Kvoleñ ad hañs Naatturlegum Lijkama og Saalu, ad hañ þyrſte wt af Ofraun Pijſlaña, og þo talade hañ þeſſe alla Hoogværuſtu Ord: Gud Miñ, Gud Miñ, hvar fyrer hefur þu yfergiefed mig? Þau eru Upphaf hiñs Tuttugaſta og Aññars Davids Pſalms; Er allur hlioodar um̃ hina Bitru Pijnu DRotteñs æ Kroſſenum, Og ſvo um̃ hañs orugt Trauſt uſu Frelſunena af Daudanum. Nu liggur oſs æ eingu meir i hiñe ſijdurſtu Baraattu vid Daudañ, eñ æ Poleñmædeñe. Vitum þvi, ad Faderen̄ liet ſiñ Eingieteñ Son lijda ſvo myklaa Pijſl-

 er

er a Krossenum, svo sem nægia kinne hans Gud-doomlegu Riettlæte og Endurlausn Mannkynsens, enn ecke framar, svo skulum vier og meina, ad þegar Lijkamans Veikinde þvijnga oss i Bana Soottenne, þa lætur hinn Trwfaste Gud oss þo eckert lijda framm yfer þad, sem vier faaum stadest, og alleina þad, sem kunne ad tilreida oss þess betur honum i Hendur, enn ecke meira. Eigum vier þvi ad hugsa, ad þegar Siwkdoomurenn pijner oss hvad sarast, ad Gud hafe oss þess meire Dijrd og Sælu ætlad, hverrar Smeckur og farsæl Epterbid, ad dyfer alla Lijkamans Kvol, nær Guds Ande uppvekur hana i vorre losnu Tialldbwd, þegar hun tekur til ad sundur glidna i Fiorbrotunum: Og er einginn Efe a þvi, ad hann er oss þa hvad næst ur, til ad sijna oss inn fyrer Himnarijkis Dyr, um hveriar vier eigum nærre Samstundis ad ganga i Vors HErra Fognud: Þvi til þess var JEsus yfergiefenn i sijnu Dauda Strijde, ad vier af Heilogum Anda skylldum ecke verda yfergiefner, þegar oss mest aliggur.

J hinu Siotta Orde DRottens, er oll vor Saluhialp innefalenn. Allt hvad hann Blessadur hafde lided fyrer Syndarann fra Moodur Lijfe og þangad til, þad var þa fullkomnad og fullnadar Gialld wtlagt fyrer Syndena, svo eckert var epter nema ad deya. Og hefur hann þvi hier openberlega lijst a Krossenum, og giefed ollum Sannydrande Manneskium fulla Qvittantiu fyrer alla

þa

þa Skulld, er þeir ættu Gude ad giallda; Eñ neglt þa Handskriftena a Kroſſeñ, ſem moote oſs var. Og med þvi ad Trweñ er alleina þad, hvar fyrer Maũeſkiañ hoolpeñ verdur, þa hefur hañ under ſitt Andlaat feinged oſs þeñañ Grundvoll til ad byggia vora Trw a i Andlaatenu, hvor alldrei kañ ad ſkeika, Þo Himen og Jörd forgange. Og hver ſem ad honum nær (eñ honum na aller þeir ſem þad af Hiarta gyrnaſt) þoott alldrei hafe hañ ſvo margar Synder a Bake, og ecke nema Eina Stund erfidad i Vijngarde DRottens, hañ ma full oruggur ſeigia med Paulo, 2. Tim. 4. Eg hefe goodre Baraattu bareſt, eg hefe Skeided fullkomnad, og hefe Trwna vardveitt. Framvegis er mier aſſiidis lögd Corona Riettlæteſins, ſem DRotteñ hiñ Riettlaate Doomare muñ giefa mier a þeim Dege. Þad Siounda og Siijdarſta Ord Vors Lauſnara, Er hid allra Huggunarſamlegaſta, þar hañ fool ſiñ Anda a Hendur Födurnum, Þvi hañ hefur ecke einaſta afhendt honum ſijna Heilögu og Oſleckudu Saal, Hvor ed ecke viſſe af Synd, helldur og i Krapte ſijns Andlaats og allrar Forþienuſtu, allra þeirra Saaler, ſem verda eirn Ande med honum adur eñ þeir andaſt, ſvo ad nær þeir hafa leitaſt vid epter þeim Krapte, ſem Guds Ande verkar i þeirra Breiſkleika, ad fylgia epter ſijnum Hertoga i Daudans Striide, þa meiga þeir med fullu Trauſte fela ſiñ Anda Gude a Hendur, Þvi hañ er honum adur faleñ med

 þeſſu

þessu JEsu Andlaats Orde, ſvo ad eingeñ Magt, Hverke Dioffull nie Helviite Hverke Synd nie Daude, kañ ad ſlijta oſs af hañs volldugre Hende, ſem ollum Hlutum ſtioornar, bæde a Himne og Jördu.

Nu fyrer þvi Vel Edla Syſter, ad hinum goda Gude hefur þocknaſt i Raad ſiñe, ad vitia Idar med þeim Kroſsburde, ad þier hafed matt ſiaa a Bak Idar Hiart-Kiæruſtu Aſtvina um̃ nockra Stund; Eñ hefur þo tempraad þeſſa ydar Sorg med þeirre Rijkuglegre Huggun, ad þier hafed ſied þa ſkilia vid þeñañ vonda Heim, med Gudrækelegum og Chriſtelegum Underbwninge, epter Dæme ſijns Frelſara, Svo ad þier vited þa nu unvañ ydur farna i þa eylijfu Glede, ſem ecke hefur Auga ſied, og ecke Eyra heyrt, og ecke hefur i nockurs Mañs Hug edur Hiarta komed: Þa hefur mier til Hugar komed ad biooda ydar Gofugheitum þeſſar Einfalldar Predikaner wt af þeim Sijduſtu Ordum DRottens JEſu a Kroſſenum, til lijtillrar Þacklætis Miñingar alls ydar Agiætis vid mig og mijna, Hvad eg og giore med þeſſum ſaam Ordum. Lijtill er þeſſe Skeinkur ad ſoñu af miñe Hende, og ecke þeſs verdur; ad hañ a eirn Haatt kuñe ad ſambiooda ydar Dygdarijke. Eñ ſie hañ meteñ epter hañs Perſoonu, fraa hverium hañ er i Fyrſtu komeñ, Þa er hañ bæde ſtoor og þarfur, þvi ad þeſſe Giæſkurijku Ord Vors Frelſara, eru ſaa Læknisdoomur, er ſierhvor Chriſteñ

Madur

Madur ætte ad taka med sier i sijna Dauda Sæng, og þeim alldrei wr Miñe sleppa, þar til ad DRotteñ blessar oss, svo ad þegar aller Lijkamans Kraptar eru ad Protum komner, og vier so ad seigia ecke lifum framar, þa life Christur i oss, og ad hvort sem vier Lifum edur Deyum, þa sieum vier Christi. Og ad þessu svo fyrermælltu, vona eg ad ydar Vel-Edla Kveñ-Prijde mune virda þessa mijna litla Pienustu, epter þvi sem eg hefe Siñe og Vilia til ad þocknast ydar Systur Dygd, eñ ei epter þvi sem eg ætte, edur Skyllda mijn bijdur. Oska ydar Gosugheitum svo ad Enda sem Upphafe, Guds Astar og Vinatttu, og ad hvorke Daude nie Lijf, hverke Einglar nie Hofdingia Dæme, nie Vellde, hverke þad Nærveranda nie Epterkomanda, hverke Hæd nie Dypt, edur nockur oñur Skiepna fæe skiled ydur vid þañ Kiærleika Guds, sem er i Christo JEsu DRottne vorum.

Þess Oskar af Alhuga
Ydar Vel-Edla Kveñ-Prijdis
Einlægur og alls Goods ûñande
Vinur og Mæunge,
Jon Thorkelsson Vidalin.



Til

# Til Lesarans.

Hyrer þvi ad eg merkt hefe, ad þær Bæk-
ur, sem ad wtskijra Historiu Pijnuñar
og Daudans DRottens Vors JEsu
Christi, sieu ad, mestu wrgeingnar, Pa læt eg
þessar Einfalldar Predikaner wtgaanga til þess,
ad þær lesast meige um̃ Fostu-Tijmañ, aasamt
Pijningar Historiuñe, af þeim, sem ecke añad
hafa. Oskande af Alhuga, ad þær verda mættu
Guds Prij Einum, fyrst og fremst til Lofs og
Dijrdar, Eñ Christelegre Kyrkiu til Uppbygg-
ingar, og hañs Bornum þar iñe til Saalar-
Nota. Pad Bænheyre Gud, fyrer JEsum
Christum, AMEN.

Jon Thorkelsson Vidalin.



Añar

# Añar Formále.

## Vinsamlegum Lesara, Heilsa og Fridur.

SAfnest til samans, og heyred, Syner Jacobs, Heyred, seige jeg, Jsrael Fødur ydar. Þessum Ordum talade Fordum Daga Forfaderen̄ Jacob til Sona siña á deyanda Dege, þa hañ giørde sitt Testament, og blessade hvern þeirra med eirne sierdeilislegre Blessan, Gen. 49. Vor Blessade Endurlausnare JEsus, Sem komen̄ er af Jacob og Fedrunum epter Holldenu, Rom. 9. Hver ad er og Fader Eilijfdareñar, Esa. 9. Og i hverium hiner Heidnu eru ordner Andleg Jsraels Børn, Samarfar og Hluttakendur Guds Fødurs Fyrerheita fyrer Evangelium, Eph 3. Hañ hefur, seige jeg, talad til vor á deyanda Dege i þeim Testamentis Ordum, hver hañ talade, Ecke i reiddre Hvijldar-Sæng, Ecke á hægum Kodda, sem Jsrael, helldur af Krossenum, á hveru hañ var med Járn-Gøddum negldur á Høndum og á Footum, Og i þessum sijnum Testamentis Ordum hefur hañ ecke einasta Toolf Persoonum, svo sem Jacobs Syner voru ad Tølu, helldur hverre og eirne Naud-þurfande Sálu Sierdeilislega Blessan, Huggun og Hiartans Endurlijfgun epterláted. Þesse hañs Seinustu Testamentis Ord eru ecke sijdst á medal allra þeirra Orda, sem JEsus hefur talad, Bæde Ande og Lijf, Joh. 6. Hañ talade þau ad søñu med Ormættre Tungu, þa hun i Kvølen̄e under Daudañ lodde vid hañs Goom, Ps. 22. Eñ samt eru þau Kraptur Guds til Sáluhiálpareñar, hverium þeim sem trwer, Rom. 1. Þegar Postulen̄ Petur sá JEsum i hañs Forkláran á Fiallenu Helga, og heyrde Moysen og Eliam tala þar vid hañ um̄ hañs Utfør, sem hañ munde fullkomna til Jerusalem, Sagde Petur til hañs: Meistare, Gott er oss hier

ad

ad vera, og giørum hier upp Priaar Tialld-Bwder, Pier Eina, Moysi Eina, og Eliæ Eina, Luc 9. J þessare Book, sem hier kiemur nu fyrer Siooner, Vinsamlege Lesare, Virdest mier ad heñar Author Vel-Edla, Vel-Eruverdugur og Haalærdur Mag. JON THORKels-Son Vidalin, Biskup Skaalhollts Stiftis, Svo sem vid siina Hønd leide þig og mig uppaa Eitt Fiall: Eige Fialled Lybanon, aa hveriu Faber Stapulensis helldur, ad Forklaaran HErrans Vors JEsu Christi hafe skied; Eige uppaa Fialled Sina, Hvar ed, epter Meiningu þess Froma Ephræmii Christur skyllde hafa Forklaarast, Og aa hveriu Fialle Gud liet sig Fordum Daga siaa og heyra med Elldingum, Reidar-Prumum, og sterku Lwdurs Hlioode, Exod. 19. Ecke uppaa Fialled Tabor, Sem Fedurner seigia Samhliooda, ad vered hafe Forklaarunar Fiall vors Frelsara JEsu, Hvar Petur villde giøra Priaar Tialldbwder, Og so ad seigia, hafa þar sitt Himnarijke aa Jørduñe: Helldur erum vid hier leidder til eins Audvirdelegs Fialls, Sem er Fialled Golgatha, fullt af Hausa-Skielium og rotnum Beinum Aumkunarverdra Syndara, Hverier aa þessu Fialle vegna siña Glæpa Lijfflaatner voru. A þessu Fialle er Authorsins Asetningur, ad siina JEsum, Eige svo sem i hañs Forklaaran, helldur i hañs stærstu Nidurlægingu: Eige i Skijnande Himneskre Byrtu, J hverre hañ liet Petur siaa sig aa Fiallenu Helga, 2. Pet. 1. Helldur leider hañ JEsum hier fyrer Siooner al-Bloodugañ og Beinum bladeñ fraa Hvirfle og allt til Ylia, Svo sem þad Rietta Slaatrunar Lamb, og Foornfæring fyrer Illvyrkiana og allrar Veralldareñar Synder. A þessu Forsmaanarlega Synda-Straffs Fialle saaum vier ad siaa sialfañ Gud, og heyra hañ talande til vor Mañaña, Eñ þo ecke i Elldingum nie Reidar-Prumum, sem aa Sina Fialle, helldur talar hier saa Odaudlege Gud under siñ Dauda, Ord Hiaalprædesins, Ord Huggunareñar og Ord þess Eilijfa Lijffins, Joh. 6. J siinu Testamente

fyrer-

fyrersagde Forfadereñ Jacob Sonum sijnum, þad, sem epter hañs Dauda munde a þeirra Daga drijfa:, J þessum sijnum Siø Testamentis Ordum seiger JEsus oss fyrer, hvad yfer oss mune koma, Ef vier hañs Ordum fylginm, Sem er ein Owtsegiauleg og Dijrdarsamleg Glede og Eilijft Hiaalpræde Saalnaña, 1. Pet. 1. Og med þvi, ad þesse Book mijns Vel-Edla Collegæ hefur borest mier i Hendur, Hefe eg hana med Athuga yferleseð: Og af þvi eg hefe i heñe funded mijnu Hiarta eina Gudlega Fullnægiu, virdest mier ei Tilheyrelegt, ad vera svo Øfundsamur, vid Guds Søfnud hier i Lande, Ad laata Bookena ecke Almeña verda og a Prent wtgaanga, øllum þeim sem hana vilia Jdka til sañrar Saalareñar Nytseme: Sierdeilis, þar sem i voru Møodur-Maale er aungva þa Book ad faa, sem wt af fyrer sig, høndlar um þaug Siø Christi Ord a Krossenum, Po nockrar Bækur kuñe eñ nu til ad vera wt af hañs Pijnu Almeñelega. Eñ jafnframt þessu hefe jeg, Vinsamlege Lesare, ad miñast a, ad i Book þessare framkoma Forn-Støsud Ord, Hverra Bookstafan eg hefe ei viliad umbreita; Þar eg veit hun er riettare og betre eñ sw nijrre, sem um nockurn Tijma hefur vered brwkud; Vonande ad eingeñ mune sig a þessu steita kuña, Sierdeilis þar þvilijka Bookstafan er og i sialfre Biblinñe ad fiña, Einkañlega i þeirre, er saa Lofsverde Biskup, Saaluge Herra Gudbrandur lict fyrst wtgaanga. Og være Oskande ad vort Rietta og Gamla Moodur-Maal, Eñ ecke afbøkud Framande Twnga, (eg vil ei seigia Maalleisa) mætte i þessu voru Fødur-Lande, Þvi og sialfum oss til Æru vidhalldast. Brwka nu þessa Book, Christeñ Lesare, med Gudrækne, Og ef þu þad giører, Vpga eg ad losa þier, ad þu ei sijdur eñ Petur a Fiallenu Helga fiñer i heñe Unadsemd þijns Hiarta; Og þa mun þiñ Blood-Brwdgume JEsus, Sem fyrer þig er daaeñ, J þier Lifa, J þier Byggia, J þier Riettlæte, Frid og Fognud, Poleiñnæde og Huggun,

Trw og Von, Myskunsamlega verka: Jaa, J þijnu Hiarta sitt Andlegt Rijke byggia, Og ad þu med hønum og hañ med þier Life og Rijke Eilijflega, Hvers þier og øllum Guds Børnum af Hiarta Oskar þiñ og þeirra Velviliadur Vin og Þienare.

Skrifad ad Hoolum i Hialltadal, Þañ 28. Februarij, Anno 1716.

Steinn Jonsson.





# Predikun

wt af þvi
Fyrsta Orde DRottens JEsu Christi a Krossenum.

## Fader/ Fyrergief þeim þad/ Þviad Þeir vita ecke hvad Þeir giøra.

DRottenn Blessadur Endurlausnare DRottenn JESus talar þannenn umm sialfann sig, Matth. 23. Eirn er Meistare ydar Christur, Enn þier erud aller Brædur. Hvad hann hefur ecke alleinasta sagt med Munnenum, helldur eirnenn a Døgum Hiervistar sinnar framkvæmt i Verkunnum. Þar er eckert Ord edur Atvik i allre hanns Hegdan, Sem upp er Teiknad og i Fraasøgur fært, ad ecke sie þad Frodsamt

af Parfleguſtu Heilræedum til Lijfs og Sælar. Og er þad ecke um̃ Skør fram̃, ad han̄ nefneſt SOOL RJETTLÆte-ſins, hiaa Malach. 3. Pvi fyrr maa hid Bleſſada Lioos Veralldar (er hiner Spø-ku kalla Auga Heimſins) miſſa ſijna Bir-tu, Eñ ad Lioome Fødurſins Dijrdar, Hebr. 1. kuñe ad vera aan hiña ſkiæruſtu Guddoomſins Geiſla, ſem bæde i Lifnade og Lærdoome wtſtriaalaſt eñ þa i Dag til allra Maña, og þreyngia ſier i giegnum Myrkur Veralldareñar iñ i þeirra Au-gu, hvørium hun hefur ecke ſett aa Naſer Brillur Holldlegrar Fyſne og Dramb-ſamlegs Lijfernis, Svo ad Siaaande þa ſiaae þeir eige, og Heyrande heyre þeir eige, Act. 28. Svo þad maa jaata ſatt ad vera ſem Johañes um̃ han̄ talar Cap. 1. J hønum var Lijfed, og Lijfed var Lioos Mañaña, og Liooſed lȷſer i Myrkrunum, Eñ Myrkureñ høndludu þad ecke. Og hvør er ſaa þad vilie ei med Hiarta og Muñe jaata? Han̄ gieck i krijng, giørde Gott, og Græddе alla, Matth. 9. Alla Hlute giørde han̄ vel, Pvi Dauſa liet han̄ heyra, og Maallauſa tala,

tala, Marc. 7. Hañ kiende med Muñenum, Hañ saa Aumur aa þeim Voludu med hañs Blessudu Augum, Hañs Myskunnar Eyru voru opeñ vid Kveinstøfun hiña Naudstøddu, Hañs diwpu Myskunnar Ydur hrærdust af Medaumkan yfer Eymdum þetrra sem voru Limer hañs Lijkama, Af hañs Hollde og af hañs Beinum, Hañ fañ Krapt wt af sier gaanga moote þeim Trwudu, Hañs Signudu Hendur hoof hañ ad Himne upp til Bæenareñar, Hañ took sier Brauded i Hendur til Blessunar, Hañ aahrærde þaa Siwku þeim til Lækningar, Hañ wtdeillde Syndugum Moñum sitt Blessada Holld og Blood til Hiaalpsamlegrar Nautnar. Og hvør er siv Daasemd, mïñ HErra JEsu, sem ad ecke øllu fegur skijne i þijnu Heilaga Lijferne, Eñ hiñ biarte Himensins Herskare aa Festinguñe? Þad kañ eingeñ svo vel ad wtskijra sem hin Vel-lærda Twngañ, Er sagt hefur: Læred af mier, Þvi eg em Hoogvær og af Hiarta Lijtelaatur, Matth. 11. Nu þo ad øll JEsu Uñgeingne hier aa Jørduñe sie hiñ skiæraste Dygda Speigell Christens Mañs,

þa skijn hun þo hvad fegurst i hans Dauda og Pijnu Historiu.

Þegar Myrkur Daudans tooku til ad skyggia a Sool Riettlætesins, Þa var heñar Byrte mest i Dygdum og Eptærdæmum: Þegar þaug Blessudu Augun, Sem eru Þusundsiñum skiærare eñ Sooleñ, tooku til ad siaa ecke leingur, Þa lioomudu þaug allra biartast i Bendingunum til vor Syndugra Maña, til ad kieña oss hina Andlegu Vopnfime i þvi sijdarsta Dauda Strijde. Odrum Siñum hafa hans Raadar Læker wtfloted til allra Maña: Hier hefur hañ Uppløked Underdiwpum siñar Guddoomlegrar Giæsku. Tijtt hefur hañ Miñst vid hana sem hans Hiarta elskar med Kosse sijns Muñs, Cant. 1. Hier er Elskañ ordeñ hønum svo sterk, sem Daudeñ, Ibid. 8. Hans Matur og Dryckur var ad giøra þess Vilia sem hañ sende, Joh. 4. Eñ hier er hañ Fødurnum Hlijdeñ ordeñ allt til Daudans, Jaa, allt til Krossens Dauda, Phil. 2. Fyrer þvi krefur St. Paall þess, Hebr. 12. Ad þeir hafe þetta fyrer Augum sier, sem eru med Guds Dijrmætu

tu Bloode Endurkeypter, Segiande: Mīnest a þañ sem Mootmæleñ þolde af Syndurunum i giegn sialfum sier, ad þier Vanmegnest ecke yferkomner i ydar Hiortum. Paulus þeckte eckert þad, sem svo vel mætte kieña Syndaranum ad rekia Blood-Ferel sijns Heilsugiafara i giegnum margskonar Hørmungar iñ i hañs Dijrd, svo sem Ihugan þessa, Þar trwande Mañs Auga lijtur hid Saklausa Guds Lamb, Hangande a hinum Smanarlega Krossens Galga, under allrar Veralldareñar Syndum: Og þvi segest hañ eckert gyrnast añad ad vita, Eñ JEsum Christum, og hañ Krossfestañ, 1. Cor. 2. Vier eigum og þañeñ Lynder ad vera, Hvíad i JEsu bitru Kvøl, sem hañ þolde fyrer vora Skulld, er hañ oss fyrer Augun afmaaladur med hañs Heilaga og Dijrmæta Bloode, J hveriu hañ þvode siñ Møttul a Dege vorrar Heilsugiafar, svo þar var eingeñ Mynd edur Alit a hønum: Hañ var Forsmaan Mañaña og Fyrerlitning Foolksins, svo Meñ huldu sijn Andlit fyrer hønum, Foroktudu hañ og einkis virdtu, Nema þeir, sem

Trweñ ſijner, ad hañ hefur bored Krankdæme vor og Orkunſlun vorum a ſig hladed, So Hegningeñ hefur a honum leiged, uppa þad vier Frideñ hefdum, og ad vier erum fyrer hañs Beniar Heiler vordner, Eſa. 53. Og þeſſe Bloodug Aſijnd Eingietens Sonar Guds, ætte ad temia oſs i Medlætenu, Styrkia i Mootgaungenum, og wtſlockva i oſs alla Elſku til Heimſins og ſiaalfra vor, eñ upptendra Kiærleikañ til Guds og Naungans, ſvo oſs giøre fwſa ad forlaata þeim, er oſs i moote brioota, Þvi i Krapte þeſſarar Dijrmætu Foornar, i hvørre Gud forlijkade Verølldena vid ſiaalfañ ſig, hefur hiñ Ypparſte Preſtur og mikle Hyrder Sa-udaña, 2. Cor. 5. Beded fyrer ſijnum Kvølurum med þvi Fyrſta Orde, Er hañ talade a Kroſſenum, Og ecke einaſta fyrer þeim, helldur fyrer øllum oſs Syndugum Moñum, er þad gietum ei af oſs bored, ad vier høfum Konung Dijrdareñar Kroſsfeſtañ med illum Athøfnum vorum, J hvørium hañ Ervidade. Eñ þu ſem þad heyrer, Chriſteñ Madur, og hyggur þar ad, Laat þier þad ſæma, ad þu Prijſ-

er

er Dauda DRottens, fyrer hvern þu lifer, i þvi ad fylgia hans Dæme, og Forlaat þeim af Hiarta er vid þig Ofgiørt hafa. Svo athugum nu Tvent hier af. 1. JEsu brennande Elsku til Syndugra Manna. 2. Hvernen vier eigum i hans Footspor ad gaanga.

En þu sem barst vorar Synder, virdst þu ad giefa oss þinn Anda hier til, Sæl ed leide oss i allan Sannleika, AMEN.

Vel talar St. Paall um Elskuna Christi, Ad hun sie ædre ollum Vitsmunum, Eph. 3. Ecke einasta þess vegna, ad eckert er til allra Saalar og Lijfs Nota gagnlegra, en sæ Kiærleike, Er Riett-trwud Guds Børn hafa æ Christo JEsu, helldur og hins annars, ad sw heita Ast er JEsus hafde æ oss i Syndenne dauðum, hun yfergnæfer allann Mannlegann Skilning, Og hana kan eingenn Syndug Twnga med Ordum wt ad skijra. St. Paall seger um Kiærleikann, 1. Cor. 13. Ad hann leite ecke þess sem hans er: Hafe þad nockur sannad, þa hefur JEsus ollum betur, er hann bad sinn Himneska Fodur fyrer sijnum Ofsooknurum. Hvar eru nockurn Tijma þvilijk Dæme? Hans Blessada Holld var sunndurkramed af Bondunum, Hans Asiaana asmyndud af Hræknunum, Prwtenn af Pwstrunum, hans Bloodrisa Lijkame sundursliten af Hwdstrokunum,

 unum,

unnum, Hañs signada Hofud sundurstunged af Pyrne Broddunum: Hañ var Mœatthrota vordeñ under hiñe þwngu Krossens Byrde a Vegenum, og an allrat Myskunar var hañ særdur og lemstradur a ollum Lidum og Linum; Hañs Hendur voru a Krosseñ negldar; Hañs Fœtur i giegnum stwngner; Hañ var flettur sijnum Klædum, og svo sem ein Bolvan uppheingdur a mille Himens og Jardar til Spotts og Hadungar fyrer allra þeirra Augum er fram hia geingu, og skooku sijn Hofud yfer slijkre Forsmaan, samt heyrde eingeñ af hañs Muñe nockurt Oþoleñmædes Ord: Eckert talade hañ um þessa herfelegu Pijsl: Eckert um þeirra Hardwd er hañ Krossfestu, Eckert um þeirra Brijxle er hañ dæudu, Alleina flaut þesse Lijknar Ræda wt af Bruñe Myskunareñar, og þeim Vorum a hveriar Dauden er wthellt, Ps. 45. Fader Fyrergief Þeim Þad, Þvi Þeir Vita Ecke Hvad Þeir Giora. Hveriumþa? Þeim sem mig offooktu, Bundu, Hræktu i mitt Andlit, Sloou mijna Asioonu, Hwdstrijktu mig, Þyrnum Coronudu, Krossfestu, Þeim ed mig nu Lasta og Nijda, skaka sijn Hofud yfer mier, og med allskyns Hadungum vanvirda; Fader Fyrergief Þeim Þad. Þeir eru þo Holld af mijnu Hollde, Eph. 5 Sem mitt Holld i sundur slijta, Bein af mijnum Beinum, er mijn Bein i sundur merja; Þeir eru þo þijner Syner fyrer Skopunena; Sem nu gioraſt Diofulsens Born fyrer Ofertrod-

trodsluna, Minst ecke þeirra Illgiorda, helldur þiña miklu Myskunsemda; Lijt ecke til Synda Illvirkiaña, helldur þess Lausnar-Giallds sem nu er Eg fyrer Illvirkiañ wt ad leggia; Fyrergief Peim Pad (Kiære Fader) Pvi Peir Vita Ecke Hvad Peir Giora. Pesse er aan Efa Meiningeñ i Bæneñe vors Endurlausnara: Eñ seig mier Christeñ Madur; Hefur þad nockrum Mañe i Hug edur Hiarta komed, hvilijk ad sie þesse Guddoomlega Elska? Edur kañ þad nockur Eingla edur Maña Skilningur ad grijpa? O! HErra Gud, Hier uñ er þad sañ-kveded sem Salomon i Lofkvædenu talar i Brwdgumans Orda Stad Cap. 8. Elskañ er sterk svo sem Daudeñ, og Vandlætingeñ þwng svo sem Helvijted, Ellds-Glædur eru heñar Glædur og eiñ Ellds-Loge: Mykil Votn kuña ecke Elskuna wt ad slockva, og Vatnsfolleñ saa hana ecke kafed. Pegar hin mykla Hetia, Esa. 9. stood ad þvi Erfvide, ad kasta vorum Syndum i Hassens Diwp, so þeirra yrde ecke miñst ad Eylijfu, Mich. 7. Pa vard hañ wthelltur svo sem añad Vatn; Hañs Bein glidnudu og hañs Hiarta braadnade so sem Vax i hañs Ydrum, Ps. 22. Po kuñe ecke Flood Neideñar ad slockva Elld Elskuñar; Straumar Mootlætingaña þornudu upp af Kiærleikans ofur Hita, Svo ad hañ gleymde sialfum sier, eñ miñtest þeirra er honum moote giordu. Hañ siñte ecke þvi, af hverium hañ var deyddur, helldur fyrer

er hvoria hañ doo, hañ læknade þa er hañ særdu, hañ bad þeim Lijfs er hañ Lijflietu, hañ sampijndest þeirra Symdum er hañ pijndu, hañ bad þeim Vægdar, Er an allrar Vægdar med hañ hondludu, Hañ bad fyrer ollum, Pvi hañ var Kroßfestur af ollum: Par uñ spaer Esajas Cap. 53. Hañ hefur bored margra Synder og beded fyrer Yfertrodslu Moñunum, Medal hvorra og erum v er hvorra Synda Broddar hafa hañs Bleßada Hofud stwnged, og hañs Hendur og Fætur a Krossen neglt, Hvoriu til Vitnes eru St. Pals Ord, Heb. 6. Er hañ seiger uñ þa er traudlega eiga Apturhvarfs Von; Ad þeir Kroßfeste sier ad niju JEsum Christum, Hvar af audsært er, ad aller hafa hañ Einusiñe Kroßfestañ, Fyrer þvi ér hañ og eirneñ Forlijkun, Ecke einasta fyrer vorar, helldur fyrer allrar Verallðareñar Synde, seiger Johañes, 1. Joh. 2. Og eitt Siñ fyrer alla daueñ. O! HErra Gud, Hvad skallt þu nu endurgiallda Gude Saala mijn fyrer allt þad sem hañ hefur giort þier, eñ þa adur eñ þu varst til? Maklega hefur hin Guddoomlega Elska prijsad siñ Kiærleika i þvi, ad hun gaf oß siñ Son þa vier vorum hañs Oviner, Rom. 5. Sa heite Elskuñar Brune mætte smellta Hiarta Syndarans i honum, svo sem añad Vax, ad Sonur Lifanda Guds a Krosseñ uppheinadur og af ollum forlateñ, og jafnvel af sijnum Himneska Fodur yfergiefeñ, liet sier fyrst allra umhugad vera, ad af-

bidia þeirra somu Synda Straff, sem uppþurk-
udu hañs Krapt i honum sem adra Skurm, Svo
hañs Tunga lodde vid hañs Goom, Ps. 22. Hañ
bad Fridar þeim Olmu Hundum er hañ umkrijn
gi hofdu, Þeir ed i giegnum stungu hañs Hendur-
og Fætur, svo oll hañs Bein mætte telia, Eñ þeir
horfdu þar æ, og sau Villd sijna æ honum, Ps.
22. Hvad skyllde eg giora þier seiger DRottiñ
Gud vid Ephraim? Skyllda eg ecke giora vid
þig svo sem Adama og Zeboim; Eñ mitt Hiarta
er umhverst i mier, og mijn Ydur breña af Id-
ran, Þvi eg vil ecke fullkomna Verk miñar Bræ-
de, Þviad eg em Gud eñ ecke Madur, Hos. 11. Eñ
hvad hofdu þesser forþienad, Miñ HErra JEsu?
Ad Lijkþrææ hefde Samstundes uppeted þeirra
Holld, svo sem Mariu, Þad var allt oflijted: Ad
Siæfar-Hafed hefde dreckt þeim, Svo sem Pha-
raoni og hañs Her-Moñum; Eñ þad var ei jafn-
vægt vid alla þessa Illsku: Ad Elldur af Himne
hefde yfer þa falled og fortært þeim syndelega, svo
sem þeim Tveñum Fimtijer er Acab giorde fræ
sier til Eliam, Eñ þeirra bolvud Bræde var eñ þa
stoorkostlegre: Ad Jordeñ hefde gleypt þa lifan-
de svo sem Core, Datan og Abiram, og ad þeir
hefdu kviker til Helvijtes fared, Þad voru þeirra
forþient Laun, samt hrærdest hañ Medaumkunar
yfer þeim, þa eingeñ hañ aumkade; Hañs Hiar-
ta brast i honum, svo hañ hlaut þeim Myskunsam-
ur ad vera, Jer. 31. Þa honum eckert Auga

Mysk-

Myskunade, Hvar fyrer? Af þvi hañ var bæde Gud og Madur komeñ af Fedrunum epter Holldenu, Og þo ei ad sijdur Gud Blessadur yfer alla Hlute um̃ Allder Amen, Rom. 9. Þegar hiñ Eingietne Sonur Guds, J hvorium honum allleina velþocknast, beidde siñ himneska Fodur, ad hiñ Beyske Kaleikur mætte fraa sier takast, þa beidde hañ med Fororde: Fader, Ef Þad Er Þiñ Vilie, Þa Tak Þeñañ Kaleik Fra Mier: Eñ þegar hañ bidur fyrer þeim er hañ kvoldu og a Kroßeñ negldu, Þa bidur hañ Fortakslaust.

Fader Fyrergief Þeim Þad, Þvi Þeir Vita Ecke Hvad Þeir Giora. Miñ HErra JEsu, Hversu munt þu dryckia þaa med Vellystingaña Straumum, er laanga epter þier. Svo sem Hiörteñ laangar epter ferskt Vatne, Ps. 42. Þar þu varst þeim svo Naadugur sem þig spottudu? Mun hañ nockud spirna honum i burt af siñe Foot-Skör, sem Ervidar og Þwnga er þiadur, er svo var Myskunsamur þeim hañ þvijngudu og þiadu? Hvad mun hañ giora þeim sem koma til hañs med Harmþrwngnu og Sundurknosudu Hiarta, sem svo fagurlega bad fyrer þeim sem foroktudu Rijkdoom Guds Laanglundar epter þeirra forstockudu Hiarta? Rom. 2. Maa nockud Konañ gleyma sijnu Barne, Avexte sijns Kvidar? Og þo hun gleyme þvi, þa vil eg samt ecke ydur gleyma, seiger DRotteñ, Es. 49. Hier tekur JEsus allañ Efa af þessum Sañendum: Eingeñ Lækner kañ ad

aumkast svo yfer þeim faarsiwka, Eingeñ Mooder kañ svo ad kieña i Brioste um Akvæme sijns Lijfs, nær hun sier þad kveliast Daudvona; Svo sem Fader Myskunsemdaña lætur sier til Hiarta gaanga Blindne og Faasiñu þessara Olmu Hunda. Og hvørsu heitt hañ beded hafe, Pad er af Bænheyrsluñe audraaded; Pegar Meñ virda fyrer sier Hofudsmañeñ, sem þar stood giegnt Krossenum, Og þad Foolked er med hønum var, Hvørsu þeir prijsudu Gud og jaatudu hañ Guds Son ad vera, er þeir fyrer skomu hofdu svo illa wt leiked: Hvør sem miñest aa þad Foolked, er þar var hiaa og barde sier aa Briost og snere heim aptur, Hvørsu þeir skipndust vid þær Jardteikner er giørdust i hañs Dauda; Hvør sem athugar Evangelij farsællegañ Framgaang, strax epter hañs Himna-For, þa ed Guds Christne efldest um̃ 3000. Mañs aa Einum Dege, Act. 2. Og ad 5000. litlu sijdar geingu Gude til Handa, Act. 4. Hvør sem les þad er Lucas skrifar, Act. 6. Ad Guds Ord hafe vaxed, Og ad Tala Læresveinaña hafe magnlega aukest i Jerusalem, og mikell Fiolde Kieñemañaña hafe hlijdnast Trwñe, hvørier þo aan Efa munu hafa fyllt þañ Malldar-Flock, er Guds Son aalyktudu Dauda sekañ, hañ mun gaanga wr Skugga þar um̃, ad saa hafe margur vered sekur i JEsu Bloode, og hroopad þad yfer sig og siña Hofud sier til Hefndar, er sijdañ hefur þad drucked sier til Myskunar og Saaluhiaalpar,

og ad hier hafe ecke sijdst sañast þad sem Postuleñ um hañ vottar til Heb. 5. Ad hañ hafe a Dögum sijns Hollds Bænum og Fyrerbeidslum Offrad, med oflugu Kalle og Taarafollum, til hañs, sem honum fraa Daudanum hiaalpa kuñe, Og ad hañ sie Bænheyrdur epter Velþocknan. Og er þetta svo sagt um JEsu Christi Guddoomlega Elsku til vor Syndugra Maña. J þeim Sijdara Parte vilium vier læra hvorneñ vier eigum honum epter ad fylgia.

Margt er af þessu Blessudu Epterdæme Vors Endurlausnara ad læra, Eñ þo er eckert þad betur soome, eñ hinar aagiætu Dygder, er ecke meiga vid Christeñ Mañ skilia, Og aan hvorra eingeñ maa Riett-Christeñ heita, Sem er Kiærleikeñ og Poleñmædeñ.

Med sijnu Bloode, a Krossenum wthelltu, hefur Guds Eingieteñ Sonur Endurkeypt sier Eina Brwdur, Sem aungvañ Fleck nie Hrucku hefde, Eph. 5. Hun laa Alls-nakeñ i heñar Bloode, wtkostud a Vijdavaangeñ, Ezech. 16. Eñ strax sem hañ i Krapte Pijnu siñar sagde til heñar, þad hun lifa skyllde, Þa fieck hañ heñe þesse Tvo Brwdkaups-Klæde, Poleñmædeñar og Kiærleikans, Svo ad Blygdun heñar Fatleyses ecke opeñber yrde, Apoc. 3. Þeink þo hvad þetta er Christeñ Madur. Sonur Guds Lifanda fyrergiefur, Skyllder þu þa Heiptrækur vera, sem ert Syndugur Ormur? Hañ giører þeim gott er hañ

Lijf-

Lijfletu, Skyllder þu þa erfa lijten Misverknad? Hañ Fyrergaf þeim sem hañ atte Raad a ad kasta med Lijfe og Saalu i eilijfañ Elld, Villt þu þa ecke snarlega fyrergiefa honum, hvors þu att eckert Valld, og megnar ecke ad granda Einu hañs Hofud-Haare, nema þier sie giefed þad hier ad ofañ? Hañ Fyrergaf, sem var Hreirn og Heilagur, fraskileñ Syndurunum, Heb. 7. Skyllder þu þa ecke fyrergiefa, sem ert i Syndeñe gieteñ og fæddur, Ps. 50. Og sijdañ hefur alldrei aflaated ad Syndga? Augustinus seiger, ad Krosseñ hafe vered Predikunar-Stooll HErrañs Christi, þa hañ mællte þesse Ord, Og er þad ecke uñ Skor fram talad, Þvi hier kiende hañ Guds Gotu i Sañleika, Bæde med Ordu og Epterdæme, ollum þeim sem vilia taka siñ Kross uppa sig og fylgia honum epter: Og hañ kiende svo af Krossens Stoole med Muñenum, ad hañ under eins framkvæmde þad sama, sem hañ var ad kieña, med Verkunum. Gack þvi nær Christeñ Madur, og hlusta til þess er hiñ Ypparste Biskup med þeirre Vel-lærdu Twnguñe, kieñer af Krossens Stoole: FADer Fyrergief Þeim Þad, Þvi Þeir Vita Ecke Hvad Þeir Giora. Fyrst er Bæneñ: Bæneñe fylger Afsokuneñ. Olijkur er hañ þeim sem færa alla Hlute, og jafnvel gooda, edur ad miñsta Koste ecke illa, a hiñ versta Veg, og giora so Ulfallda wr Mij-Fluguñe. Eg verd nockud frekar ad tala uñ þesse Ord: Þeir Vita Ecke Hvad Þeir Giora.

Fyrer hverium bidur JEsus hier? Fyrer Heidingiunum sem hañ Krossfestu, fyrer Gydingunum sem hañ offooktu, ecke Einungis allt til Daudañs, helldur og epter Daudañ, Jaa, fyrer ollum þeim, hverra Synder hañ bar uppaa Tried. Um̃ þaa Fyrstu mun þad Maala sañast, Ad Peir Ecke Hafe Vitad Hvad Peir Giordu. Pilatus jaatade ad sößu, ad hañ finde aungva Dauda-Sok med honum: Eñ ad hañ være hañs Skapare og hañs Endurlausnare, þad visse hañ ecke. Hañ heyrde ad sößu JEsum medkieña, ad hañ være Konungur: Eñ ad honum være allt Valld giefed, Bæde aa Himne og Jordu, Matth. 28. Pad hefur honum, Heidnum Mañe, ecke i Hug komed: Og ecke er ad efa, ad hañ hefur fellt Trwnad þar aa, ad Eitthvad af þvi, sem aa Christ var bored, munde Saknæmt vid Gydinga Logmaal vera: Pootteſt svo vel koma Raade sijnu, ef hañ med eins Mañs Lijflaate, Jafnvel þott hañ bære ei stoor-Saker þar til, mætte stilla Uppreist og Offa þeñañ, ad ecke yrde þar meira Upphlaup af. Og fyrst ad Hofdinge Romveria var svo Ofroodur i þessu, þa er audvitad, ad ecke hefur helldur Strijds-Foolked kuñad meire Grein hier aa, helldur laated sier nægia, ad giora Skipan sijns Herra. Um̃ sjaalfa Gydinga veit eg ecke hvad segia skal. Eg medkieñe, ad Endurlausnareñ hafde svo margar Jarteikner giort aa medal þeirra, ad ei var þeim Vorkun ad þeckia þad hañ være Sonur

Guds:

Guds: Hañ rak wt Diofla, Hañ læknade med Einu Orde allra Handa Vanheilende, Hañ snere Vatne i Vijn, Hañ blessade Brauded, og bad op til margra Pusunda Sadningar, Hañ vakte upp Danda, og hañ hafde fyrer skom̃u med Einu Orde broted þar a Bak aptur, sem um̃ hañ voru kom̃ner, Og allt þetta hafde hañ Opeñberlega, og ecke i Afkimum giort. Hvad þa? Hver skyllde segia, ad hiner lærdu Pharisæi hafe ei vitad þad þeir giørdu? Og eñ framar seger Sañleikskens Muñur: Joh. 15. Hefde eg ecke komed og talad fyrer þeim, Pa hefdu þeir ecke Synd, Eñ nu hafa þeir ecke þad þeir kuñe ad skijla med Synd siñe. Hvad eiga Meñ hier til ad segia? Hefur Christur þa einasta fyrer Strijdsmoñunum beded, þar Kieñemeñerner, Skriftlærder og Pharisæi voru þar eirneñ nalæger þeir ed hæddu hañ og spottudu? Edur hefur vor Endurlausnare þa Ofyrer sinni þetta talad? Fiærre fer þvi, Helldur hygg eg þad satt vera, ad Gydingar hafe ad nockru Leite ecke vitad hvad þeir giørdu, og ei munu þeir hafa leidt i Huga sier, þad hañ være Konungureñ Christur. Valla er mögulegt nærre ad gieta, hversu hiñe Ofyrerlatsomu Kynslood var baagt um̃, ad trwa þvi, ad JEsus være af Gude sendur, fyrer þvi hañ sundurmarde ecke og hropade ecke, og eingeñ heyrde hañs Raust a Strætunum, Esa. 42. Pa villdu þeir ecke laata Timburmañsens Son drottna yfer sier, Luc. 8. Par þeir þoottust þess fullvissir,

visser, ad Messiæ Rijke munde verda af þessum Heime, og ad hañ koma munde med mykellre Tign og Yferlæte. Hañ giørde Kraptaverk, Peir søgdu hañ giørde þau fyrer Beelzebub Diefla Hofdingiá, Luc. 11. Hañ talade ecke eins og adrer Meñ, ad Vitne þeirra sem til hañs voru sender, Peir Rangfærdu hañs Ord, og vm̃snern Guds Sañleika i Lygar: Peir kuñu ecke ad straffa hañ vm̃ nockra Synd, Joh. 8. Po fram̃selldu þeir hañ svo sem Jllvirkia. Hvad munde vallda Pra þessare? Alleina þad, ad þeir kolludu þad Ofgar, ad hañ Guds Sonur være, sem ecke hafde þar ed hañ kyñe Hofde sijnu ad ad halla, Luc. 9. Hvar fyrer þeir tooku sier þa Ohæfu i Muñ, þegar DRottenn kvaldest fyrer þeirra Synder a Krossenum: Hañ hefur treyst Gude, hialpe hañ honum nu, Matth. 27. Og hvad seiger vor Endurlausnare siaalfur, þegar hañ griet yfer Borgeñe? O! ad þu þeckter hvad til þijns Fridar heyrde, Pa munder þu þar Vaktan a hafa. Og hia Johañem i 16. Telur hañ þa sömu Ordsøk til þess Mañhaturs, er Læresveinarner urdu fyrer af Heimenum, segiande: Þetta giora þeir, af þvi þeir þeckia hverke Fodureñ nie mig. Og hvad vilium vier margt tala hier um̃? Læresveinarner sem voru med honum, atu og drucku med honum, sau hañs Kraptaverk, Elskudu hañ, Trwdu honum. Jatudu þad hañ hefde Ord eilijfs Lijfs; Peir vissu ecke þetta svo sem þad Reyndar var, og

hneixl-

bneixludu sig a hans Faatæke; Edur hvad er þetta? HErra; Villt þu nu a þessum Døgum vppriettaIsraels Rijke? Act. 1. Hvoder þad, Ad Salome kiemur til JEsum; og segier: Laat Eirn af Sonum mijnum sitia hier a hægre Hønd, eñ Añañ a vinstre i Rijke þijnu? Matth. 20. Hvad er þad fyrer Ræda, sem þeir Tveir, Er til Emaus geingu, voru ad tala Reikande sijn a mille vm JEsum af Nazareth? Hvor ed var Spaadooms-Madur, Maattugur i Ordum og Verkum fyrer Gude og øllu Foolke, Hverneñ þad þeirra ædstu Prestar og Hofdingiar ofurselldu hañ i Fyrerdæmingu Daudans og Krossfestu hañ, eñ vier hugdum ad hañ munde Endurleysa Israel, Luc. 24. Sogdu þeir: Ja, Philippus hafde svo leinge vered hia Christo, og þeckte hañ þo ecke, og Petur sagde: Ei verde hier þetta, Pa HErrañ talade um sijna Pijnu, og vard fyrer slijka Faakænsku af honum hardlega atalen. Fyrst nu ad þeir sem JEsu svo Handgeingner og nakvæmer voru, þecktu ei betur Guds Raad og Asetning, þa er Olijklegt, ad þeir hañ hotudu, mune hafa kuñad meire Skil a þessum Leindardoome, hvar fyrer Petur eirneñ sagde, Er hañ talade um Saklausañ Dauda og Krossfestingu HErrans Christi: Nu veit eg Brædur mijner sagde hañ, ad þier hafed giort þad af Ovitурleik, svo vel sem ydar Hofdingiar, Act. 3. Vier hofum heyrt hversu ad St. Paall offsookte Guds Sofnud, Og var hañ þo hiñ

 frood-

froodaste i Ritninguñe og Guds Logmaale, samt seger hañ um̃ sig: Eg var til Forna Gudlastare, Ossooknare og Forsmaanare, Eñ eg hefe Myskun ødlast, þvi eg giorde þad Ovitande, i Trwgyrne, 1 Tim. 1. Og eins munu fleire Gydingar hafa vered a sig komner, Pvi þeir villtust, og vissu ecke Ritningarnar, Segier Endurlausnareñ vid Saducæos, Matth. 22. Fiærre sie þvi, ad eg a nockurn Hatt afbata vilie hiñ Dæmalausa Ogiørning Gydinga, Pad forbioode og Gud, ad eg ætle ad hañ hafe haft Skulld i þeirra Blyndne, þvi hier a þad ecke sijdst heima, Sem Ritningeñ seger: Pijn Fordiorfun kiemur af þier, þu Jsrael, Os. 13. Vel mattu Gydingar þeckia, ad JEsus af Nazareth var þeirra Konungur og Heimsens Endurlausnare, Pvi þeim var framar ødrum Pioodum trwad til Guds Orda, seger St. Paall, Rom. 3. Svo þeir høfdu aungva Assokun, nema hiñ eilijfe Medalgaangare mille Guds og Maña, hefde viliad laata þetta fyrer Assokun gyllda. Eñ svo sem þad geingur til fyrer þeim, er vill fyrerkoma Lijfe sijnu, ad hañ birger fyrer Augu sier, adur eñ hañ koll-steypest i Vatned, svo gieck þad og Gydingum, Peir villdu ecke Ransaka Ritningarnar, svo þeir þecktu hañ, þvi þeir hugdu sig vita, ad ei være hañ sa, ed koma skyllde, birgdu svo þañeñ sijn Eyru fyrer ORottens Kieñingu, og Augu sijn, ad ei lite þeir Sool Riettlætesens, þar til þeir steyptu sier i Afgruñ Olucku ñar. Eingeñ kañ ad

vilia hid Illa, i þeirre Meiningu, ad þad sie Illt: Sar sem Reidur er, þeinker þad afar gott ad skeita Skape sijnu, Og aungvu verdur hiñ Agiarne svo feigeñ, sem F'ar-Aflanum, Jafnvel þoott hañ tekeñ sie fra Muñe hins Hwngrada: Fyrst hañs velldur þvi, ad hañ man ecke til þess, ad hiñ strange Doomare mun skipa þeim fra sier i eilijfañ Elld, til ad kveliast þar, med Dioflenum og ollum hañs Arum, Er þa eñ wtsiwga Hws Eckna og Fodurlausra, og ei giæter hañ þess ad hañ mune lijkañ Kost hafa, nema hañ gialldi Varhuga vid. Svo var þvi og hattad fyrer Gydingum, þoott þeir kyñe ecke ad svara honum Einu Orde, edur mootstanda þeim Anda, af hvorium hañ talade, samt hofdu ecke Guds Ord Rwm i þeim, og þo vill Bruñur Myskunareñar, ad þesse sialfskopud Vijte, skule verda þeirra Marle til Umbootar fyrer Auglite sijns Himneska Fodurs. O HErra Gud! Hversu Olijkt er fared Guds Giædsku og Illsku vors Hiarta? Er nockur sa meiddur i Ordum edur Verkum a medal vor, ad hañ legge þad ecke wt a hiñ versta Veg? Ef einhverium af Bradræde kañ ad reña i Skap, sem optlega skiedur, þa kalla Meñ þad af Hatre edur Ofund kome: Ef nockur misbrijtur af Ogaate, Pa heiter þad af asettu Rade: Sie Einhverium misboded i Virdingu siñe, þa þyker hinum Dramblata svo sem hañ sie fyrerliteñ: Og þad Ord er einhver talar i Grañleyse, Þvi snijr hañ a hina verstu Leid,


sem

sem svo er vidkvæmur, ad hañ ætlar sig lijttañ i hveriu Orde, er ecke liggur honum til Sæmdar, Og allt þetta framkiemur af þvi, ad Drambseme Natturuñar er svo Rijk Lunduð, ad hun eyrer aungvu, Nema hañ stele Hefndeñe fra Gude, Hveria hañ hefur þo sialfum sier skiled. Seged mier þa Born mijn; Hvad er orded af þvi Att-unda Guds Bode? Er þad wtskafed wr hañs Logmaale? Ecke mun þad vera, þvi eckert af øllum Bodordunum er Naudsynlegra til Uppfyllingar Christi Logmaals, eñ þad um̃ Kiærleikañ, hver ed alla Hlute virder a hægra Veg; Hañ lijdur allt, hañ er Poleñmoodur, hañ um̃ber alla Hlute, Og hañ er Logmaalsens Uppfylling, Seger St. Paall, 1. Cor. 13. Pier þyker sa Ills verdur, sem þier tilgiørde, moote Logum og Riette, ea jaa-ta þad satt ad vera, þvi hañ giorde þad sem Logeñ baña; Eñ þu giorer eñ verr, er þu hefner þijn, þvi þu svipter Rietteñ sijnum Riette, hvers Embætte er ad straffa þa sem Illt giora. Logeñ eiga ad hefna, bæde siins og þins Oriettar, eñ þu fellur iñ i þeirra og Guds Embætte, og ræner hañ Riette sijnum, sem sagt hefur: Mijn er Hefndeñ, Eg vil Endurgiallda. Seig mier, hver er þa betre, hañ sem Oriettеñ giører, Eda hañ er hefner Oriettar-ens? Hañ er tilgiefur, tiaer sig honum meire ad vera, sem uppgiefed er, þvi sælla er ad giefa eñ þigg-ia, bæde i þessu Efne og ødru, Og þar fyrer seiger Salomon: Ad þad sie Æra Mañsens ad forlaa-

ta

ta Mootgiordena. J eingu kuña synduger Meñ Gude helldur ad lijkiast, eñ i þvi, ad gleyma Misgiordunum. Sa hiñ Heiptrœke, og hiñ, er giarnañ tilgiefur Misgiordena, Þeir lijkia bader epter Gude, Þo siñ med hveriu moote, Hiñ epter hañs Mætte, Þesse epter hañs Giœsku. Þetta kañ a nockurn Veg ad takast; Þvi HErrañ seger: Vered Myskunsamer, Lijka sem ydar Fader er Myskunsamur, Luc. 6. Hitt hefur alldrei nema illa tekest, þvi Guds er Hefndeñ. Satan villde apa epter Guds Almætte, Þar fyrer er hañ rekeñ til Helvijtes ofañ fiotradur Myrkraña Hleckium, 2. Pet. 2. St. Stephanus og Jacob Jerusalems Biskup, hermdu epter DRottne sijnum i þvi, ad bidia þeim Fridar er þa af Dogum tooku, og kollum vier þa sæla ad vera. Meñ kalla þad Stioorn meire, ad refsa þeim er oss rangt til giora: Sie þad svo fyrer mier. Eg vil helldur fyrergiefa med Christo, svo eg meige med honum rijkia, Eñ stioorna med Fiandanum, og med honum Præll vera ad eilijfu. Eingeñ, Edur all fæster giora nockrum Oriett Eintoomis Oriettarens vegna, helldur ber þad optast til þess, ad sa sem giorer a añars Hlut, hañ metur sig meir eñ þañ, er hañ misgiorde vid, Edur og ætlar sig ad hafa þar af Gagn, Heidur edur eitthvert Epterlæte. Giæt ad þvi þar fyrer, ad þott þad sie ecke Christelegt, þa er þad þo Mañlegt, ad elska sig meir eñ adra, og þoott einhver være svo Dioflenum lijkur, ad

hañ hefde Gaman af, ad fremia Til-dræattarlau-
sar Meingiørder, þa huxum þad, segeeg, ad Elld-
ureñ breñer, og Pyrnereñ stijngur, af þvi þad er
þeirra Næattura; Svo er og hiñ Ogudlege, hañ
gietur ecke nema vondur vered, Og hañ er ecke til
Frids, nema Einhver steite sig, Segier Salomon.
Þetta segie eg nu ecke Hreckvijseñe til Afsokunar,
helldur Guds Børnum til Vareygdar, ad ei skie-
mñe þaug sig aa Diøfulsens Limum, þott ad þeir
þioone Lund siñe, sem eru af Fødurnum Fianda;
Lære miklu helldur ad fylgia hañs blessudu Dæ-
me, sem bad fyrer Yfertrodslu-Moñunum: Hañ
took þeim Grid af Gude medañ þeir hañ kvøldu,
og fridade fyrer þær Synder, er hønum voru þa
hvad þyngstar, Eñ þu gietur ecke gleymt þvi Lijtel-
ræde, er þiñ Sam-Christeñ aflaga giørde vid þig,
Jafnvel fyrer morgum Arum. Nijtt Bodord
gief eg ydur, Sagde vor blessade Høfud-Prestur,
Joh. 13. Ad þier elsked hvor añañ Iñbyrdes, og
þad hefur hañ ecke einasta þeim sagt, helldur øllum
þeim, sem aa hañs Nafn trwa vilia, þvi øllum sag-
de hañ Epterlijkinguna uñ hiñ vonda Pioon, hver
ad er somu Meiningar. Eñ hier hefur þad sak-
lausa Guds Lamb hæangande aa Krossenum øll-
um eitt nijtt Epterdæme giefed, sem er ad bidia fyr-
er þeim, sem oss i moote briota, Svo ad hañ stad-
feste þad, Er hañ hafde ædur kieñt, Matth 5.
Elsked Ovine ydar, Blessed þeim er ydur bolva,
giored þeim gott, sem ydur ad Hatre hafa, og bid-
ied

ied fyrer þeim, sem meida ydur og offækia, svo ad þier sieud Børn Fodur ydar, sem a Himnum er, hvør ed lætur sijna Sool uppreña yfer Vonda og Gooda, og rigna yfer Riettlaata og Ranglaata. Pad er Ouñrædelega stoor Poleñmæde, uñ hvørria Esaias spaaer, 53. Cap. Talande uñ Messiam, Ad þegar hañ utstood Kwgunena og var Pvijngadur, þa upplauk hañ ecke sijnum Muñe, helldur eñ Lamb til Slaaturs leidt, og hañ þagde svo sem Saudur fyrer þeim er hañ klippa. Eñ JEsu Guddoomlega Giæska yfergnæfde alla Spadooma i Pijnuñe, Par ed hañ upplauk þo sijnum Blessada Muñe, Ecke til ad kalla Elld af Himne, Eins og Elias Fordum, helldur til ad slockva þañ Fortæranda Elld Guds Grimdar Reide, hver ed breñur allt til nedsta Helvijtis, ad ecke svelgde hun þa, er Liooma Fodursins Dijrdar og Jmynd hañs Guddoomlegrar Veru, Heb. 1. hafdu giort ad Madke og ecke ad Mañe, Ps. 22. Og pad vanst honum svo vel, ad hiñ Strange og Riettlaate Doomare, kastade allra Guds Barna Syndum i Hafsins Diwp, og vill þeirra ecke ad Eilijfu Miñugur vera, Samt er Andskotans Illsku Kraptur svo sterkur i Heiptrækn Syndarans Brioooste, ad Miñing JEsu Kvala, er hañ Saklaus þolde, gietur ei feinged svo a hañ, ad hañ gleyme þvi er hañs Naunge hafde vid hañ afbrugded. Tak þo til Jhugunar Christeñ Madur, med hverium Hætte hiñ Frelsare hefur lagt Grunvooll

Christne siñar i Fyrstuñe, Ecke med Harke edur Offa, helldur med Poleñmæde og Umburdarlynde. Hver sem heyrer Stephanum bidia til Guds fyrer þeim, sem hañ grijttu, Act. 7. Hver sem les þad er Evsebius skrifar uñ hiñ heilaga Jacob, hversu hañ beidde a deyanda Dege, ad hañs Ovinum mættu Til-giefast þeirra Synder, nærre med sömu Ordum og hañs Meistare hafde adur giort, svo sem fyrer skömu var aminñst. Hver hañ athugar þad St. Paall vottar uñ sig, 1. Cor. 4. Oss er Formælt, og vier Blessum; Vier þolum Offsookner, og uñberum þad, Oss er Lastmælt, og vier Bidiunst fyrer. Hver sem allt þetta, segie eg, Heyrer og Les, hañ mun jaata þad, ad Gud hefur ecke laated Reisa sijna Kyrkiu med Veralldareñar Hofmood nie faanijtre Hiegooma Dijrd, helldur med Kyrd og Þogn, J hverre ad bijr Kraptureñ, Ja, Kraptur Guds saa ed er i Breyskum Maattugur, og yferviñur Verolldena. Eñ giæt þess, Christeñ Madur, ad þad sem askorter, byriar med sama Hætte ad fylla, svo hun sie öll af lijkum Kostum gior. Hun er Grundvollud a þeim Steine, sem Uppbyggendur hafa burtkastad, Eñ þo er orden ad Hofde Hyrningar, Matth. 21. Og morgum til Falls og Uppprisu i Israel, Luc. 2. Eige sijdst þegar hañ sette sitt Andlit svo sem eirn Hellu-Stein fyrer þeim, er hañ sloou. Yfer-Byggingeñ verdur Grundvellenum ad sambiooda, svo hun falle þar vid; Hun maa ei vera af

Leyr og Sande, svo hun i sundurbrotne og hrynie strax sem vid heñe er sleiged, oa skieme þaa er fyrer verda, Eins og Seneca uñ Reidena talar, Ad hun sie lijk þvi Hwse er hrapar, hvert ed sundurmolar allt þad er under þvi verdur, og siaalft brotnar þad i eñ fleire Parta. Eg veit ad margur þeynker, ad ecke sie Ohullt ad lijda Orietteñ i Heimenum fyrer Maññaña Illsku Saker, hver ed aasælest Hoogvære hiña Kyrrlaatu, svo eirn Oriettur bijdur odrum heim. Eg kañ og ecke añad ad seigia, eñ þad Leifelegt sie ad sækia med Logum Riett siñ fyrer Christelegu Yfervallde, Eñ ef af bera kañ ad þu naaer honum, þa er betra ad gaanga Riettlaus iñ i Himnarijke, eñ ad hrapa til Helvijtis med þañ Riett, er Madur took fram fyrer Hendur aa Gude. Og þoott ad Svein Valldstioornareñar kuñe ad ridga i Slidrunum, þa vaker þo Guds Hefnd, og hañs Sverd er naked. Ef þu ætter strax ad deya Christeñ Madur, Munder þu ecke ollum strax Fyrergiefa? Eñ þu veitst ecke hvert þu muner yfer hid nærsta Augnablik komast. Og ef svo kañ til ad bera, ad þier verde ad Skyndingu i burtu kipt, og þu ei fundeñ klæddur Brwdkaups Klæde, þa vara þig ad ei verde til þijn sagt: Vinur, Hvar til komst þu iñ hijngad? Matth. 22. Laated ei Soolena undergaanga yfer ydar Reide, seger St. Paall, Eph. 4. Hvad miklu helldur ættu Meñ þa ad varast, ad Daudeñ hitte oss med illu Skape? Saa sem vill lækna Oriettiñ med od-

rum

rum Oriette, hañ er lijkur þeim, er þvær Skarn med Skarne, Edur honum, er hoggur framañ af Fætenum til þess, ad Skooreñ fare þess betur. Svo gapa Meñ epter Hiegooma Dijrd þessa fallvallta Heims, Sem foolgeñ er i þvi, ad sijnast ollum sterkare, Ollum meire, og raada hvers Mañs Giæfu og Ogiæfu, viliande helldur gioraſt Dioſulsens Prælar i Hefndeñe, eñ Christi Læresveinar i Poleñmædeñe. O! þu Saklausa Lamb Guds, sem hiñar Ogudlegu Veralldar Synder hefur Saklaus bored, Pu sem Erfidad hefur i añara Syndum og betalad þad þu ecke ræntér, Skapa þu nijtt Hiarta i oss, og gief oss nijañ vissañ Anda; Pu veitst ad Pænkar vorer eru Vonder i fraa Upphafe, Gen. 6. Og hin Fyrsta Spilling, sem vier erft hofum epter Adam, hefur svo bwed um sig i oss, ad vier faaum heñe ecke wtrijmt, nema fyrer þiñ Anda. Fyrer þvi Graatbænum vier þig Bruñur allrar Giæsku og Hoogværdar, Laat Miñing þijns Saklausa Dauda og vorra Synda, er þig Riettlaatañ kvaled hafa, Deyda i oss Osstæke vors banvæna Hollds, Og þegar ad Illska Natturuñar tekur ad hreifa sier af Andskotanum uppblaaseñ, þa laat þitt Blessada Epterdæme skijna fyrer Augum vorum, og gief oss ad vier þenkium til þeirra Orda, med hverium þu vor Meistare hefur lyktad þa Blessudu Bæn, med hverre vier Daglega skrijda eigum til Skarar Foota þiña: Nema þier fyrergiefed hver odrum ydar Mis-

giorder

giørder, þa mun miñ Himneske Fader ecke fyrergiefa ydur ydar Synder, Matth. 6. Þessa bidium vier þiñ og vorn Himneska Fodur i Krapte þiñar Forþienustu, Amen.

# Predikun

wt af hinu
Audru Orde DRottens JEsu Christi a Krossenum.

## Sañlega sege eg þier / Ad i Dag skallt þu vera med mier i Paradijs.

ÞAD er Dijrmætt og verdugt Ord, Seiger St. Paall, 1. Tim. 1. Ad JESus Christur er komeñ i þeñañ Heim, Synduga Meñ Saaluhoolpna ad giøra, a medal hverra eg em hiñ meste, Eñ þar fyrer hefe eg Myskun hloted, ad hañ audsijnde a mier allra hellst Stærd siñar Myskunar til Eptirdæmis þeim sem a hañ trwa mundu til Eilijfs

Eilijfs Lijfs. Med mikellre Ognan hefur hiñ Vollduge Gud byrt sijna Vollduga Reide yfer Mañaña Bornum, Peim sem Foottroded hafa hañs Bodord og Skipaner. Saa sem heyrt hefur Straff hiñar Vantrwudu Veralldar; Saa sem les hverneñ Gud i Reide siñe brende upp Sodoma og Gomorra; Saa sem athugar hañs Hefnd yfer Jsrael, Pa þeir mogludu aa moote þeim er Moyses giørde fraa sier til ad rañsaka Landed, Num. 24. Hver sem miñest Straffs þeirra, er samløgudu sig Midianitum i Schittim, Num. 25. Hañ sem þeynker til þeirra er Freistudu Guds i Eorba, og urdu fortærder af Høggormum: Hver sem fyrer sier vyrder Anaudena i Babylon; Hver sem Jerusalems Eideleggingu Jhugar, hañ skal med miklum Otta og Skielfingu jaata þad, Ad hvern sem hañ Foragtar, þañ vill hañ Foragta, 1. Sam. 2. Hvar uñ hañ sialfur Vitnar, Exod. 20. Segiande: Eg em GUD DROTTeñ, Sterkur Vandlætare, Vitiande Raanglætis Fedraña aa Sonunum, J Pridiu og Fioordu Ættkvijsl þeir-

ra.

ra sem mig hata. Eñ þott hañ hafe svo opeñberad Moñnunum sitt straanga Riettlæte, Þa hefur hañ þo ecke lated sig aan Vitnisburdar siñar miklu Myskunseme, Þvi seger hañ skoñu sijdar i sama Capitula: Eñ giørande Myskunseme i Þusind Lidu, Þeim sem mig elska, og mijn Bodord vardveita. Svo mikeñ Mun giorer hiñ Almaattuge Gud Reideñar og Giæskuñar, Hefndareñar og Myskunsemeñar, Svo sem er aa mille Fiøgra og Þusund Lida. Þad er honum Eigeñlegt ad Myskuna, Hitt ad hañ straffar, framkiemur af Þriootsku Mañaña. Þetta segiest St. Paall hafa sañad aa siaalfum sier, Þvi skoñu fyrr i hinum sama Capitula jaatar hañ sijna Illsku og Ungiædis Offstopa i giegn Gude, aa þeñañ Haatt: Eg sem til Forna vár Gudlastare, Offooknare, Spottare, hefe Myskun ødlast, Þvi eg giorde þad i Ovite af Trwgyrne, Eñ Naad Drottens vors hefur yfergnæft med Trw og Kiærleika, sem eru i Christo JEsu, 1. Tim. 1. Leider svo øllum Riett-trwudum og Sañydrande Mañeskium fyrer Siooner sitt Dæ

me

me, ad eingeñ skule sier Guds Naadar orvænta, hversu sem hañ sie hinum versta Syndum hladeñ, þar Gud hafe sier þar fyrer Myskunad, ad hañ yrde ollum sem aa hañ trwa mundu til Jarteiknis uñ Guds miklu Myskun og Hiartgroona Elsku. Nu þo ad þesse Bevijsing sie hin auglætasta, Er þesse Guds Madur kuñe til ad leida i þvi Efne, Er hañ skrifar uñ, Og hellst þess vegna, ad hañs Ræda var kriddud med audmiwkre Medkieñingu, Med sañre Ydran, Med lijtelaatu Hiartalage, (þvi nema svo hefde vered, Munde hañ ecke brwka sijnar eigeñ Avirdingar til ad mikla þar med Guds Giæsku,) Pa vantar oss ecke þvilijk Dæme, bæde i Heilagre Skrift og añar stadar, Pvi þott Gud þecke best allra Maña Siñe og Hiortu, Pa skyllde þo sijnast fyrer Mañlegum Augum, ad Aaron, David, Manasses, Petur og Maria, hefdu ei miña ofgiort vid Gud eñ Paulus, Pvi þeirra Synder voru med Vilia giordar, Og hafa þeir þo ecke sijdur Myskun hloted. Vier þurfum ecke laangt epter Vitnum ad leita hier uñ.

Hañ

Hañ holde Israels Synder i nockur Hundrud Ar. Stijngum Hendeñe i vorn eigeñ Barm, og skodum hvad lijted vier høfum gott giørt, og hvad margt illa, Og þo hefur Guds Millda Hønd ecke burtkastad oss eñ þa. Peinkium ad þad, Hverstu tijdt Gud hefur verndad oss midt i Syndunum, og læted oss Oskaddada æ þeim somu Limum og Lidum, er vier høfum wtriett til hiña verstu Glæpa og Gude til Mootþyckiu, og munum vier brædlega neydast til ad jæta þad, ad svo miked sem Himiniñ er Jørduñe hærre, Svo miked yfergnæfer Guds Giæska hañs Reide, yfer þeim, sem eñ þa hafa ecke uppfyllt Mælingu Syndareñar. Eñ þo þessu sie nu svo vared, þa kyñe Syndareñ ad leida i Huga sier: Þoott Gud hafe mig svo leinge lided, Þykest eg samt vita þad hañ mune mier reidur vera, þvi hañ er Gud, sem ecke þocknast Oguðlegt Athæfe, þoott hañ umbere Illsku mijna uñ Hrijd, og hafe þolad mier svo leinge margar Yfertrodslur, Þa er lijklegt, ad hañ skrife þær uppá Reikning, Særed mæte miñe auma Saalu i Doom-

 enum,

ennm, þa eg skal aa hverlu Onytiu Orde Skil giøra. Poott Paulus hafe synd-gast, þa hefur hañ þo heltt ydrast. Pe-tur gieck wt og Griet Beiskléga. Ma-ria þvode JEsu Fætur i sijnum Taar-um. David lagde Kongs Tignena i Seck og Osku. Manasses Griet sijnar Illgiørder med Harma-Kløgun og liet af ad syndga, Og aller hafa þesser Gude uñ laanga Tijma þioonad, Eñ eg hefe fraa Barndoome lifad Ydrunarlaust, og þoott eg hafe aa Stundum sijnst þar vid, Þa hefur Ydruneñ alldrei geinged mij-nu Hiarta svo nærre, ad eg hafe fraa illu Athæfe aptur horfed, Edur miñ seirne Dagur hafe betre vered eñ saa fyrre, Svo ad Sooleñ, Sem ad Kvøllde nidurrañ yfer miñe Vondsku, hafe yfer mier Riett-laatare ad Morgne Dags upp aptur ruñed, Þykist þvi vita, hvad sw Ydran gillda mune i Guds Auglite: Kañ skie eg hafe ei helldur laangar Stunder hier epter Gude ad þioona i Endurnijungu Lijfdagaña, Þar eg veit ecke neina aa þess-are Stundu verde til mijn sagt : Giør Reikningskap þiñar Raadsmeñsku, þijn

Saala

Saala skal fraa þier tekeñ verda. Sañlega er þad ecke Olijklegt, ad þesser Paankar meige fliwga þeim i Hug, Sem allañ siñ Alldur hafa i Illskuñe aled, Og kañ eg ecke ad segia þad sie Ovarlega hugsad, Þvi betra er ad Miñing Illgiørdaña þreynge nockud ad oss hier i Naadeñe, Eñ ad hun kvelie Eillijflega i Helvijte: Eda hvar fyrer skylldu Meñ liwga ad siaalfum sier, Edur Saal sijna aa Taalar draga, Nie vænta þar Fridar, Hvar eingeñ er? Lijklegt er og ad saa sier temur þetta Hugarfar, hañ mune skirrast vid ad sigla leinge med fullum Seglum undañ Hrad-Byre Holldlegrar Fysne, Ef skie mætte ad hønum munde þa miñstum Vonum varer um Koll steypa. Eñ þo ad slijker Paankar gagne et all-lijted til Apturhvarfs fraa Syndunum, og til ad verka Saaluhiaalp sijna med Ugg og Otta, Pa er samt vel Adgiætande, ad þeir ofþijnge ecke Vesølu Syndarans Hiarta, Svo ad hañ þar fyrer falle i Orvænting og Vantrw, Og verde svo hin Seirne Villañ argare hiñe Fyrre. A moote þeirre banvænu Hugsijke, er Ca-

ius Saalu mirdte, er Achitophel kyrkte, Er Judam liet i midiu i sundur i Tvo Hlute bresta, Er hin kroptugasta Lækning i þvi ødru Orde JEsu vors Endurlausnara, Er hañ talade af Krossenum til Ræningians, Hvert vier vilium oss nu fyrer Hendur taka, Og af þvi alleina yfervega Vors Endurlausnara Fodurlega Giæsku i þvi, ad fyrergiefa Syndernar, Og leida Mañeskiuna til Himnarijkis.

DEsse Maals-Grein Vors Endurlausnara, Hlioodar þañeñ Vorn G. E. Sañlega Segie Eg Þier, Ad i Dag Skallt Þu Vera Med Mier i Paradijs.

AMEN stendur i Textanum, Þad þijdest Visulega, Og er Svardage hiñs Almaattuga Guds, Þegar hañ vill vid nockurn Hlut miklar Vidløgur hafa. Vel maatte Ræningeñ trwa, þo ei hefde JEsus svared; Eñ fyrer þvi ad hañ visse, ad hañs Trw munde i þeim sijdustu Andarslitrum kuña braadlega ad veikiast, og hañ maatte þykia Olijklegur nockrum til Fulltijngis, er sialfur var forlaateñ og Hiaalparlaus: Af þvi Ræningianum var svo miklu heited, Fordæmdum Mañe Himnarijke, Krossfestum Paradijs, Illvirkianum eilijfu Lijfe, Og þeim einkis Von aatte nema Eilijfra Pijsla i Helvijte, Æfenleg

Vistar

Vistarvera med Gude, Þa vill hañ ecke þañ Lijtt-loganda Hor-Kveik wtslockva, Esa.42. sem sialfur upplijser alla Meñ, sem koma i Heim þeñ-añ, Joh. 1. Og ecke Braakadañ Reyr fyrer Augum sier i sundur brotna laata, sem sialfur var med Reyr-Legg i sitt Hofud sleigeñ, Marc. 15. Siaa hier Fodurlega Giæsku þijns Endurlausnara Christeñ Madur: Hañ var yfergiefeñ af ollum sijnum Vinum, samt yfergaf hañ ecke siñ Ovin. Hañ var forlaateñ af sijnum Fodur, samt forliet hañ ecke eirn Rœningia: Hañ gaf sig ecke ad Brixle og Haadungum hiña Ogudlegu Gydinga, Ei Kiesłne Strijds-Mañaña: Hañ þagde vid Gudlostun hins Ogudlega Rœningia, Eñ þesse fieck ecke fyrre wttalad af Muñenum, þad hañ beidde um, helldur eñ JEsu Myskunar Ydur hrœrdust i honum til Medaumkunar, Þar hañ hieck a Krossenum. Hvad mun hañ giora, Þar hañ situr i Dijrdeñe, Er svo var Myskunsamur midt i Kvoleñe? Hversu mun hañ kieña i Briooste uñ þa, er hañs vegna Krosseñ bera, og Ossofner lijda, er svo var Naadugur hinum Ofrœga Stigamañe? Hvad heitt mun hañ elska, Þar hañ er upphafeñ a siñ Tignar-Stool til Fodursens Hœgre Handar, sem svo heitt elskade, Krossfestur a millum tveggia Spillvirkia? Þesse er svo breñande Elskañ, Med hverre JEsus oss elskade, Þa vier vorum hañs Oviner, Rom. 5. Hun kuñe ecke ad dyliast midt i Kvolunum: Hin sama Elska,

 kem

sem droo hañ uppa Krossens Gaalga, færde þesse Lijknar Ord wt af hañs Hiarta. Þad hañ elskade sijna Vine, þad hañ Tæradest vid Grøf Lazari, þad hañ fyrergaf Mariu, sem hañs Fætur þvode, þad hañ leit til Peturs, er hañ hafde hønum afneitad, þad var stoort Furduverk hañs mikellrar Elsku til Mañaña Barna: Eñ hveriu Nafne skal þetta nefna, ad hañ midt i Kvolunum, midt i Saalar og Lijfs sterkasta Ofbode, liet sier svo mikelega hugad vera uñ Saal eins Jllrædis Mañs, þa hañ var midt i Helvijte, frelsade hañ Saal hñs fra Helvijte: Þegar hañ bar allañ Þrønga Guds Reide, Liette hañ Guds Reide af ødrum, og þa hañ ecke vard Bænheyrdur fyrer sialfañ sig, Bænheyrde hañ heñañ Syndara. Svo Sañarlega sem eg life, seger DRotteñ, vil eg ecke syndugs Mañs Dauda, Ezech. 33. Þad er hañs dijrasta Sære. Gud kañ ecke ad deya, Eñ JEsus, þoott hañ dæje i Holldenu, sijnde þad øllum Heime, Øllum Sañydrande, Øllum Villuraafande, Øllum Harmþrøngnum, Øllum Freistudum, Øllum Stoorbrota-Møñum, ad hañ hefde ecke Þocknan a Dauda Syndarans, helldur villde sialfur i Daudañ gaanga, svo ad hiñ mætte lifa. Hvad er þa Madureñ þess miñ HErra og Gud, ad þu miñest hañs svo, Edur Mañsens Sonur, ad þu vitier hañs i svo diwpum Myskunar Ydrum, Ps. 8. Hvad var þesse Jllvirke, ad þu Kyllder hønum svo Myskuna? Tijdt hefur

þu miñ HErra leingur dulest fyrer Astvinum þijnum;: Pu tookst ecke svo bliidt þ'ñe Elskul-gu Moodur Fordum i Cana, svo sem þessum; Pu lietst h'na Canversku þrisvar hroopa; Pu œvijt-ader Konungs-Mañeñ um sijna Vantrw; Pu svafst þegar þijner Elskulegu Læresveinar tooku til ad forgœnga, eñ vid eina Andvarpan þessa Syndara, var þitt Myskunar Eyra svo þunt, ad þu svarader hønum svo sliott, sem hañ kuñe ad tala. Pijnar Hendur voru œ Krossenum fastar, Pijner Fætur œ Tried nidur neglder, Allur Lijkameñ var Mœttþrota: Pu hafder noog ad giøra, ad troda alleina Vijn-Pressuna; Pad Blessada Balsams Trie var hier ad lœta sig særa til Lækningar þeim er þad hiuggu, Eñ þ'itt Hiarta var eñ þa ecke i giegnum stunged; Pad gat ecke œn Myskunar vered: Pær blessudu Varernar, œ hverjar Naadeñ er wthellt, Ps. 45. høsdu eñ þa ecke teked hin sijdustu Andvørp, Pær mœttu ecke Iduilausar vera, helldur til þess ad allt giørder þu vel frœ hinu Fyrsta til þess Siijdsta, urdu þær þeñañ Vesæling i hañs sijdustu Neyd ad hugga. Hvar fyrer miñ HErra? Uppœ þad, ad eingum tapader þu af þeim þier giefner voru, uppœ þad þu Bænheyrder medañ Syndareñ være ad bidja, uppœ þad þu sañader hier þijn blessud Ord, ad meire Glede være i Himnenum yfer eijnum syndugum, sem Ydran giører, helldur eñ yfer niju og nijutiju Riettlœtum, Luc. 15. O! HErra JEsu, hier

hefe eg og aller Stoor-Synduger Eina Huggun, Sem eingeñ skal af oss taka. A Dogum siñar Hollds-Vistar took JEsus Tollheimtu-Meñ og Bersynduga til Nædar, og baud þeim til sijn ad koma, Pad þeir skylldu lifa i Endurnijungu Lijfdagaña, Eñ midt i sijnum Dauda, hefur hañ Einum Daudvona Syndara Myskunad, þeim til Huggunar, sem Samvitskañ midt i Daudanum klagar. Miked hefde JEsus epter skiled, hefde hañ þetta Allra Dasamlegasta Myskunar Verk Ogiört læted, Pvi eg voga ad segia, ad Einsamallt þetta hefur fleire Sturladar, og i hinum Sijdustu Fiorbrotum yfergiefnar Mañeskiur til Lijfsens leidt, helldur eñ morg oñur hañs Krapta-Verk; Eñ segied mier, Born mijn, Hver mun hafa skoted þessum Saka-Mañe svoddañ Pankai Hug? Eg veit þier vilied segia: Guds Heilagur Ande, sem satt er, Pvi æn hañs kañ eingeñ JEsum DRotteñ ad kalla, Sem Paulus vottar, 1. Cor 12. Po þykest eg vita, ad sa ofluge Guds Kraptur hafe bwed i þeim Ordum, er JEsus honum æheyrande nockru ædur talade. Um JEsu Sakleyse hefur hoñ Tvijllaust æheyrsla orded i Fanghelsenu, þvi hversu mætte hañ añars segia; Ad þesse hefde aungva Sok? Hañ var og wtleiddur med Christo, hefur þvi vel mætt heyra þaug ægiætu Ord, Er HErrañ talade til Kveñaña, sem honum grætande epterfylgdu: Eñ allra hellst hafa honum mætt til Hiarta gænga

þaug

þaug Ord, er JEsus beidde med siñ Himneska Fodur fyrer siinum Ovinum, svo ad ecke er Oliikslegt, þad hañ hafe mætt þeinkia med sier, Hverium er þesse liikur? Sumer grææta yfer honum, svo sem Mooder grætur yfer siinum Einasta Syne. Landsdoomareñ hefur sagt, þad hañ finde aungva Dauda Sok med honum: Adrer spotta hañ og hæda, og til-leggia honum þær Hæduungar, sem einkis Mañs Hiarta kyñe ææn Styggdar ad þola: Þa Fyrre huggar hañ, og kieñer þeim, hvad hier mune ææ epter fylgia: Hañ gleymer siñe Anaud, Eñ er Ahyggiusamur um̃ þeirra Velferd: Fyrer þeim Siidare bidur hañ, og bidur siñ Fodur, Hvern hañ sagt hefur Gud ad vera, Bidur um̃ Fyrergiefning Syndaña. Eg sem ad medtek hvad miin Verk eru, Eg er ecke svo lyndur sem hañ, Eñ hañ sem ollu verr er wtleikeñ eñ eg, Og Landsdoomareñ hefur þo Saklausañ kallad, Hañ bidur fyrer þeim, Er hañ svijvirda, Bidur Fyrergiefningar ææ þeirra Syndum, er þeir nu ææ moote honum giøra. Hiææ þessum Mañe, er ææn Efa nockud Gudlegt, og hañ mææ Guds Sonur vera, sem under sitt Andlææt bidur siñ Fodur um̃ Fyrergiefningu Añarlegra Synda, Þvi Gud alleina, Og eingeñ añar kañ Syndernar ad fyrergiefa. Eg sem liid fyrer Illgiorder miinar maklegañ Dauda, Eg sem ecke hefe ad treysta Goodverkum miinum, sem eingeñ eru, Eg vil og freista þessa: Fyrst hañ bidur fyrer Syndugum, Þa

mun hañ eirneñ kuña mijnar Synder ad afbidia, Fyrst hañ Fridar fyrer þaa, sem hañ Krossfesta, Spotta og Hæda, Þa mun hañ ecke mier, Sem er i samre Fordæmingu med honum, afundeñ verda. Fyrst hañ bidur þeim Vægdar, Sem hañ alldrei þar um̃ beiddu, þa mun hañ mier vægia, sem hañ vil nu af Hiarta þar um̃ bidia. Nockud svoddañ mun Vesælingur þesse hafa giort sier i Lund, og hañs Von liet JEsus ecke til Skam̃ar verda. Hañ veitte honum meira, eñ hiñ þorde ad bidia: Hañ beidde einasta ad miñast sijn, Eñ JEsus lofade honum Vist med sier. Hvad kuñe hañ honum meira ad veita? Hvar skyllde hañ vera een JEsu, svo honum vel lide, Hvar kuñe hañ med JEsu ad vera, svo honum illa lide? Þess sem hañ beiddest af sijnum Himneska Fødur til Handa sijnum Læresveinum, Er med honum bored høfdu Hita og Þwnga Dagsens, Segiande: Eg bid þig Fader, Ad hvar eg er, þar sieu þeir eirneñ er þu hefur mier giefed, Joh. 17. Þad sama veitte hañ þessum Stoorbrota Mañe, Er varla hafde Eina Stund Dags erfidad. Miñ HErra JEsu, Hvad faavijs er Madureñ til þess, ad hañ skule Guds Raad þeckia? Og hvad miked skilur Guds Dooma og Mañaña? Þad sem hañs Kvalarar ætludu honum til mestu Haadungar, Þad er orded honum til eilijfrar Vegsemdar: Þeir heingdu hañ upp medal Tveggia Ræningia: Eñ þu sem ecke rænter Guds Mynd, Eñ Betalader þo hvad

þu

þu rænter ecke, Audfinder þar a Ræningianum, ad þu Magt hefder til ad fyrergiefa Syndernar. Þeir bædu hañ Ofañstijga af Kross=num, til ad auglijsa þad hañ Guds Sonur være, Eñ hañ auglijste þeim, sem vidþurfte, ad hañ hefde Magt a Jordu til ad fyrergiefa Syndernar, fyrer þad dijra Lausnar=Gialld, er hañ galt Gude a Krossens Altare, fyrer allar Veralldareñar Synder. Hver vill nu framar orvænta sier Guds Naadar, sem heyrer þesse Ord? Ræningeñ heyrde hvad JEsus bad fyrer þeim, er hañ Krossfestu, og hvad hañ fyrer Kviñunum talade, Þad hefur añ Efa snwed honum a Guds Veg, og dreiged hañ til ad bidia sier Myskunar af honum, er hañ heyrde ad var svo Myskunarrijkur. Eñ þu Christeñ Madur hefur hverttveggia þetta heyrt, og Ræningians Dæme þar ad auk; Ad eg tale ecke uñ morg oñur fleire. Hvar fyrer skyllder þu þa Efast uñ Guds mikla Myskunseme? Þijnar Synder eru þier ofþwngar ordnar, Gior þær ei þijngre med Orvæntingu Guds Naadar. Ræningeñ hlaut Myskun, þvi hañ Vonade, Judas vard burtrekeñ, af þvi hañ Orvænte: Eg veit ecke hvor Munur vered hefde Judæ Syndar og Peturs, hefde ei þesse Trwad, Eñ hiñ orvænt, þad skilde þa mest, ad Petur gieck wt og Griet beisklega, Judas gieck wt og hengde sialfañ sig. Þijnar Synder eru þijnu Hiarta ofur=þwng Byrde, Eñ Gud hefur heñe uppa Soneñ kastad, Þvi sañlega bar hañ

vora,

vorar Synder, seger Esajas Cap. 53. Þijnar Synder ængra þig svo miog, ad þu hefur ecke Frid i þijnum Beinum: Hañs Bein eru og i Sundurglidnud, og hañs Mættur Uppþornadur sem oñur Skurm: Þær smellta þitt Hiarta, Hañs Hiarta er eirneñ Brædnad, sem añad Vax; Þijn Saal er Oroolegi þier Syndaña vegna: Hañs Saala er og Hrygg ordeñ allt i Daudañ; Þu hefur Syndgast optlega, JEsus bidur fyrer þier Oaflætañlega: Þu hefur drijgt Optlega somu Synder, JEsus er þo Forlijkun fyrer allrar Veralldareñar Synder, 1. Joh. 2. Svo opt þu ydrast Syndaña a Jordune, svo opt verdur hañ Foornfærdur fyrer Syndena i Himnenum: Þu hefur Syndgast allt i Daudañ, JEsus vard Hlijdeñ Fodurnum allt til Daudans, Phil. 2. Þu kañt ecke framar Gott ad giora; Eñ þo þu kyñer, Munde þad þig Hoolpeñ giora? Fiærre sie þvi, Helldur Blood JEsu, sem hreinsar þig af allum þijnum Syndum. Þier þyker Olijklegt, ad Gud fyrergiefe þeim a deyianda Dege, sem alla Daga illa lifde; Eñ hañ seger þo sialfur: Gudleyse hiñs Ogudlega skal ecke skada hañ a hverium hellst Dege hañ snijr sier fraa sijnu Ogudlegu Athæfe, Ezech. 18. Þijnar Synder yfergnæfa añara Maña Synder, Eñ þo yfergnæfer Naadeñ miklu framar, Rom. 5. Syndeñ kañ alldrei ad verda svo stoor, ad Naad Guds med Trwñe medtekeñ, sie ecke stærre; Alldrei svo morg,

ad

ad Fialde Myskunsemdaña sie ei meire. Pu synd-gast a hveriu Augnablike, Hañs Nad er þo ferſk og nij a hverium Morgne: Pijnar Synder eru ſvo margar, ſem Sandur a Siarfar-Strǫnd, eñ hañs Myſkun uppfyller bæde Himen og Jord, Pvi er hun eñ þa ſtærre: Par fyrer verdur þu alldrei ſvo fliootur ad ydraſt, ad hañ verde ecke eins fliootur til ad Forlaata. Sa ſem meir hat-ar Syndena, hañ vill hana helldur afma. Nu kañ Gude eckert ſvo Gagnſtædt ad vera, ſem Syndeñ, Og hun er þad einaſta, ſem hønum illa lijkar, Pvi ſkallt þu fulloruggur þeſs vera, ad þeg-ar þu hefur feinged Leida til heñar fyrer Ydran-ena, þa mun hañ fliootur verda til ad afmaa hana fyrer Forþienuſtuna.

Hvad ſkulum vier nu hier til ſegia? Skulum vier þa i Syndunum framvegis blijfa, ſvo ad Nadeñ yfergnæfe? Fiærre ſie þvi, Rom. 6. Gud forbioode þad, ad eg ſkyllde nockrum telia þa Trw, ad hañ meige Uggalaus lifa, af þvi Guds Nad er mikel. JEſus er ad ſoñu komeñ i þeñañ Heim Synduga Meñ Saaluhoolpna ad giora, 1. Tim. 1. Eñ ecke til þeſs, ad þeir ſkule Syndga: Til ad kalla Synduga, eñ ecke Riettlaata til Yd-ranar, Matth. 9 Eñ ecke til þeſs, ad þeir ſkule lia ſijna Limu Syndeñe til Jbwdar, Fra Eiñe Ranglætingu til Aññarar: Til ad Uppfylla Log-maled, eñ ecke ad Upplepſa, Matth. 5. Stoor Munur er þeſs, ad vera viſs um Kvittun Synd-

aña

aña fyrer Christi Forþienustu, Og hiñs añars, ad forakta Rijkdoom Guds Langlundar Gieds, og athuga ecke ad Guds Poleñmæde leider til Yd-ranar, Safnande sier svo Reide a Dege Reideñ-ar og Guds Riettlætes Dooms, Rom. 2. Hver ert þu sem þeynker ad alltijd sie noogur Tijme til Ydranar? Þu villt ad Morgne ydrast, Eñ veitst ecke hvert þu muner sia Morgun-Dageñ. Gud hefur ad soñu heited ad vera þier Naadugur a hverium þeim Tijma, sem þu snijr þier til hañs af øllu Hiarta; Eñ þvi hefur hañ ecke lofad, ad þvi fresta meige þar til þier gott þyker: Þu veitst ecke nær Basunañ lætur ødrum Lautum, og sagt verdur: Þu Daare, a þessare Noottu skal þijn Saal fraa þier tekeñ verda, Luc. 12. Eda hun kvedur vid i Skijum Himens med þessu Hlioode: Rijsed upp þier Daudu og komed til Doomsens. J Dag, J Dag, a medañ þu heyrer hañs Roddu, þa Forherd ecke þitt Hiarta, Ps. 95. Og ef þu Þusundsiñum syndgar, þa laat þig þad Þu-sundsiñum angra, og þeynk ecke svo med þier, ad þu vilier Eitt Siñ fyrer allar Synder Ydran giø-ra, þad være ad brwka Raad Guds fyrer Skal-ka Skiool, Og ad Foottroda Sauttmaalans Blood, medhveriu Syndareñ er Endurkeypptur, Hebr. 10. Hañ hefur Ydran, og siidañ Synd-aña Fyrergiefning i sijnu Nafne Predika laated, eñ ecke Undañdraatt og Toomlæte. Þoott Ræn-ingeñ snerest seint, þa snerest hañ þo Samstundis,

sem

sem hañ (i þad Siñ) kalladur var. Poott þu ætler þier mune leingre Alldur skapadur, þa gior slijkt hid sama, Ef þu villt deya Riettlaatra Dauda: Skioot ecke aa Frest Ydran þiñe, Þvi hañ sem lofade Syndaranum Myskuneñe, Hañ hefur þo ecke lofad, ad Myskunar Tijmeñ skule til Morguns vara. Ef margur hefde farest i Mañ-Hættu einhverre, eñ Faaeiner afkomest, Villder þu þar aa epter fara? Eingeñ Heilvita mnnde giora þad sitt Raad. Myklu sijdur ætter þu med Oftrauste og Hyrduleyse ad forlaata þig uppaa þa Guds Raad, er þu hefur leinge foraktad og under Footum troded, Jafnvel þo hañs Ouñrædelega Giæska hafe sumum aptursnwed i siaalfum Andarslitrunum, þvi Gud hefur alldrei slijku heited, og JEsu Forþienusta er til alls añars ætlud, eñ ad þiena Dieflenum, i Trauste heñar. Ad soñu er Sonur Guds i Heimeñ komeñ, til ad kalla Syndugu, eñ ecke Riettlaata til Ydranar, svo sem aadur er sagt: Eñ þeir einer munu Kollunareñar Not hafa, sem ydrast vilia, af þvi hañ hefur til Ydranar kallad, og ecke til Illgirne. Seig mier þu sem meinar ad Christur mune frida fyrer þig med siñe Forþienan i Himnenum, aa medañ þu dijrkar Andskotañ i þijnum Limum. Hvad giorer þu af Christe? Mun hañ hafa nidurbroted Helvijtaña Port, til þess ad uppbyggia Diøfulsens Rijke? Sañlega er hañ ecke þar til i Daudañ felldur, ad vier skulum i Syndeñe lifa, helldur lifa eilijflega

med

med honum. Guds Reide af Himnum Openberast yfer allt Ogudleat Athæfe og Ranglæte Mañaña, segier St. Paull, Rom. 1. Skyllde hañ þa hafa Reidst siinum Eingietnum Syne til þess, ad vier skylldum Rauuglæted æfa? Fiærre tekur Paull þvi, Rom. 6. med þessum Ordum: Svo skulud þier og hallda, ad þier sialfer sieud dauder Syndeñe, Eñ lifed Gude fyrer JEsum Christum DRotteñ vorn: Par fyrer rijke ecke Syndeñ i ydar daudlegum Lijkama, ad þier hlijded heñe i Gyrndum heñar, Og liaaed ecke Limu ydar til Verkfæra Syndeñe.

Veit eg ad aller þykiast þetta vita, Og þad sie fyrer Vitfyrringa ad ætla Gud mune hafa Endurkeypt oss Andskotanum til Pioonustu; Eñ þvi leggur þa ecke hiñ Algiarne af ad stela; Hiñ Heiptræke Foolskuna, Hiñ Bakmaaluge Lijgena, Hiñ Ohlijdne ad forsmaa Yferbodara og Foreldra; Hiñ Lostagiarne ad hlaupa epter añars Mañs Eigeñ Konu? Eg tala ecke um̃ hvad eirn kañ ad henda, Þoott þad sie noogu Jllt, Eñ Fiolde Mañs æfer sierhvad af þessu, sem hañ er hneigdur til, eins og añad Hand-Verk, Leggst nidur med slijkre Ahyggiu a Kvolldum, og stendur upp til ad fremia þad a Morgna. Og hvad faaer eru þeir, sem gieta sagt, ad þeir hafe wtstunged þad Augad, sem hneixlar? Eñ hvad velldur þessu, Nema Meñ taka ofmiked Traustatak vid Gud, sem eg er þo hrædur um̃, ad Þioofnadur dæmest a

hinu

hinu Sijdasta Allsheriar Pijnge, og Meñ reida sig þar uppa, ad þeir mune faa Toomstund til ad ydrast, adur eñ þeir fara i burtu hiedañ? Svo giora Meñ Gud Naadugañ ad aungvum Gude og hañs Myskunseme ad Barna-Spile, eins og hañs Riettlæte sie honum ecke jafnskyllt, og ad Lækning Syndareñar eige ad vera Ordsok til heñar. Svo sem Gud seger uñ Juda, Jer. 2. Svo geingur þad til fyrer morgum þeim, er Muñ-christner alleina eru. A Olucku-Tijmanum segia þeir: Rijs upp og hiaalpa oss, Eñ hañ vill svara; Hvar eru þa þijner Guder, er þu hefur giort þier? Stande þeir upp a Tijma þiñar Olucku og hiaalpe þier ef þeir eru til. Eins vilia aller sættast vid Gud, þegar dregur ad hiñe hordu Daudans Tijd, Eñ þad er under Hæleñ lagt, hvert þa verdur Toom Stund til margra Umsvifa, Er og all-lijklegt, ad honum mune ecke sijnt uñ ad ydrast, sem alldrei visse hvad Ydran var, fyrr eñ þar er komed: Og fyrst þessu Efne er þañ Veg haattad, þa er Einsætt ad dempa Upptok Syndareñar, og læra ad fyrerkoma Dreka-Unganum i Bælenu adur eñ hañ er fleygur ordeñ, svo ad af illre Hugsun ei tendrest Gyrndeñ, Gyrndeñ fæde Samþycked, af Samþyckenu framkome Verked, af Verkenu fylge Vaneñ, af Vananum þrooest Forherdingeñ, af Forherdinguñe Orsakest Orvæntingeñ, af Orvæntinguñe vaxe Fordæmingeñ, af Fordæminguñe kvikne hiñ-eilijfe Elldur, sem alldrei mun slockna,

na, Og sa Ormur er alldrei mun deya. O! HErra JEsu Christe, Þu sem i Heimeñ ert komeñ, Synduga Meñ Saaluhoolpna ad giora, Kieñ þu oss a medañ þar segiest eñ þa, J Dag, medañ Naadar-Tijmeñ yferstendur, medañ Sool Riettlætesens er oss ecke undergeingeñ, ad verka Saaluhiaalp vora med Ugg og Otta, Og laat oss ecke med Oftrauste þiñar Naadar gleyma Skylldu vorre i Framferdesens Betrun og Endurnijungu Lijfdagaña, Og þegar vier fra Heime þessum wtleidder verdum til ad medtaka hvad vor Verk eru, Sem eru Verdlaun Syndareñar, Þa uñ oss ad vera þar sem þu ert i þiñe himnesku Paradijs, og þig þar eilijflega ad lofa og prijsa med Fodur og Heilogum Anda, Amen.

# Predikun

wt af hinu

Pridia Orde DRottens JEsu Christi a Krossenum.

## Þa ed JEsus leit nu sijna Moodur / Og þañ Læresvein

standa

stanta þar hia/ hvern hañ Elsk-
ade/ Segier hañ til siñar Mood
ur/ Kona/ Siá þu/ þar er þiñ
Sonur. Þar epter segier hañ
til Læresveinsins/ Siá þu/ þad
er þijn Mooder.

DAug Sijdustu Ord Mañsins, er hañ talar under siñ Dauda, plaga oss giarnañ Miñisstæd ad vera, Sierdeilis þeirra, er oss eru af Hiarta kiærer. Og þa vier kuñum ei leingur þeirra Nalægdar ad njoota, Þa pløgum vier ad læta oss vera þeirra Sijdasta Villia Hugfastañ. Þess gietur St. Paull, Gal. 3. Ad eingeñ forakte Mañsins Testament, Ef þad er Samþyckt, edur leggi þar nockud til. Hvad skulum vier hier til segia Børn Guds Elskuleg. Þa vier yfervegum JEsu Christi Guds Eingietens Sonar Grætlegañ, Eñ oss þo Reyndar Gledelegañ Vidskilnad vid þeñañ Heim, hversu þad, ad hañ giørde

bid Nya Testamentum i sijnu Bloode, Luc. 22: Pa hañ gaf sijnum Lærisvein-um Holld sitt ad eta, og sitt Allra Helg-asta Blood ad drecka? Eckert Testament skiede aa þeim Døgum fyrer utañ Foorn-færingu, Og eingeñ Fyrergiefning aan Bloods-Uthellingar, seger Paulus, Heb. 9. Og þar ad auke bliitur Daude þess, Er Testamented giører, þar mille ad ko-ma, Ef þad duga skal, seger Paulus eñ aptur. Allt þetta hefur JEsus Guds Sonur uppfyllt i siñe Testamentisgiørd. Hañ iñsette þad Heilaga Sacramentum ad Kvøllde Dags, Hañ Offrade siaalf-um sier þar uppaa Gude, oss til Forlij-kunar, strax Dageñ epter, Hañ gaf þeim sitt Blood ad drecka Kvølldenu fyrer, Hañ wthellte þvi aa Krossens Gaalga til Synd-añna FYRENgiefningar, Dageñ epter. Eitt Testament verdur ei Stadfest, Ne-ma fyrer þess Dauda sem þad giører, ad hønum Lifanda kañ þad ecke Afl ad hafa: Þad liet Guds Eingieteñ Sonur ei til vanta, og lagde siaalfur sijna Saal fraa sier, Joh. 10. Svo þad skyllde O-raskanlegt wm alla Æfe standa. Þad er

ecke ad undra, þvott Esajas Cap. 9. kalle hañ Undrunarlegañ. Eingeñ hefur uñ Wefe svo undarlegañ Saattmaala heyrt edur sied, Hañ er sialfur Hofundur Testamentesins, Hañ er Offur Saattmaalans, Hañs Blood er Forlijkuneñ, og ad þvi svo Nidurskipudu, Geingur hañ Sialfkrafa ad deya. Þegar Moyses giørde hid Gamla Testament i Guds Uñbode, med øllum Israel, Þa las hañ upp fyrer þeim Løgmaalsins Ord, Og took i Hendur Blood Kaalfaña og Hafraña, Med Vatne og Raudre Ullu og med Isope, Og stockte þvi aa Bookena og allt Foolked, segiande: Þetta er Blood þess Testamentis, sem Gud hefur boded ydur, Eirneñ aa Tialldbwdena og øll Kier Þioonustugiørdareñar, Exod. 24. Eingeñ skylide þad undra, Þo ecke kiæme hier til Daude þess er Testamented giørde, Þvi JESU Daude var i Foornaña Dauda fyrermyndadur, hañs Blood med þeirra Bloode: Þærkuñu aungvañ Fullkomeñ ad giora epter Samvitskuñe, Heb. 9. Helldur var Syndeñ under Guds Þoleñmæde, Rom. 3, Allt þar til
 Gud

Gud doo i Christo a Krossens Gaalga, til ad forlijka Heimeñ vid siaalfañ sig, Pvi er hañ og Hofundur eins betra Testamentis, Hebr. 10. JEsus las upp fyrer siinun Læresveinum, Ecke Ord Logmaalsins, Svo sem Moyses giorde, helldur Ord Evangelii i þeirre miklu Predikun, Sem skrifud stendur i Johañis Gudspialla Bookar 14. 15. 16. og 17. Cap. Hañ took sier i Hend, Ecke Uraña nie Hafraña, helldur sitt eiged Blood, þa hañ took Kaleikeñ: Ecke Vatned, helldur wthellte af siñe Siidu Vatne og Bloode: Ecke rauda Ullu, helldur litade siñ Mottul i Viinberia Bloode, Gen. 40. Ecke Jsop, helldur var med Galle og Edike af Jsope dryckiadur: Pessu siinu Bloode hefur hañ stockt a Book Evangelii, Sem hefur allañ siñ Krapt af hañs Bloode, og a allt Foolked sem er Endurkeypt med Guds Eigeñ Bloode, Act. 20. A Tialldbwdena, sem er hañs Al-bloodugur Lijkame, og a Kier Pioonustugiordareñar, sem eru hañs Pienarar i Ordenu, og Raadsmeñ hañs Leyndardooma, 1. Cor. 4. Og aller hafa af

hañs

hañs Fyllingu medteked, Joh. 1. Og hefur svo hroopad og hroopa laated i Eyrum allrar Veralldar: Þetta er nijtt Testamentum i mijnu Bloode: Og mæ þad hvers Mañs Muñur jaata og medkieña, ad eingeñ hefur edur gietur oss svo miked i Testamentis-Giøf epterskiled. Hañ hefur giefed oss sitt Holld til Fædu, Og sitt Blood til Dryckiar, sitt Lijf til Endurlausnar, sijn Saar til Lækningar, siñ Fadm til Grida-Stadar, siñ Kross til Epterdæmis, siñ Sveita til Hreinsunar, sijna Coronu til Hofud-Bwnings, sitt Hiarta til breñande Elsku Merkis, og sijn Sijdustu Ord og Andvarp til Huggunar, Epterbreitingar og Fyrermyndar. Eñ svo sem þad, ad stoorer Hofdingiar giøra tijdum fyrst almeñelega Skipan um Rijkesins Eyrende, hverju þeir vilie epter siñ Dag hallda laata, og sijdañ Raadstøfun sijns Hwss, vid hina kiærustu Vine sijna og Þienara, Eins og David, Er hañ hafde Stioornaneñe nidurskipad, Liet hañ Son siñ Salomonem til sijn koma. Jacob kallade ad deyanda Dege alla sijna Sonu fyrer sig,

og sagde þeim fyrer Okomna Hlute: Eñ sier i Lage took hañ Joseph Assijdis og hañs Tvo Sonu, Og blessade þa. Svo virdest mier HErrañ Christur giørt hafe, Þegar hañ alla Reidu hafde stiptad hid Nija Testamentum i Narlægd siña Elskulegra Læresveina, Hveria hañ sijdañ giørde fraa sier med somu Eyrendum til allra Pioода, Þa ætte hañ þo Ena sijdústu Raadagiørd aa Krossenum vid sijna Elskulega Moodur og siñ Læresvein, Þañ er hañ elskade, J hverre hañ hefur Tvo Hlute kiendt øllum þeim er hañ elska, Sem er, Hverneñ hønum eige epter ad fylgia: Hitt og Añad; ad hañ vilie þa alldrei yfergiefa, Sém under hañs Krosse standa.

Villum vier þvi fyrst Hugleida Mariu og Johañis Dæme. 2. Þaug blessudu Ord, Er hañ til þeirra talade.

Eñ þu goode JEsu, Upplijwk þu vorum Augum, ad vier lærum þijnum Footsporum ad fylgia: Ahrær vor Hiørtu, Svo vier mættum þitt Dygda Dæme elska. Stioorna miñe Tungu, ad þad eg tala, Tale eg þier til Lofs, og þijnu Feo-

ke

ke til Saalar-Gagns og Nota, Pad Bænheyre Mysfunsamur Gud, fyrer siñ Son JEsum, Amen.

Þingeñ Hrygd er svo sterk B. G. E. ad Poleñmædeñ hana ecke yferviñe, Eingeñ svo stoor, ad hana ecke Vegsemdeñ yfergnæfe: Liett er Poleñmædeñ þeim sem viliugur lijdur, Og mikil er hañs Vegsemd, sem yferviñur. Saaleñ hefur Tvær Hendur til ad taka moot Sorgeñe, Trwna og Poleñmædena: Vel sie þeim sem baadar kañ wt ad breida til ad fadma ad sier Hormungena, Sem er þess Himnesfa Fodur Sendebode, Pa hun ad Garde geingur, og kysser svo a Guds Vönd med Paciense. Hversu Obærelegañ Pwnga meined þier B. G. ad Hiarta þeirrar Blessudu Meyar og Moodur hafe haft ad bera, Pa hun saa siñ Einka Son uppheingdañ a Krossenum, Svo sem adra Bolvan, Og hvad biturt Sverd hefur þreingt sier i giegnum Saalu heñar? Luc. 2. Meñ gieta vel til, ad þesse blessud JEsu Mooder hafe i Barnburdenum ecke svo stoora Piaming lided, sem adrar Kviñur, Hvar um eingeñ kañ þo neitt vijst ad segia, Eñ hafe þad vered, þa sijnest m:er ad i Pijnu heñar Eingietens Sonar, hafe þad aptur goll-dest, Par Holld af heñar Hollde, og Bein af heñar Beinum, Er aan allrar Mysfunar sundurslited. Dæme þad sierhvert Moodur Hiarta, Eda

 hver

hver eirn er nockud snerter Rækt siña Astvina, hvad þad sie ad horfa a Afkvæme siins Lijfs svo illa wtleiked. Hun sier hañ Uppheingdañ, Eñ fær hañ þo ecke ofañteked: Allsnakeñ, og maa hañ ei hylia; Albloodugañ, Eñ gietur hañ ei afþerrad: Særdañ, Eñ maa ecke binda hañs Saar: Hun heyrer hañ kvartar um Þorsta, Eñ maa ei giefa hønum ad Drecka; Hun sier hañ med Galle og Edike Dryckiadañ, Sem i Vögguñe hafde mylkt heñar Brioost, Eñ fær hønum hier ei svalad med Vatns-Dropa einum, Þar hañ Kvelst i þessum Loga. J einu Orde ad segla, Svo mörg Ben, sem þar hafa vered a JEsu Blessudum Lijkama, svo mörg Sorgar-Pijla hefur floged i giegnum heñar Hiarta: Og svo mörg Högg og Pwstur, sem hañs Blessada Hold hafa mared, svo margt Sverd hefur giegnum stwnged heñar Saalu. Mikel var þesse Sorg Mariæ, Eñ meire var heñar Hug-Prijde, hun stood hia Krossenum, seger Historiañ. Hier hefur hiñ Mwskunsame Gud Daasamlega auglijst, hversu ad Guds Kraptur er i Breyskum Maattugur. Þegar Eli heyrde ad Ørk DRottens var tekeñ af Philisteis, 1. Sam. 4. Og ad baader hañs Syner voru i Hel slegner, Þa vard hønum svo miked um, ad hañ fiell aptur af Stoolnum og Haalsbrotnade. Ecke var þesse Harmur Mariæ miñe, þar hin Saña Guds Ørk, J hverre ad bijr oll Fylling Guddoomsens Lijkamlega, Col. 2. Er hier af Ogudlegra

ra Maña Hondum nidurbroteñ aa Kroſſens Altare, og þeim Olmu Hundum ſem hañ umkrijngdu, Pſ. 22. ad Herfaange orden: Eñ i ollu þeſſu ſtendur Maria ſtodug, og vijkur ecke fraa ſijns Sonar Kroſſe. Þeſſe er Kraptur hiña Lifendu Orda Guds, Jhverium Heilagur Ande verkar framar, eñ nockurs Mañs Skilningur kañ ad hyggia. Um Mariam ſtendur, Luc. 2. Þegar JEſus ſagde: Vyrtar mier ecke ad vera i þeim Hlutum ſem mijns Fodurs eru? Þa hafe hun geymt oll þeſſe Ord i ſijnu Hiarta: Og hefur hun ſañlega ecke einaſta þeſſe, helldur oñur fleire geymt: Hun hefur aan Efa trwad, ad hañ være Sonur hiñs Hædſta, Luc. 1. Ad hañ ſkyllde Endurleyſa ſitt Foolk af þeirra Syndum, Matth. 1. Ad Gud munde giefa honum Sæte ſijns Fodur Davids, og hañ ſkyllde Rijkia i Hwſe Jacobs ad Eilijfu, Luc 1. Og þo heñe hafe nærſta Oliooſt vered, med hveriu Moote þad munde ſkie, Þa hefur þo Heilagur Ande lifad i þeſſum Ordum, ſem Vardveitt voru i Hiarta heñar, Og ſañaſt þad hier, ad Guds Ord ſieu Lijf og Ande: Lijf eru þaug, Þvi ad Madureñ lifer ecke af Einuſamañ Braude, Helldur af ſierhveriu Orde, ſem framgeingur af Guds Muñe, Matth. 4. Ande eru þaug, Þvi i þeim, og ecke odruvijſe, ber Guds Ande vorum Anda Vitne þar um, ad vier ſieum Guds Born, Rom. 8. Og þad aa heñañ Hatt: Hver ed heyrer Guds Ord og vardveiter þad, hañ hefur eilijft Lijf,

Lijf, Luc. 17. Þesse eru þau Guds Ord, sem vera eiga Lioos a þijnum Vegum og Lampe Foota þiña, Ps. 119. J Krossgaunguñe epter Christo, Barn Guds. Huggunarfull voru þaug Ord, Er Maria heyrt hafde af Eingelsens Muñe, og af Muñe Simeonis, Eñ ecke hefur þu færre Hugganer i Guds Heilogu Orde, Eda Olioosare eñ þessar voru. Eg furda mig a Hundrads-Hofdingians Andsvare (Sem Von er a, Þvi JEsus þoottest ecke slijka Trw funded hafa i Jsrael) þar hañ sagde: Tala þu Eitt Ord, og mun miñ Pioon Heilbrygdur verda, Luc. 7. Og vier hofum svo morg Ord heyrt, ad vier skulum fagna og vera glader, Þvi vort Verdkaup sie Nooglegt a Himnum, Matth. 5. Ad Mootlæte þessara Tijma sie ei verd þeirrar Dijrdar, sem vid oss mun Opeñber verda i eilijfu Lijfe, Rom. 8. Ad Gud sie Trwr og laate aungvañ Freistast yfer Megn fram, 1. Cor. 10. Ad vier hofum þañ Biskup, sem ad sampijnast kañ vorum Veikleika, Heb. 5. Og þo eru ecke vorar sterkustu Hetiur svo oruggar i Mañraununum, svo sem eitt yfergiefeñ og Munadarlaus Stwlka, Er hier stendur under Krossenum. Hvad mun þessu vallda? Mun ei þad, ad vier vardveitum eige svo vel Guds Ord i Hiortum vorum, svo sem Maria, ad vier kuñum þar af Huggun ad hafa i Mootgaangenum? Seg mier: Ef nockur af Kongsens Villdar-Moñum være vel til þijn, Munder þu ei Hoolpeñ þykiast, Þoott þier

nockud

nockud ad moote bliefe? Eñ þar er þo ecke ad bygg- ia uppa. Konungaña Pienarar eru hia þeim eins og Reiknings Peningur; Meñ lata þa merkia svo stoora Tolu, sem Meñ sialfer vilia, svo Kongenum er i sialfs Vallde, hvad leinge ed- ur hvad miked hañ vill lata epter þeim, sem frame fyrer hønum standa. Miklu odruvijse er hiñ eilij- fe Kiærleike Guds Fodurs til sijns Eingietens Sonar, J hverium hañ hefur alla sijna Velþock- nan, Matth. 3. Pvi hvers sem vier bidium i hañs Nafne, þad mun hañ veita oss, Joh. 16. Eñ heyr þu Christeñ Madur, hvad þesse Eingell hiñs mikla Raads segier, Er hañ bad fyrer sijnum Læ- resveinum Gud siñ Fodur, Joh. 17. Eg bid ecke einasta fyrer þeim, Helldur og jafnvel þeim, sem trwa munu a mig fyrer þeirra Ord. Eñ ef þu þad ecke giorer, Syndugur Madur, og hefur eck- ert numed af þvi, sem hier hefur vered kiendt wt af Christo og hañs Krosse. Seig mier, Hvada Formaala villt þu þa hafa fyrer hañs Bikar, nær hañ verdur hier tildruckeñ? Eda med hveriu villt þu Gud reidañ blijdka, þegar hañ temur þitt Laus- laata Holld med Krossens Vende? Hveria Yfer- Sogn villt þu brwka fyrer hinum kallda Daud- ans Kaleik, þegar hañ verdur þijnum skialfande Vorum boreñ? Hafer þu eckert af Guds Orde numed hier til Traustz og Trwar-Estingar i þeim sijdustu Andarslitrum. Mier kiemur i Hug hiñ Gamle Socrates: Einhveriu Siñe beidde nockur

af

af hans Kuñingium, ad hañ villde skoda Barn sitt, og gieta til hvern Mañ þad hefde ad geyma; Hañ sagde vid Barned: Tala þu svo og sie eg þig. Ef þiner Vitrustu æ medal vor, kuña ecke ad þeckia Eirn nema af Mælenu, Hverju vilia Meñ þa sia Gud sienañ edur þecktañ, nema i hañs Heilogu Orde? Þvi hañ hefur eingeñ nockurn Tijma sied, Sæ Eingietne Sonur Fodursens, sem er i hañs Skaute, hañ hefur oss þad opeñberad, Joh. 1. Hverge nema i þvi Orde af Krossenum, hvert ad er Heimska þeim er Fyrerfarast, Eñ oss sem Hoolpner verdum, er þad Kraptur Guds, 1. Cor. 1. Þvi er mitt Rææd, Christeñ Madur, Ad æ medañ þier eñ þa ad Oskum geingur, og þu fiñur eingeñ Missmijde æ Hogum þijnum, þad þu safner nockru af Guds Orde og þeim Heilogu Kieñingum, sem af honum seglast i Hiarta þitt, og geymer þaug þar med Mariu, svo þad kuñe ad gagna þier æ hiñe Vondu Tijd, Nær honum añadhvert þocknast, ad þu skuler standa under hañs Krosse, Edur gæænga epter honum Veg allrar Veralldar, til ad giallda Gude hina Sijdustu Skulld.

Vier heyrum ad under JEsu Krosse stendur hañs Mooder og hañs Læresveirn: Þess var oll Von, ad þeir sem Christo voru næækvæmaster i Elskuñe, þeir mundu eirneñ honum best fylgia i Kvoleñe. Þañeñ er Christi Elsku hættad, ad hun virder eckert fyrer sier, uppæ þad hun kuñe ad vera sem nærst Christo. Þesse er sæ Kiærleike,

sem

sem ad er i JEsu Christo, vid hvern ad Paulus fortekur, Ad sig nockur Hlutur skilia skule; Hverke Lijf nie Daude, hverke Einglar nie Hoͤfdingia Dæme nie Valldstietter, hverke þad Nalæga nie hid Epterkomanda, hverke Hæd nie Dypt, nie nockur oñur Skiepna, Rom. 8. Ecke er þaneñ Heimsens Barna Vinatta: Þeir uña medañ þeir abatast: Þeir taka Rentu af Vinattu siñe, svo sem af odru Gialldε: Þeirra Vinskapur er Sioofarendum lijkur, Þeir ed aka Seglunum epter Vedrenu: Þeir hermia epter Sumar-Fuglunum, Er leita til hiña kolldu Landa a Vorum, Edur vakna upp þegar hitna tekur, Eñ under Vetureñ leggiast þeir i Dvol, edur flya a burtu, Þvi ecke eru Of marger Husai þegar David er wtlægur, Edur Eliphas þegar Job er Kaunum sleigeñ: Sa sem leitar epter þeim i hveriu Hwse, hañ dregur sialfañ sig a Tealar, og fiskar i Loptenu, Þar fyrer er Vinskapur þessa Heims Ovinur Guds, Jac. 4. Hver ed skipad hefur fyrer Postulans Muñ, ad grata med Gratendum og fagna med Fagnendum, Rom. 12. Framar þessu hofum vier af Dæme Mariæ og Johañis ægiæta Huggun, Þar vor HErra segier, Matth. 12. Ad sa sem giorer Vilia siins Fodur, Hañ sie hañs Mooder og hañs Syster og hañs Brooder, og Luc. 14. Ad hver sem vill vera hañs Læresveirn, skule taka siñ Kross uppa sig og fylgia honum epter: Þvi ma ad Riettu segia,

ad Christeleg Kyrkia Guds, Sem er Safnadur Trwadra hier a Jorduñe, hun sie hañs Mooder, Og aller þeir, sem þar iñe Fodursens Vilia giora, JEsu Christi Læresveinar. Þesse JEsu Mooder stendur under hañs Krosse hier i Heime, og kuelst þwnglega, Hun er su Kviña Sooluñe Jklædd, sem Tungled under Footum tredur; Hun hlieodar af Joodsoott og kvelst svo sem i Barnburde, Apoc. 12. JEsu Mooder hefur audþeckt vered af hañs Krosse, Þar eingeñ var hønum svo nakvæm: Hañs Christne er og audkiend af sama Merke, þvi hun mun Sijta og Græta, þar Heimureñ mun fagna, Joh. 16. Svo sem heñar Hofud er, Svo er og siælf hun. Hañs Rijke var ecke af þessum Heime, svo er og ecke heñar Eptterlæte helldur i Verolldu þessare. Þa vier heyrum David offooktañ, Jeremiam fleigeñ, Johañem afhofdadañ, Stephanum grijttañ, Paul Halshøggveñ, Petrum Krossfestañ, Og JEsum Christum, sem er Safnadarens Hofud, svo sem adra Bolvan uppheingdañ, Þa þeinkium ecke ad hañs Andlegur Lijkame sie vanskapadur, svo ad Limerner meige añañ Veg hættader vera eñ siælft Hofuded er. Meinum eige ad oss hlijde ad bada i Roosum, þar sem hañ stealest a Krossenum. Sie JEsus i þier myndadur, svo þu siert hañs Andleg Mooder, þa skamast þijn ad fagna med Heimenum, þar hañs Mooder stendur under Krossenum. Ecke einasta hañs Hofud var i

sundur

sundur stwnged, helldur allur hans Lijkame fullur af Benium: Svo byriar og þeim Andlega Lijkama ad vera, Annars kan han ecke vel ad eiga vid Hofuded, Hafe Gud DRotten skeinkt fullt ꝏ fyrer han, svo vit, ad þier byriar ad smacka þar ꝏ med. Pegar han drack hin fleitefulla Reide Kaleik Guds, þa drack han þier til svo sem Petre, er han sagde: Pu munt og drecka min Kaleik. Ef han er þin HErra, þa munt þu ecke skirrast vid, hans Adryckiu ad hallda.

Mooder þeirra Zebedæi Sona bad HErran um, ad Syner hennar mættu sitia i hans Rijke, Annar ꝏ Hægre Hond honum, en Annar ꝏ Vinstre: Hun visse ecke hvers hun bad; Sꝏ blessade HErra giorde betur til Sonar hennar, en hun kunne ad Oska. Eingen Joab af David, Eingen Mardochæus af Assvero, Eingen Daniel af Nebuchadnezar, Eingen Joseph af Pharao, kan slijkan Sooma ad þiggia, svo sem Johannes hier, þar han stood under JEsu Krosse. Pesse var sꝏ Læresveirn sem JEsus Elskade, sannlega þess vegna, ad han hefur JEsum Elskad, ei sijdur en hver hinna hans Læresveina. En seig mier Christen Madur, hvern hefur JEsus meir elskad en þig, þa þu han hatader? Hvern byriade þier meir ad elska en han, sem gaf sitt Lijf wt fyrer þig? Hvar er hans Elska, ef þu hatar hans Kross? Pad var ei ad undra, ad vor Endurlausnare spurde Petrum Prisvarsinnum ad, hvert han elskade sig? Joh. 21. ꝏdur en han

 teikn-

teiknade med hverium Dauda hañ skollde Gud Dijrka, Matth. 20. Þvi svo sem Gulled reyneſt i Ofnenum, svo verdur Elſkañ til JEſum Chriſt-um prooſud i Kroſsburdenum. Þu ſkallt ei hug-ſa ad þad ſie noog ad elſka Gud svo ſem Hræsnar-eñ tilbidur ſyrer Borde hiñs Rijka. Gude er ein-geñ Þocknan þar i, ad þu hafer Matar-Aſt eina at honum: Villt þu lata ſiaa hvad kiæran þu heſur Chriſtum ſyrer allt þad hañ leid þiña vegna, þa ſiin hvad liwſlega þu villt lijda hañs vegna. Þeir ſem ecke gaatu leped af Vatnenu ſtandande, þeim ſkipade Gideon heim aptur, Judic. 7. Þeir nu-tu og ei þeſſarar Æru ad hrooſa Sigre yſer Mad-lanitum: Þeir ſem ei villa drecka af Lœknum med Chriſto, Þeirra Hoſud verdur ecke helldur upphafed med honum: Saa ſem eige vill bera hañs Kroſs med honum, hañ er ecke hañs Lære-ſveirn, Luc. 14. Saa ſem ecke er hañs Læreſvei-rn, hañ er hañs ecke verdugur; Saa ſem ecke er hañs verdugur, Iñgeinaur ecke i hañs Dijrd, hañ ſem ei iñgeingur i hañs Dijrd, honum er i hinum ytſtu Myrkrum Viſt ætlud: Þvi dæme eg hier af, ad ſaa ſem ecke vill lijkiaſt honum i Hörmung-eñe, hañ verdur wtelokadur fraa hañs Samney-te i Dijrdeñe. Eg veit ad faaer lata miked yſ-er þvi, ad Johañes ſtood hier vid ſijns HErra Kroſs, Sierdeilis þeir ed ecke æger ad ſiaa, þoott Naunganum illa lijde, og ecke vex i Augum añ-ara Mootlæte, Ef þad ſnerter ecke ſialſa þaa.

Margur

Margur kañ vera sa ed þeinker, eg villde ecke sijðtur eñ Johañes hafa fylgt mijnum HErra i siñ Kvalastad, eñ það mun añadhvert sa segia meiga, sem lijted elskar Christum, edur hañ, er elskar svo heitt sem Johañes. Sa er lijted elskar, mar diarft um tala, þvi honum er ecke saart, nema það a sialfum liggur; Eñ hañ er heitt elskar, dregur Elskañ ecke einasta under Christi Kross, helldur uppa Krosseñ med Christo. Nu veit eg Bræður mijner, ad eingeñ vill i þvi funddeñ verda, ad hañ Christo ecke uñe, hver ed ecke elskade sitt Lijf allt i Daudañ vor vegna, hvar fyrer Paulus seger: Bolvadur sie sa, sem ecke elskar DRotteñ vorn JEsum Christum, 1. Cor. 16. Eñ ef þu seigest elska hañ Christeñ Madur, þa sijn það i Verkunum, er þu talar med Muñenum. Christi Kross er ecke laangt i burtu: Eg vil segia, ad hañ liggur fyrer Footum þier, eñ þu ert svo blindadur a Augunum ad þu sier hañ ecke, og þijnar Heñdur svo latar, ad þu neñer ecke ad hefia hañ þier a Herdar: Þu tredur það under Footunum, sem ætte ad vera Corona þijns Hofuds, eñ lætur það skarta a Hofde þier, sem i Skarne a ad liggia. Fiñur þu ecke eitt Logmaal i þijnum Limum, sem þig tekur faangeñ under Syndareñar Logmaal? Rom. 7. Kieñer þu ecke til Holldsins Oroa, hvert ed gyñest i moote Andanum? Er hiñ gamle Adam svo svæsdur i þier, ad hañ brijtst ecke um? Eg vantreyste þvi, hver hellst sem þu ert, eda hvad

 agiætur

magiætur i þiinum Augum, nema ſvo ſie, ad þu ſiert i Synðeñe ſvo daudur og yferkomeñ, ad þu meg- er ei ſiña til þiña eigeñ Vanheilenda.

Ef Hesturen þeckte ſiñ Styrkleika, þa munde hañ traudlegar læta ſier ſtiooꝛna; Eñ ef Madur- eñ þeckte ſiñ Veikleika, þa munde hañ helldur læta Guds Anda vid ſig ræda, og læra ad deyda fyrer Andañ Holldſens Gyrnder: Og þegar vier ſlijkt af Alvoru gioꝛum, þa munum vier þyk- iaſt ſtanda nær Chriſti Kroſſe, eñ ad vier þurfum hañs-langt ad leita. JEſus lijdur eirneñ i ſijn- um Limum hier a Jorduñe, hañ fiñur til ſiña Mei- na, ſem ſagde: Saul, Saul, þvi offæker þu mig? Act. 9. Hañ veit an Efa, hvad vid hañ er haſt, er talad heſur þeſſe Oꝛd: Hver hañ medtekur ydur, hañ medtekur mig, Joh. 13. Og vier ſtondum vid hañs Kroſs þa nockur Brooder og Syſter Naud lijda, Jac. 2. Chriſtur er Safnadarens Hofud, eñ vier erum hañs Limer, ſeger Paulus, Eph. 1. Hver fær þvi trwad, ad ſa Limur ſie lifande a Lijkamanum, ſem ei fiñ- ur til Meinſemda hiña añara Limaña? Er ecke ſvo; Ad ef þiin vinſtre Hond er veik, ad þu vill- der hin hægre mætte lijda nockud med heñe, og ad þu mætter þvi ſkipta med badum þeim? Mier þyker ei Olijkt, ad JEſu bleſſud Mooder hafe giarnañ viliad bera nockud af hañs Byrde heſde hun matt, og Kvøl hañs gietad oꝛded þeim Mun bærelegre; Eñ fyrſt þad ei kuñe ad ſkie, þa gein-

gur

gur hun ſvo nærre honum, ſem hun maa. Hvar er nu Fiolde ſaa allur er fylgde JEſu epter, og heyrde hañs Kieñingar? Hvar eru nu þær Priaar Puſunder er hañ Mettade i Eydemorku? Hvar er ſaa mikle Skare er breidde ſijn Klæde aa Vegeñ, hiuggu Kviſtu af Triaanum, dreifdu þeim aa Vegeñ, og hroopudu Hoſiaña Syne Davids? Matth. 21. Par er varla nockur epter nema eirn faatækur Læreſveirn, og ein ſorgande Mooder med Faaeinum Kviñum, þær ed grietu yfer honum. Pañeñ eru vorer Viner, þegar aa moote geingur; Eg vil ei tala um̃ þa Ovine Kroſſens Chriſti, Phil. 3. Er hlacka yfer Añars Sliſum. Er nockrum Forvitne aa ad ſiaa Dioſuleñ i ſijnum verſta Ham, þa ſkode hañ hañ, er hefur Ynde ſitt af añars Oſorum, hvi þad er hañs Vijlæte. O! þu Heimſkur og Illgiarn Madur; Kant þu ei betur Gude Packer fyrer Poleñmæde ſijna yfer þijnum Syndum eñ ſvo? Meinar þu þeſſe, edur hañs Fader hafe ſvo ſyndgad, Joh. 9. Ad Gude ſie ei i ſiaalfs Vallde, ad openbera ſitt Riettlæte aa þier, ef honum ſvo þocknaſt? Ætlar þu ſem hæder ad Gude og hañs Giorningum, ad þu ſiert heilagre eñ ſaa, er hañ virder med ſijnum Kroſſe? Eda ad þeir Atian ſem Turneñ fiell yfer i Silo, hafe Syndugre vered, eñ adrer Jeruſalems Bwar? Luc. 13. Laat af þviliiku Satans Æde aumur Syndare. Hvad ſnart kañ hiñ Almaattuge ad giøra Haman ad

Mardochæo? Hiñ rijka Sælgiæting ad Lazaro? Og Nebuchadnezar lijkañ þeim Lioonunum, er hañ ætlade ad ſkyñdu Hel-rijſa Daniel? Eingeñ Hlutur kañ ſvo ad þvijnga Mañſens Hiarta til Medaumkunar, Svo ſem Jhugan ſialfs ſijns Haſka: Þar ſyrer, nær eg þeinke med mier, ad eg hafe allt þad illt forþienad, ſem eg a ødrum ſie, og ad ſu ſie vijſuſt Von, ad Gud late þad yfer mig koma, nær honum vel þocknaſt, þa mætte mier under eins til Hugar koma, ad vorkyña honum, ſem Gud hefur plaagad med þvi, ſem eg heſe forþienad, mier til Advorunar og betala honum allt þad Jllt, er hañ þola maa, mier til Lærdooms, ſem eins er ſekur og hañ, med Chriſtelegre Medaumkun. Ef eg kañ ecke i Verke, þa ſamt i nækvæmre Tilfiñingu hañs Eymda.

Mariu bleſſud Epterdæme ætte oſs og til ſtærſtu Huggunar ad vera i vorum Kroſsburde: Ef vier under Kroſſenum ſtondum, þa er þad vors HErra Krøſs: A honum ſtendur ritad: JEſus af Nazaret Konungur Gydinga, Joh. 19. Hver er ſaa, ſem ſkamaſt ſijn ad bera Konungſins Merke a ſijnum Klædum? Hver vill þa bligdaſt vid ad bera med Paulo Teikn JEſu Chriſti a ſijnum Lijkama? Hiner Romverſku Fullhugar plagudu Fordum Daga, þegar þeim þootte lijted aa-orkaſt, ad grijpa Merked, fraa hveriu eingeñ Ærlegur matte flya, og briootaſt iñ i Flock Ovinaña, þar ſem meſt var Mañþraungeñ. JEſus

er

er goodum Hertoga lijkur, hañ hefur Einsamañ þrifed siñ Kross, og brotest i giegnum Andskotans Her, og alla Ovine vóra alleina ad Velle lagt; uppa þad vier skulum aller Otrauder a epter ganga, verande þess full-örugger, ad hañs Hertekning er vor Lausn, Hañs Forsmaan vor Vegsemd, Hañs Kvol vor Rooseme, Hañs Hrygd vor Glede, hañs Fordæming vor Afsökun, hañs Beniar og Perte vort besta Skart, hañs Daude vort Lijf, og hañs Upprisa vort Aptorhvarf og Endurlijfgun, Svo þvott vier hrasader sieum a medal Ræningia, Pa kañ eingeñ ad ræna oss af hañs Hende, sem hier er a Krosseñ negldur medal Tveggia Ræningia. Blygdan vors Klædleysis kañ ei ad openberast medañ vier skijlum oss under þvi Trie, sem hañ hieck nakeñ a: Padañ dunde hañs Blessada Blood, sem þvær oss af ollum vorum Syndum, 1. Joh. 1. A Mis vid hvert vier kuñum, ecke ad fara, þa vier stondum undir hañs Krosse. Par sem ollum leifdest allt vid hañ ad giora, Par maa eingeñ oss granda framor eñ hañ vill, sem a Krossenum Saklaus hieck. Par sem hañ leid hina stærstu Smaan, þar vilium vier hrosa oss af, Gal. 6. Sieu þvi Fiandmeñ vorer svo mattker, svo slæger, svo illfuser, sem þeir vera vilia; JEsu Mooder stendur under hañs Krosse; Og þorer ad segia i hañs Orda Stad: Eg em hun, Daude, hvar er þiñ Broddur? Helviite, hvar er þiñ Sigur? Gud er sa sem oss hefur Sia-

ureñ giefed fyrer siñ Son JEsum Christum, 1. Cor. 15. Þetta hofum vier nu heyrt af Mariu og Johañe. Nu vilium vier vors Endurlausnara Adgiorder heyra.

SJalldañ er Eymd Ein, segia Meñ i Ordtæke gomlu. Pad sañast giarnañ a þeim sem i Krossburdenum mædast, Þar sem Ein Hormung er, þa vilia giarnañ fleire halldast i Hendur. Ecke var Aboota vant a Hormuna þijna, miñ HErra JEsu, þoott ei hefdu þijn Myskunar Augu plagud vered med Sorgarlegre Asynd þiñar Blessudu Moodur. Hversu mun honum hafa ruñed þad til Rifia, sem Griet yfer Jerusalem, hver hañ Krossfeste, ad sia uppa Harma siñar Moodur, er hañ i Heimeñ fædde? Hañ sem bad fyrer þeim er hañ Hwdflettu, hræktu, Þyrnum krijndu og a Krossteñ negldu; Hañ sier hier midt i Kvolunum þaug Brioost med Sverde i giegnum stwngeñ, er hañ a Æsku Alldre sijnum mylkt hafdi. Eñ i ollu þessu verdur ei Bruñur Myskunareñar byrgdur. A medañ hañ framde hid allra mesta Furduverk, sem um Æfe hefur uñed vered, bæde a Himne og Jordu, sem var ad nidurbrioota Helvijtis Magt og Frida fyrer syndugar Saaler, Talade hañ þessum Lijknar Ordum til siñar elskulegrar Moodur: Kona, Sia Þu, Þar Er Þiñ Sonur, og til Læresveinsins: Sia Þu, Þar Er Þijn Mooder. Nærre i somu Svipan, og JEsus lauk sijnum Augum aptur til ad deya fyrer allt Holld til Forlijkunar;

lijkunar; J sama Bile rende hañ heim til siñar Moodur, heñe til Huggunar. Kraptur Dauðans liet haug aptnrfalla til Purdar, Kraptur Elskuñar opnaðe haug til Meðaumkunar. Hier gaf JEsus hier Christeñ Maður Eitt Blessað Dygða Dæme, hverju hier byriar við hijna Forelldra að breyta. JEsus var siñe Moodur uñ eckert skylldugur, Pvi hañ var i Heimeñ komeñ, Bæðe hana og alla Synduga Meñ Sæluhoolpna að giora, Samt gietur hañ ecke læteð æ moote sijnu Myskunar Hiarta að bera Umsorgun fyrer heñe; Byriar hier þa ecke Syndugur Maður, Sem ert hijnum Forelldrum uñ Sæk og Lijkama næst Guðe skylldugur, að lijta til þessa Dæmis? Syrach seger i siñar Bookar 7. C. Heidra Fodur hiñ af ollu Hiarta, og gleym ei Hormungu hiñar Moodur, Miñst hu har æ, að hu ert fyrer haug Giorður, Hvað munt hu Endurgiallda heim, svo sem haug hier? Agiæt er þesse Amiñing, Pvi mier virðest að Endurlausnareñ kieñe oss, hvað stoorum að aller vier i hvi heiged hofum, að vera Sælar og Lijfs Hluttakande, þegar hañ talar uñ hañ, sem Fordæmingeñ yfer hanger, segiande: Betra være heim Mañe að alldrei hefðe hañ fæddur vereð, Matth. 26. Eg vil ecke hier tala uñ heirra Svar, Er segia: Hefðe eg ei fæddur vereð, Pa hyrsta eg ecke að beriast við Andstreyme Verallðar þessarar, Ecke fyrer Sælu að sia, og ecke að eiga under Von, hvert eg munde epter miñ Dau-

 ða,

da, iñgaanga til Lijffins. Fliott er þar til ad svara: Lijted maa vera i þañ spuñed, sem ecke vill viña þad til þeirrar Dijrdar, sem vid Guds Born mun opeñber verda i eilijfu Lijfe, ad gaanga i giegnum Mootlætingar þessara Tijma iñ til eilijfs Lijfs. Eingeñ aa helldur Guds Rijke under Kaste, Pvi þad giefst ecke ad Hendingu, helldur er ollum þeim vijst, sem trwa aa Soneñ. Eñ svo Olucka, Er hiñ Gudlause ratari, er hvers Eins Sialfskapar-Vijte, Sem þecker og maa vel þeckia Veg Saaluhiaalpareñar, og vill hañ ecke gaanga, edur ad honum leita, Pvi þijn Fordiorfun kiemur af þier þu Israel, segir DRottiñ Gud, eñ ecke af Gude, Ecke af Natturuñe, og ecke af Forelldrunum, aan þess ad vier erum i Syndeñe gietner, Nema þeim sem ala Born sijn upp i ollum Odygdum, Skomum og verstu Klækium, Myrdande svo siña Barna Saaler, og giorande þeirra Kost Pusundsiñum argare helldur eñ alldrei hefdu þaug fædd vered, Par þeir baña þeim iñ i Himna-Rijke, og sialfer koma þeir þar ecke, Matth. 23. Svo sem DRotteñ ad Orde kiemst um Pharisæana, þaa Blindu Blindra Leidtogara. Og ecke einasta eigum vier Forelldrunum Lijf og Limu ad þacka, helldur allt Uppfoostur, allt Atlæte og Mentun vorum Ungdoome, Par þeir hafa med siñe Umhyggiu, næst Gude, svo Myndad og Skapad oss aa vorum Ovitsku Arum, ad vier kyñum ad verda, Ecke einasta Fodur-Landsens, helldur og

Christe-

Christelegrar Kyrkiu þarfer og hentuger Timer. Þu kañt ad segia, Ad þad hafe þeirra Skyllda vered, ad ala þad er þaug af sier gatu, Eg medkieñe þad, Eñ sæ leggur stoora Skulld iñ hia odrum, sem giorer sijna Skylldu ad fyrra Bragde: Vit þar fyrer, Ad svo opt sem þu medtekur nockud Gott af Hende Forelldra þiña, svo opt jatar þu þig Þienustubundeñ þeim i ollu þvi, er þu matt, og afkastad gietur. Seig mier, Hvilijkur munder þu ord:d hafa, hefde þier wtkastad vered a mille Villu-Dijra? Hversu lijted munde orded hafa wr þvi Vallde er Gud gaf Mañenum i Ondverdu yfer Kvikendum Jardareñar? Hvad hræddur munder þu orded hafa, Aumastur allra Skiepna, þeirra, er þu atter yfer ad Drottna, fyrer þeim er þig nu hrædast? Seig mier, hver er þa stærre Velgiorningur eñ sa, ad Forelldrarner hafa þig svo uppaled, ad þu kañt med Fride og Frelse ad umgangast med þijnum Brædrum i Heimenum, eñ stioorna Villu-Dijrunum, hverra Stallbrooder þu añars vered hefder, þar fyrer segir Syrach eñ aptur: Med Verke og Orde, og allre Poleñmæde skallt þu heidra Fodur þiñ, ad yfer þig kome Blessun, Syr. 3. Og Paall samsiñer honum, Col. 3. Segiande: Þier Born, Vered hlijdug Forelldrum ydar, Þvi þad þocknast DRottne. Take Meñ Geyslañ fra Sooluñe, og mun hun ecke lijsa; Stijble Meñ Lækeñ fra Bruñenum, mun hañ uppþorna; Hoggve Meñ Kvisteñ af

Eikeñe,

Eikeñe, mun hañ visna; Skiere Meñ Limeñ fraa Lijkamanum, mun hañ Rotna, Og wteloke nockur Christelega Rækt fraa Barnenu, Pa er pad ei Barn leingur, helldur þeirra Brooder, um hvertid skrifad stendur: Pier erud af Fodurnum Fianda, Joh. 8. JEsus gaf oss hier eitt blessad Epterdæme, svo sem aadur er sagt. Segid mier: Hver mun bwa vid svo þwngañ Kost, svo sem vor HErra, Par hañ hieck aa siinum Krosse? Gootz og Peninga hafde hañ ecke, Jafnvel þoott allt Gull og Silfur være hañs, Zach. 3. Hws og Heimile ecke helldur, Matth. 8. Refar hofdu Holur, og Fuglar Loptsins Hreidur, eñ hañ ecke þar hañ kyñe Hofde siinu ad ad halla. Hañs Klædum skiptu Ogudleger med sier, Og aa hañs Mottul logdu þeir Hlut-Kieste: Par maa hañs Mooder horfa aa, (sem Lijklegt er þau hafe siaalf uñed med siinum eigeñ Hondum) og hafa þar ecke af. Eckert var vor HErra uppaa Krosseñ, nema eirn Bloodrisa Lijkama og Pyrne-Coronuna aa Hofde sier. Eingeñ hefur og stærre Arf-Svik lided, helldur eñ hun, Sem fædde i Heimeñ Frum-Burd allrar Skiepnu, Col. 1. Par hun maa ei niota hañs Klæda: Og þa hañ nu med eingum Tijmañlegum Munum kuñe heñe ad hiaalpa, þar eingeñ Limur aa hañs Blessudum Lijkama hafde nockurn Maatt eda Megn, Nema Twngañ og Augun, Pa vill hañ ad þeirra Siidustu Kraptar verde heñe til Siidustu Huggunar.

Oll JEsu Guds Sonar Ord og Atvik, Utgaungur og Jñgaungur, er hin ægiætasta Lijfs-Regla Christens Mañs, og Friossom Lærdooms Predikun. Hañ talade til ad Kieña, Riette æt Hendurnar til ad Lækna, Hañ hoof sijn Augu ad Himnum upp til ad Bidia, Hañ leit þeim æ þar Aumu til ad Myskuna, Hañ horfde æ Petur til ad Aminña, Hañ rende þeim under hid Sijdasta Andartak til sijnar Moodur hana ad Hugga, Og ecke einunges þad, helldur øllum Gudhræddum til Epterdæmis, eñ til Stroffunar Myskunarlausum, Þvi ad sonu var honum ecke uñ Megn, epter þvi Vallde, er honum var giefed, Bæde æ Himne og Jordu, ad forsorga sijna Moodur, hefde hañ ei viliad Blygda þar med sijnu Dæme, Sem eru verre eñ Heidingiar, Astlauser, Omyskunsamer, Rom. 1. Hverier uppeta Sælernar svo sem Leon þa þad tekur sijna Braud, og giora margar Ekkiur, Esa. 14. Ei læta hiñ Fodurlausa Riettenum næ, Og ecke styrkia Eckiuñar Mælefne, Esa. 5. O! hvad fiærre eru svoddañ Meñ JEsu Epterdæme? Miñst þess þo Syndugur Madur, ad Guds Sonur kallar þæ er giora sijns Fodurs Vilia, sijna Moodur, sijnar Systur og Brædur, sem adur er sagt: Byriar þier þa ecke ad læta hvern eirn Naudlijdande vera þier nækomeñ? Sæll er sæ sem temur sier þvilijkt Hugarfar: Sæ ed heidrar Fodur og Moodur, Er svo sem sæ er Audæfum safnar, segir Syrach, Cap. 3. Þad er ad

sonu,

soñu satt, Eñ sæll er oa sa sem ecke giorer Eckiur og Fodurlausa ad Løg-Ræningum, Zach. 7. Og þeim eckert Mein viñur, Añars Bænheyrer Gud þeirra Kall, og hañs Grimd mun breña og hañ mun liooſta þaa med Sverde og Myſkunarlauſt høndla, og læta þeirra Kvjñur Eckiur verda, og þeirra Born Fodurlaus, Exod. 22. Pu segir; Hañ er mier ad eingu Vanda-bundeñ, Pad er ei Bur miñ nie Brooder; Eg vil læta mijna Lœke reña, Eñ þo svo ad Hiordeñ drecke Fyrſt. Pad er ad soñu ecke Oriettviiſt; Eñ Gud giæfe þu brwkader ecke hañs Ord Kiergiu þiñe og Hardwd til Fegurdar, og kyñer þad riett ad tempra, svo þu stiiblader ecke svo Lœke Guds Blessunar, sem hañ hefur sett þig til ad vakta, ad þeir verde ad swllre Leyr-Kielldu i þijnu Hiarta.

Allra siidarſt byriar þier Christeñ Madur, ad taka þier til Huggunar JEsu siidurstu Ord, Er hañ talade til siñar Moodur, æ þiñe Dauda-Sæng, þa þu horfer fram æ Veg allrar Veralldar, um hvern þier byriar ad safnaſt til þiña Fedra þa aller þijner Viner standa umhverfis þig med Ope og saaru Veine, og Daudeñ sliitur þig fraa þeirra Hiarta, Eñ þeir meiga ei, þoott þeir villdu þier æ epter fylgia: Pa fel Gude æ Hendur þaa, er hañ gaf þier til allrar Umsorgunar, og þig hønum allra siidaſt med audmiukre Bæn og Ydran Syndaña, og trw þvi fyrer viiſt, ad JEsus mun þa ecke miñſt sampiinaſt þijnum og þiña Eymdum, og hañs Myskunar

ſkunar Ydur munu uppvekia fyrer honum þa Stund, er hañ forlaateñ af ollum, Afhendte ſiñ Anda Fodurnum, Eñ ſijna Moodur ſijnum Harmþrwngnum Læreſvein.

O! JEſu allrar Naadar og Giæſku, allrar Myſkunar og Medaumkunar Bruñur, virdſt þu ad vera vor Mooder og vor Broeder a þeirre hordu Tijd, begar vor Maattþrota Lijkame, wtklekur vorre Ormæddre Saalu under Guds Riettferdugañ Doom. Virdſt þu ad rietta oſs Moodur-Hendur þiña heiloau Eingla, Sem bere þær i Abrahams Skaut, Eñ vertu ſiaalfur Fader Fodurlauſra og Forſvar Ecknaña, ſem epter þreya, og gief oſs med ollum Aſtfoolgnum ad ſafnaſt i Vindene þiña Barna i einu Sauda-Hwſe, under einum Hyrder, og þar eilijflega ad ſediaſt af Nægdar-Giædum Guds Hwſs, þig eilijflega Lofande og Prijſande, ad afþerrudum ollum Hrygdar-Taarum, ſm under þijnum Kroſſe wthellt vered hafa i þeſſare Utlegd: Pad Bænheyre Myſkunſamur Gud, fyrer Forþienuſtu ſijns Sonar, og giefe þar til Naad Heilags Anda Amen, i JEſu Nafne, Amen.

# Predikun

wt af hinu
Fioorda Orde DRotteñs JEſu Chriſti a Kroſſenum.

# Gud miñ/ Gud miñ / Hvar fyrer hefur þu yfergiefed mig?

DEgar vor Blessade Endurlausnare var skijrdur af Johañe i Añe Jordan, Þa stie Heilagur Ande Ofañ i Dwfu Lijking yfer hañ, Og Raustiñ af Himne sagde: Þesse Er Miñ Elskulegur Sonur, J Hveriunt Mier Velþocknast, Matth. 3. Þesse Vitnisburdur Fodursins um sin Eingieteñ Son, hefur øllum Gydinga Lijd mætt alkuñur vera, Þvi þad var i þa Daga, er allt Foolk kom ad Jordan til Johañem ad læta skijrast af hønum, Og sæ Himneske Fadereñ sañade Johañis Vitnisburd af hønum med þessum sijnum Vitnisburde. Hvernen heyre eg þa hiñ Elskulega Guds, Openberlega æ Krossenum hroopa, Gydingum og Heidingium, Vinum og Ovinum æheyrande: GUD Miñ, GUD Miñ, Hvar Fyrer Hefur Þu Yfergiefed Mig? Fyrst hañ er hiñ Elskulege, Þvi er hañ þa Yfergiefeñ? Fyrst i Hønum er Velþocknan Guds, þvi

Pvi hefur hañ þa alleina Vijn-Pressuna troded? Fyrst Gud ætte hañ i Upphafe sijña Vega, Pvi er hañ þa i Tijmans Uppfyllingu ótskwfadur? Hefur ei Gud Velþocknan a ollu Foolke, Sem giorer hañs Vilia? Eñ Sonureñ vottar uñ sig: Staa eg kiem, J Bookeñe stendur skrifad af mier, Piñ Vilia miñ Gud giore eg, Psalm. 40. Pvi hefur hañ þa sett hañs Hlutskipte med þeim Ohlijduga? Petta er þo af Gude skied, Jafnvel þott þad sie Undarlegt fyrer Moñum. Hverneñ er þa Guds Eingieteñ Sonur yfergiefeñ? Er Veruñar Eining Sundurglidnud? Fiærre sie þvi. Hañ vottar sialfur Holldenu Jklæddur, Joh. 8. Eg og Fadereñ erum Eitt: Er Nattuurañа Samband i Christo sundurlosnad? Ecke helldur, þvi St. Petur seger, 1. Pet. 2. Christur hefur lided fyrer oss, og Gud hefur med sijnu eigeñ Bloode Endurleyst Christneña. J þessare Hoolm-Gaungu, vid Synd, Dauda, Dioful og Helvijte, vañ hin fræga Hetia þañ mikla Sigur a ollum sijnum og sijña Ovinum: Eñ þad kuñe eingeñ ad giora, neima i honum byggde oll

Fylling Guddoomsins Lijkamlega. Hver-
neñ hefur Gud þa siñ Eingieteñ Son yf-
ergiefed? Saãlega kuña Meñ ecke aãad
ad giøra sier i Lund uñ þetta, eñ Gud
hafe uñ Stundarsaker sijna Almættis
og Verndar Hønd fra hønum teked, uppaa
þad Gud kyñe ad deya i Maãlegu Holl-
de, Og Maãaña Endurlausn ad frañ-
kvæmast fyrer nockurskonar Lijssins Fiær
vister. Þetta vottar Pistels Skrifar-
eñ til Hebræos Cap. 2. Segiande: Ad
hañ hafe vered af Gude Einglunum uñ
Stundarsaker Miñe giørdur, Jaa, Ef eg
mætte svo ad Orde komast, þa hefur siaalf-
ur Christur ad nockru Leite yfergiefed
sig i sijnu Dauda Strijde, Þvi seger hañ
og siaalfur hiaa Johañem i 10. Cap.
Eingeñ tekur mijna Saal fraa mier,
helldur legg eg hana siaalfur af. Og Esa-
jas spaaer þar uñ Cap. 53. Hañ er Foo-
rnfærdur, af þvi hañ siaalfur villde. Þad
sie og fiærre, ad vor Blessadur Endurlau-
snare hafe af Oþoleñmæde talad þesse
Ord, Hañ sem med slijkre Hoogværd aa-
varpade þaa, er hañ gripu og fiotrudu, þaa
er hañ sloou, þaa er hañ Falsklega aaklog-
udu, þaa er hañ Saklausañ til Dauda

dæmdu, Hañ sem beidde fyrer þeim sem hañ kvoldu og a Kroſſeñ heingdu, Munde hañ nockud mogla a moote ſijnum Himneſka Fodur? Eingañ Vegiñ, helldur hefur Megn Kvalaña og Ofur-Hite Guds Grimdar Reide, Hver ad ſinellte hañs Hiarta i honum, ſvo ſem añad Vax, Pſ. 22. Þaug hafa ſege eg, þvijngad þeſſe Allra hooglatuſtu Ord wt af hañs bleſſudum Muñe. Ei er þad helldur Meiningeñ i þeſſum Ordum, ad hañ ſpyrie ſiñ Himneſka Fodur epter Orſokeñe, hvar fyrer hañ ſie yfergiefeñ, Þvi hañ viſſe þad voru Bloodugar Illgiorder vorar, hvertar hañ hafde bored uppa Tried, og ſu Handſkrifteñ ſem a moote oſs var, er alla Reidu var med honum a Kroſſeñ negld, helldur er þetta Almeñelegt Orda Tiltæke Ritningareñar, Og merkia þeſſe Ord eckert añad, Eñ ſvo ſem hañ hefde ſagt: Gud Miñ, Gud Miñ, Þu hefur yfergiefed mig. Hier hefur Chriſtur lated þig vita ſyndugur Madur, hver ad ſieu Verdlaun Syndareñar. Ef hañ, ſem ber alla Hlute med Orde ſijns Kraptar, vard ſvo af ſier komeñ under Syndaña Byrde,

 Hvad

Hvad munder þu orded hafa um̃ alla Eilijfd i Helvijte, Sem ecke megnar ad auka Eirnre Aleñ vid Leingd þijna? Ef Helvijte var hønum ſvo heitt, ſem ſialfur er Helvijtis Olifian, Hvad munde þad þier orded hafa, Sem varla nockud añad giører, eñ ad viña til Helvijtis? Ef Gud var hønum ſvo reidur, ſem hañ alleina elſkar, Hverſu magnlega munde hañs Heipt hafa bruñed yfer þier, Sem af Nattúruñe ert Barn Reideñar? Ef Sonureñ þañeñ um̃kvartar, Hverſu Obæreleg munde þa verda Hørmung Prælſins? Hier af maatt þu Chriſteñ Madur ſiaa Andſtygd og Grim̃leika þeirra Athafna, ſem Daudleger Meñ leika ſier ad, Svo ſem ad ødru Table. Eñ allra hellſt hefur vor Bleſſadur Endurlauſnare kiendt oſs med þeſſum Ordum, hverneñ vier eigum ad ſkycka oſs under hañs ſæta Oke hier i Heime, Og glefed oſs hier med Poleñmædeñar Epterdæme, um̃ hverla vier villum nu nockud Fram̃vegis Hugleida wt af þeſſu bleſſada Orde vors Endurlauſnara. Hvar til Gud Allsheriar virdeſt ad giefa oſs ſijna Naad og Anda,

ad

ad þad verda mætte hañs Hæleitta Naf-
ne til Dijrdar, Eñ oß til Eflingar i vor-
um Sæluhiælpar Efnum. Pad Bæn-
heyre goodur Gud i JEsu Nafne, Amen.

PAD Er ægiæt Amiñing, Med hverre
Paulus til Hebræos, Cap. 12. æ-
varpar alla Christna Meñ, Segiande:
Fyrer þvi eirneñ vier, Med þvi vier hofum
slijkañ Hoop Vottaña uñ kríjng oß, þa læt-
um oß afleggia Syndena þa ed jafnañ vid oß
loder, og letur, og lætum oß hlaupa med Poleñ-
mæde i þa Orustu, Sem oß er tilskickud, og lijta
til JEsum, Peß Uppbyriara og Fullkomnara
Trwareñar, hver ed, Pa hañ hefde vel mætt hafa
Fögnud, þolde hañ Kroßeñ, og aktade Forsmæ-
nena ecke: Og sette sig til Hægre Handar uppæ
Guds Stoole. Miñest æ hañ sem þvilijk Moot-
mæle i giegn sier af Syndurunum þolde, svo ad þi-
er þreytest ecke nie uppgiefest i ydar Hugskotum,
Pvi þier hafed eñ ei allt til Bloodsens mootstaded i
Strijdenu mooti Syndeñe. J þessum Ordum
leider Postuleñ oß fyrer Sioouer Christi blessad
Dæme, hveriu eckert er kroptugara og eckert al-
giordara til Epterbreitnes, og Eflingar Umburd-
arlyndesins. Guds Eingieteñ Sonur leid hina
Smæuarlegu Kvol og Kroßens Dauda fyrer
Añarlegar Synder; Pvi skyllde Syndareñ þa

 skloota

skioota sier undañ þvi, Er hañ med Oteliande Afgiordum og Bodorda-Brotum forþienad hefur? Guds Sonur þolde Helviites Piiſler voc vegna, megnum vier ecke hañs ſæta Ok og hañs liettu Byrde aa oſs ad taka? Hañ drack hiñ beyſka Kaleik Guds Grimdar Reide þurt i Botn, og þær Dreggiarnar ſem hiñ Ogudlege ætte af ad ſwpa, Eñ hañ drack þier til under eins Chriſteñ Madur, ſem villt hañs Læreſveirn heita, þiñ Skierfur er ollu miñe. Bikar þeſſe er wtſkiptur medal allra hañs Elſkulegra Aſtvina, Þvi ſvo ſeger hañ ſialfur: Hver ſem vill miñ Læreſveirn vera, hañ take ſiñ Kroſs uppaa ſig og fylge mier epter. Fyrer þvi giæt þeſs, ad ſvo margur Petrus, ſvo margur Paulus, ſvo margur Jacob, ſvo margur Vottur Guds Piiſlar, Jaa ſvo margur Aſtvinur JEſu, ſem ecke hefur elſkad ſitt Liif allt i Daudañ, ſvo marger eru þeir, ſem hiaalpa þier til ad drecka þeñañ Kaleik, Ef ecke aa aññ Veg, þa med ſiinu Epterdæme. Þvi ſeger Petur, ad vier ſkulum huggа oſs þar-vid, ad vorer Brædur i Heimenum meiga þola hid ſama. Þeir drucku allshugar fegner, Eins oa eirn Sælgiæting þyrſter epter Munade Veralldar þeſſarar; Svo laangade þa epter ad liida med Chriſto. Svo ad St. Paull ſeger: Eg em vel til Frids J Veikleikanum, J Forſmaaneñe, J Naudunum, J Oſookñunum, J Angiſteñi fyrer Chriſtum, þvi þa eg er veikur, þa er eg maattugur, 2. Cor. 12. Ei meiga Meñ ætla þeim hafe Hor-

mungeñ

munzeñ i siœlfre sier þott nein Skiemtan; Hryg-
ðer hun eñ ecke Glede, seger Postuleñ til Hebræ-
os, medañ hun œliggur. Eñ þeir lijta œ Laun-
eñ, Heb. 11. Og reiknudu ecke Mootlætingar þess-
ara Tijma, verdar þeirrar Dijrdar, sem fram v'ð
oss mun koma i eilijfu Lijfe, Rom, 8. Taked hañ
og skipted honum œ mille ydar, sagde JEsus vid
siina Læresveina, Er hañ riette þeim Kaleik hins
Nyia Testamentis i sijnu Bloode, sem fyrer þa og
alla Meñ wthellt var. Med þessum Kaleik skip-
ar Paulus, 1. Cor. 11. Ad kuñgiora Dauda
DRottens þar til hañ kiemur. Hverneñ œ hañ
þa ad kuñgiora, Brædur mijner? Ecke einasta ad
miñast þess, ad hid Saklausa Guds Lamb, sem i
burtu bar Heimsins Synder, er forer oss Foorn-
færdur, Eins og Gydingar neyttu Paaska Lamb-
sens i Miñing Lausnareñar af Egypta-Lands-
Prældoome, helldur hins añars, ad fyrst hañ hef-
ur vegna vor lided, Svo eigum vier med honum ad
lijda: Fyrst hañ er fyrer oss dœeñ, þa er skylldt,
ad vier jafnvel hañs vegna i Daudañ gaungum:
Fyrst hañ hefur skipt med oss Nyia Testamentesens
Kaleik, Pa er oss Einsætt, ad skipta med oss hañs
Kross-Bikar, Pvi lijka svo sem honum byriade
fyrst ad lijda, og iñgœnga sijdañ i sijna Dijrd, svo
eigum vier med honum Krosseñ ad bera, œdur eñ
vier sœum med honum Dijrdleger ad verda, ne-
ma vier kioosum helldur ad verda epter af þeim,
sem i giegnum margar Mootlætingar hlioota iñ ad

gaanga til Lijfsins. JEsus var yfergiefeñ af sijnum Fødur: Þad var hañs stærsta Mootlæte i allre siñe Hormung. Eckert talade hañ um̃ hañs Hwd-Stroku, Hañs Nagla, Hañs Þyrne-Coronu: Þad gieck hañs blessada Lijfe og Saalu nærst, ad hañ var af hønum yfergiefeñ, sem hafde i hønum alla sijna Velþocknan, Svo sem Vonlegt var, Þvi hañ vantar alla Hlute, sem er af Gude yfergiefeñ, Himen og Jord kuña hønum ecke ad Hugsvala. Þañ vantar eckert sem Gud ecke vantar: Þvi þegar hañ Gud hefur, hyrder hañ hverke um̃ Himen nie Jord: Eñ hvar fyrer var JEsus yfergiefeñ aa Krossenum, syndugur Madur? Uppaa þad þu skylder alldrei yfergiefeñ verda i þijnum Krosse. Þvi drack hañ af þañ Kaleik, sem hañs Fader gaf hønum, og jafnvel hinar swru Dreggiar hañs Reide, og þiña Synda aasamt þar med? Uppaa þad hañ kriddade þañ Bikar, sem þier er ætladur med Sætleik epterkomande Alldar, med Miñing sijns Dauda, med Von siñar Dijrdar, med Fride og Fognude i Heilogum Anda. Fyrer þvi hugaar St. Petur alla Christna Meñ i hiñs Fyrra Pistels, Cap. 1. med þessum Ordum: J hverium þier glader erud (hañ meinar JEsu Christo) um̃ Hrijd ef Þorf gioorest, Þoott þier med Jmislegum Freistingum hryggder verded, svo ad Raun ydar Trwar verde dij-mætare Gullenu funden (hvert ed forgeingur, eñ verdur þo i Elldenum reynt) til Lofs og Dijrdar

ar og Heidurs þa þegar JEsus Christus mun opꝛ enberast, Hvern þier ecke siaed og elsked hañ þo, hvern þier nu (sem stendur) ecke ælijted, eñ þar þier a hañ trwed, munud þier med O-wtsegiañlegum og Dijrdlegum Fognude glediast.

JEsus var yfergiefeñ þegar hañ hieck a sijnum Krosse, Eñ þad varde ecke leinge: Litlu sijdar mællte hañ þaug blessudu Ord, sem voru Ender hañs Hormunga, eñ Upphaf vorrar Sælu. Þad er Fullkomnad: Þvi seger þa Paulus, Col. 1. Nu gled eg mig i mijnum Hormungum vegna ydar, og eg uppfylle þad sem epter er af Christi Pijslum a mijnu Holdde fyrer hañs Lijkama, sem er Safnadureñ? Hvad þa? Hefur Paall nockud lided fyrer oss til Forlijkunar hia Gude? Neitar hañ þvi, 1. Cor. 1. Segiande: Er Paall Krossfestur fyrer ydur? Eda erud þier i Paals Nafne skijrder? Er þar i Paale eda nockrum odrum Hialpeñ, og ecke alleina i Christo? Þvi sie fiærre, Þvi Einsamañ hefur hañ Vijnpressuna troded. Liet Christur nockud Ogiort af voru Endurlausnar Verke, þa hañ doo a Krossenum? Eingañvegeñ, þvi hañ vitnade fyrer ollum Heime under sitt Andlat, ad þad være Fullkomnad: Hvad er þad þa, sem epter er af hañs Pijslum? Eda hveriar eru Leyfar þessar? Þad er Christi Kross Bikar, hvern hañ tildrack ollum þeim, sem a hañs Nafn trwa mundu, þa hañ hafde afdrucked Guds Reide Kaleik. Mikill er þo Mu-

nur þeirra. Christur Drack oss til Forlijkunar, Vier dreckum til þess, ad lijkiast honum: Christur vañ eckert til ad Drecka, Vier hofum forþient bæde þad hañ Drack og vier dreckum. Hañs Kaleikur var af Guds Reide birladur, Vor af hañs Elsku: Christur hefur oss med sijnum Kaleik forþienad Himna-Rijke, Vier forþienum eckert med vorum, skulum hañ þo drecka ædur eñ vier Iñgaungum i Himna-Rijke.

Christelega Kyrkiu nefner St. Paall Christum, 1. Cor. 12. Segiande: Svo er og Christur, Meinande þo hañs Andlegañ Lijkama. Paall hafde og alla Orsok til ad komast þañ Veg ad Orde, Þvi þa er hañ spurde ad Fordum a Veginum til Damascus; Hver ert þu HErra? Svarade DRotteñ honum: Eg em JEsus af Nazareth hvern þu Ofsæker. Er þa Olljkt Brædur mijner, ad Safnadarens Pijsler nefnest Christi Pijsler: Edur Mein Guds Barna, sem Eitt eru med honum, sieu hañs Mein? Sañlega er þad ecke undarlegt; Þvi hañ segir, Matth. 24. Hvad þier giordud Einum af þeim miñstu Vesælingum, þad giordud þier mier. Hvad þa? Þessar Leyfar Christi Pijsla uppfyllde Paall a sijnu Hollde, svo sem Limur a hañs Lijkama: Ecke þad, sem brast a Forlijkunena fyrer Gude, Þvi þad var eckert, helldur þañ Skierf, er Paale var ætladur: Eingu bætte hañ vid þad, sem golldeð var a Krossenum, helldur took hañ Hlut i Lausnar-Gialldenu

under

under Krossenum: Eckert van̄ han̄ Christs Lijkama, Pad er Christs Sofnude, til Um̄bootar hiaꝛ Gude, helldur allt þad han̄ leid: Hwngur, Porsta, Klædleyse, Prostur, Hrakning, Ervide, Lastmæle, Offookn, Ad han̄ var Hreinsun Veralldar og allra Afrak halldeñ, 1. Cor. 4. Pad leid han̄ ad soñu fyrer Christi Sofnud þeim til Uppfrædingar, eñ ecke til Forlijkunar fyrer Christum: Ad soñu til ad æviña han̄ eirn, eñ ecke til ad frelsa Saalernar med honum: Samverkande Christo i Predikun Evangelii, Eñ ecke i Lausnar-Gialldenu, Og var Gladur af þvi ad hañs Hlutur fiell þañveg Christi Lijkama til Nota, og hañs Sofnude til Sidboota. Af þessum Leyfum DRottens Kvala, er þier og Skierfur ætladur Guds Barn: Laat þier þañ lijka, er þier-boreñ verdur. Pu veitst ecke hvers þu ætt ad bidia, Rom. 8. Laangtum sijdur hvad þier er hendt ad lijda; Laat han̄ þvi raada, Sem er Trwr og Freistar einkis yfer Megn fram̄, og siñ Eingieteñ Son hefur um̄ Stundarsaker Yfergiefed, uppa þad han̄ þig alldrei yfergiæfe: Eñ ad honum er vijst ad gaanga, ad svo sem han̄ vard Yfergiefeñ, ædur eñ han̄ fieck alla Hlute Fullkomnada, sem heyrdu til þiñar Saaluhiaalpar, Svo byriar þier ad Yfergiefa, Pad er, afneita siaalfum þier, og taka hañs Kross uppa þig, ædur eñ þu verdur med Paulo Foornfærdur, 2. Tim. 4. Ecke til ad bæta neinu vid hañs Forþienustu, þier til Mykunar og Forlijkunar,

helldur

helldur þañ Veg sem DRotteñ sagde vid Paal, 2. Cor. 12. Naad mijn anæger þier, Þvi miñ Kraptur fullkomnast i Veikleikanum. Þvi Andsvare vard Paall svo feigeñ, Ad hañ segir strax epter: Þar fyrer mun eg miklu fegnastur hroosa mier af Veikleikanum, svo ad Mattur DRotteñs bwe i mier. Med þvi ad JEsus var Yfergiefeñ, Þa hefur hañ oß þad afrekad, Ad þegar vier erum af øllum yfergiefner, Þegar vier høfum oß sialfa yfergiefed, Þegar oß sijnest ad Gud hafe oß eirneñ yfergiefed, Þa erum vier allra sijdst yfergiefner. Kañ nockur ad flæma Gud wt wr Himnenum? Er hañ ecke hañs Hæsæte? Kañ nockur ad rijma hønum wr þeß Hiarta, sem ber Kroßeñ epter JEsu hañs Syne? Er þad ecke hañs Bwstadur? Eins Torvellt er hvert-tveggia og eins Omøgulegt, Þvi i Himnenum bij eg segir DRotteñ Zebaoth og i Sundurkromdum Hiørtum, Esa. 66. Þvi talar Paulus vel, Er hañ segier: Eg meana alla Hlute fyrer hañ, sem verkar i mier, Christur; Og i þvi Trauste segier hañ, Rom. 8. Þegar hañ hefur ædur priisad Trwfeste Guds, og miñst a Hormungar Guds Barna: Jollu þessu yfervinum vier fyrer hañ, Sem oß elskad hefur; Eg em þeß fullviß, ad hverke Daude nie Lijf, hverke Einglar nie Høfdingia Dæme nie Vellde, hverke Nærverande nie Epterkomande, hverke Hæd nie Dypt nie nockur oñur Skiepna mune gieta skiled oß vid Kiærleika Guds

sem

sem er i Christo JEsu DRottne vorum. Eg mæle ei Ofgar neinar, þo eg segi ad Krossen̄ Christi sie Trygda-Pantur Guds Eingietens Sonar, med hverium han̄ Sæmt hefur sijna Elskulega Brwdur Christelega Kyrkiu, Þvi fyrr mun Himen og Jord forgaanga, en̄ ad þad bregdest, Ad þeir sem lijda med Christo, þeir mune med honum Vegsamleger verda, Þvi þad eru Guds Ord, Rom. 8. Þar fyrer Guds Barn, Svo opt sem þu virder fyrer þier þaug Mootlæte, er þu lijdur Christi vegna, svo opt maattu Fagna og glediast af Smeck Epterkomande Alldar, Hverrar Sæla þeim heiten̄ er, sem Christi Ok draga, Ecke sijdur en̄ Brwduren̄ sw ed hefur Ynde af þeim Gripum, er hen̄ar Un̄uste hefur hen̄e til Trygda-Merkis epterlaated: Þar fyrer segir JEsus hiaa Matth. 5. Sæler erud þier nær Men̄erner hallmæla ydur og tala i giegn ydur alla Vondsku fyrer mijns Nafns Saker, þo Liwgande, Fagned þier og vered glader, Þviad ydvart Verdkaup er nooglegt aa Himnum. Ecke er Gersemen þesse fogur i Heimsins Augum. Svo sem han̄, Er hana gaf, svo er og siaalf hun, Foroktun Man̄a og Fyrerlitning Foolksens, Þo hefur hun þessa Yfirskrift: Þad sem O-gofugt er fyrer Heimenum, þad hefur Gud wtvaled: Þvi er hun Kostulegre en̄ allt Veralldaren̄ar Gull og Sylfur, Þad hefur morgum nidursockt til Helviitis. JEsu Kross hefur ollum þeim til Himnarijkis Dyra fylgt i giegnum

þad

þad þraungva Hlided, sem ecke hafa laated Þolinmædena hrinda honum af Herdum sier. A Gulle og Sylfre er Konga og Keysara Mynd og Yferskrift: A Krossenum er Yferskrift Guds og Teikn JEsu Christi. Heimureñ mun fyrerfarast med ollu þvi sem i honum er, Eñ þeim Fiaarsiood, er Krosseñ aflar, fær hverke Molur nie Rid grandad, og epter honum faa ecke Þioofar grafest: Þesse Dijr-Gripur verdur ecke tekeñ af Guds Hende, nema med Poleñmædeñe, Þvi aňars er allt þad vier lijdum, ekkert aňad helldur eñ Straff Syndareñar, og riettara ad segia, þess Ogudlega Ræningia Kross, hellldur eñ Christi. Giæted þo ad Brædur mijner, hvad margt meiga Meñ i Heimenum Illt lijda, og hafa þess eingeñ edur skamvinn Not: Hvad þolum vier ecke fyrer Gootz og Peninga? Fyrer Metord og Virdingar? Oleysfelega Fysn Holldsins, til Sadningar þeirra, Er þo aflar æ meira Hwngurs?

O! hvad þarfara være ad þola allt þetta Christs vegna, og giora svo Ræningians Kross ad Guds Krosse? Omælañlegur Skattur er Poleñmædeñ, hun giorer Skadañ ad Abata, Hrygdena ad Glede, Skorteñ ad alls Nægtum, Siwkdoom Lijkamans ad Heilbrygde Saalareñar, Hveriu ekkert er betra, ekkert Ypparlegra, og ekkert svo ad segia Guddoomlegra aa medal Mañaña Sona: Þvi þad er Almættis Kraptur hiñs Lifanda Guds, ad giora Gott af Illu, og laata alla

Hlute

Hlute samverka þeim til gooda er hañ elſka, Rom. 8. Eñ þetta fremkvæmer hañ i Veikleika vorum fyrer Poleñmædena, Þvi hun er Bijſluguñe lijk, Hver ed wtſijgur hiñ beſta Vokva wr Grosum og Aldine Jardareñar, Hvar af ſijdañ verdur hid ſæta Hunang: Hun færer ſier allt i Nyt, og tekur hid beſta af hverium Hlut. Eckert er ſvo torvelldt edur Jllt, Er heñe mæter, ad hun hafe þeſs ecke einhver Not, Medlæte og Mootlæte giorer hun ſier jafn tamt ad bera; Hun þrijfur Mañeñ wt wr Rijke Luckuñar, og færer hañ wt i Eitt orugt Vijge, hvar honum ma ecke granda: Hun er Mwrveggur Trwareñar, Hun ſtioornar Fridnum, Hun kveiker Kiærleikañ, Hun efler Litelæted, Hun bijdur epter Ydraneñe, Hun Kroſsfeſter Hollded, Elur Andañ, Stioornar Twnguñe, Styrker Hendurnar, Foottredur Freiſtingarnar, Burtdrijfur Hneixled: Hun Huggar hiñ Fatæka, Temur hiñ Rijka, og ſtyrker Bein hiñs Vollduga til ad þola gooda Daga: Svo miklu meire er hun ødrum Dygdum, ad eingeñ Dygd kañ heñar an ad vera, Sijdur meiga þær vaxa i Mañſins Hiarta, ef heñar miſſer, Eñ Graſed a Jørduñe fyrer utañ Soolareñar Varma, Þvi mikla Poleñmæde ſkal hafa til þeſs ad temia ſier Dygdena, og ei miñe til ad halda heñe faſtlega, Og eins og heñar Mooder Gudhrædſlañ er, ſvo er og ſialf hun til allra Hluta nytſamleg. J Einu Orde ad ſegia; Hun er

ſvo

ſoo Naudſynleg Chriſtnum Mañe, ad Poſtuleñ til Hebræos Cap. 10. Meinar ad ꝏn heñar kuñe einger ad nioota Guds Fyrerheita, Segiende: Poleñmædeñar kuñed þier ecke ꝏn ad vera, til þeſs ad þier giørande Guds Vilia, eigneſt Fyrerheiteñ. Jacob Poſtule hrooſar heñe ꝏ þeñañ Hꝏtt: Poleñmædeñ hefur fullkomed Verk, ad þier ſieud Algiørder og Fullkomner, Og i eingu neitt vante, Hvad ecke er uñ Of-talad, Þvi eingeñ Dygd kañ leinge ad ſtandaſt ꝏn Poleñmædeñar, fyrer Torvelldnis Saker þeirra Hluta, ſem Dygdeñ þarf ad brioota under ſig: Eñ hafe hun Poleñmædena i Fylgd med ſier, mun allt audſooktara verda, Þvi hun ridur hiñ Klwngrootta Dygdaña Veg, og giører allar Ofærur jafnſliettar, Svo ad eingeñ Vegur verdur Dygdeñe ad Ovege. Svo er hun Koſtuleg, ad eirn af vorrar Kyrkiu Lærendum Cyprianus, hefur ecke virdt fyrer ſier ad ſegia uñ Kiærleikañ, Sem er Konungur Dygdaña: Kiærleikureñ er Band Vinꝏttuñar, Grundvollur Fridarens, Samteinging Einingareñar; Hañ er ædre Voneñe og Trwñe, Þvi hañ mun eilijflega med oſs vera hiꝏ Gude i Rijke Himnaña: Eñ taked Poleñmædena frꝏ hønum, og mun hañ ei leinge Einſamall vara, taked Uñburdarlynded i burtu, og hafed þier hañs Root aſſkored. A hverium Hlutum hafa Meñ meſtar Mætur i Heimenum? A Speke og Vijsdoome: Eñ hvad ſegir Salomon þar uñ?

um? Prov. 19. Mañsens Lærdoomur þeckest af hañs Poleñmæde: Og eñ aptur seger hañ, Cap. 14 Sa sem Poleñmoodur er, stioornast af Vitsku mykellre, eñ hiñ Ofoleñmoode upphefur Heimsku sijna. Hvad er eñ þa framveges agiætt halldeð? Asl og Hreyste: Par uñ talar þo Salomon at þeñañ Hatt, Prov. 16. Hiñ Poleñmoode er betre eñ hiñ Sterke, og sa er stioornar Lund siñe, helldur eñ sa sem Borgernar yferviñer. Hvad er eñ þa þessu betra? Gudrækne og Goodgyrne: Eñ þær meiga alldrei vid Poleñmædena skilia. Eingeñ Hlutur er svo agiætur, sem Guds eilijfa Giæska og Myskunseme: Eñ hana auglijser hañ hvad mest i Poleñmædeñe yfer Syndum vorum, Og svo hefur Salomoni þoockt uñ þeñañ agiætasta Mañkost mikels verdt, ad hañ seger, Ecc. 2. Vei þeim sem Poleñmædena mist hefur. Næsta agiæt er vors Endurlausnara Amiñing hia Luc. Cap. 21. Par hañ seger: Eignest Saaler ydar i Poleñmæde, Pvi þeir Einer eignast Saaler sijnar (það er sitt Lijf) Riettelega, sem Hormungarnar Poleñmoodlega lijda fyrer Christi Saker, Pvi þeir kuña alldrei Skipbrot ad lijda a Saalu siñe, þar Gud er þeñar Lijf: Peirra er hid Dijrdlega Fyrerheit, ad þo þeir deye, þa skule þeir samt lifa, og a þeim mun það, er HErrañ seger, syllelega fañast, ad sa sem Utgiefur sitt Lijf fyrer hañs Skulld, hañ mune það aviña. Meñ meina optlega ad þeir vardveite

sitt Lijf, Ef þeir þad spara, og skiota sier undañ Oke Christi, jafnvel ad Ofrialsu. Hiñ Fattæke bleipur til ad stela, hiñ Underþryckte hræsnar, sa sem i Guds Stad er settur til ad vanda um vid adra, hañ stijngur bæde Augun wt, ad hañ siae ecke Synder og Leste, nie þurse ad hafa Omak fyrer ad straffa svoddañ Hlute, Eñ slijkt heiter þo Reyndar, ad tapa Lijfe sijnu, eñ ecke ad avinña þad, þvi eins og þad, ad eitt Haar mun ecke falla af þeirra Høfde an Fodursens Vilia, sem ad Gud Ottast og kyssa a HErrans Hrijs, berande svo Hita og Pwnga Dagsens, med Christelegu Umburdarlynde, svo mætte og um hina segia, ad eingeñ þeirra Limur nie Lidur mune fyrer eilijfum Kvølum Ohultur vera; Pvi þeim sem afneitar mier fyrer Møñunum, þeim vil eg afneita fyrer mijnum Himneska Fødur, seger JEsus: Eñ sa afneitar hønum, er ecke afneitar sialfum sier, þvi hver hañ ecke samañsafnar med hønum, hañ sundurdreiser. Take eingeñ svo Maal miitt, ad eg kalle þad ad burtkasta Christi-Oke þoott eirn sporne vid Okiorum þeim er Mañleg Nattura er underorpeñ, edur lære sem kiænast ad sigla vid Andvidre Luckuñar: Alldrei hefur Gud bañad ad leita sier Heilenda i Siwkleikanum; Alldrei ad sneida hia Ofstopa hins Dramblata, alldrei ad safna riettum Sofnum þegar vel gelngur, svo ad Meñ lijde eingañ Skort a hiñe vondu Tijd, alldrei hefur hañ helldur skipad ad meida sig edur særa, Ba-

als Pioonkan er þad, eñ Guds ecke, Pad kalla eg ecke helldur ad taka Christs Ok uppa sig, Hitt kalla eg ad sperrast i vid Oked, ad mogla under Krossenum, og ad griipa til Oleifelegra Medala þegar ad þreynger, Pad heiter ad giora Christi Kross ad Ræningians Krosse, Og þad heiter ad skioota sier undañ Oke Christi, ad vilia ei takast a Hendur þa Mædu, edur þad Verk, er Gud hefur einum umboded, jafnvel þott hañ vite sier Hæska bweñ.

Stoort Oþacklæte er þad, og Olæreleg Ohli, dne ad sia JEsum Christum undañ sier gaanga, Berande hiñ Smaanarlega Krossens Gaalga a Herdum sier, Og þar a allar Veralldareñar Synder, Eñ vilia ecke epter honum koma, Pa hañ þad skipar. Gud Naade oss Auma og Synduga Meñ: Vier vilium aller rijkia med Christo, Eñ varla nockur med honum lijda: Aller fylgia honum i Dijrdeñe, Faer i Kvoleñe; Aller vera med honum i Paradijs, Eñ eingeñ a Krossenum haanga. Eg veit ad soñu, ad hier er hægra um ad tala, eñ i ad koma, Eñ hvad skulum vier þo til giora? Vier skulum þad þo lijda; Hañ er Jehova, og giorer vid oss hvad honum gott þyker: Hvert vilium vier flya þaangad, sem hañs Orvar ecke hitte oss? Po vier tækium Vænge Morgun-Rodans og flygium wt under hid ytsta Heimsskaut, þa er hañ þar, og þott vier bwum oss Rwm i Helvijtenu, Sem David ad Orde kiemst, Pa er hañs

Hond og eirneigeñ þar. Være þa ei betra, christeñ Madur, ad þu giorer þa Byrde, sem Gud þier a Herdar leggur ad Christi Oke, med heilagre Poleñmæde, og þoleñmoodu Uñburdarlynde, þeynkiande med þier i Krofsburdenum hid sama, sem St. Paall þeinkte uñ Evangelii Predikun; Ef eg giore þad Viliugur, þa hefe eg Laun, Eñ ef eg giore þad Naudugur, Pa er mier þo þad Embætte a Hendur faled. Hvar med þu sniijr Galle Freistingaña i Hunang Elskuñar, svo hiñ Beiske Kaleikur Hormungaña verdur ad Gledelegu Christs Myñe. Sa hefur med miklu Snarræde frelsad sig fra Eymdum þessa Lijfs, sem Poleñmoodlega lijdur, Og eingañ Riett hofum vier yfer Luckuñe, og þeim Tilfellum, sem Daudleger Meñ eru underorpner, Nema Poleñmædeñar, hun er Eitur Luckuñar, og med eingum Hlut kuña Meñ betur ad bana heñe og heñar Utsendurum, Sem eru Siwkdoomar, Orbyrgd, Offsookner og añad þvilijkt, helldur eñ ad drecka heñe til af Poleñmædeñar Kaleik. Giæt þar ad Christenn Madur, ad þad er þiñ Skapare, er Mootlæted a þig leggur: Pad er Ok þijns Endurlausnara er þu ber: Pad er Guds Heilagur Ande, sem hiælpar þier til ad bera, Epter þvi sem Paall kieñer, Rom. 8. Añdeñ hiaalpar Maattleyse voru, Pvi þad vier skulum uñbidia, Vitum vier ei sem ber, eñ hiñ same Ande er Medalgangare fyrer oss, med Ouñrædelegum Andvorpunum, Eñ hañ, er Hiør

tun

tun Ransakar, veit hver ad er Meining Andans, þvi hañ er epter Gude Medalgangare fyrer Heilaga. Seig, Hverneñ kant þu illa ad fara æ svo leinge þu ert slijkum HErra Pioonustubundeñ? Hvad margur vogar Lijfe siinu fyrer Konungeñ, og tekur Lijkamleg Laun? Þar kieppast Meñ svo uṁ, ad færre faa eñ vilia? Og Kongureñ kañ þo eingañ fyrer Daudanum Ohultañ ad varðveita, Þvi munu Meñ þa ecke eins fwser þiena Konunge Dijrdareñar fyrer eilijft Verdkaup, sem er nooglegt a Himnum? Hañ er DRotteñ DRotteñ, Sem fraa Daudanum frelsar, og lætur siina Pioonustu-Meñ lifa, jafnvel þott þeir deye. Vel talade David Konungur Fordum vid Zadoch Kieñemañ: Fær þu heim aptur i Borgena Ørk DRotteñs, fiñe eg Naad i Auglite DRotteñs, þa leider hañ mig heim aptur, og lætur mig siaa hana og miñ Bwstadeñ: Ef hañ segir svo; Eg hefe ecke Þocknan a þier, siaa, þa er eg hier, giøre hañ vid mig hvad Gott er i hañs Augum. Eingeñ þecker betur vora Krapta til ad bera Krossen helldur eñ hañ, sem bæde hefur skapad oss og lijka lagt oss hañ uppa. Þad er ad viisu satt uṁ hañ, ad hañ er Trwr og freistar einkis yfer Megn fram; Þvi segir Paulus til Hebræos, ad vier hofum ecke þañ Biskup, sem ei kañ ad sampijnast vorum Eymdum, helldur freistadañ a allañ Hatt lijka svo sem vier, Þo an Syndar. Gude er ecke Okuñugt, ad þu kañt ecke svo myklum Þwnga under

er ad riisa, sem hañs Eingieteñ Sonur, hver ed bar alla hañs Reide. Eingeñ er gloggavare i þvi, ad vega wt Krossens Byrde epter Mæling Kraptaña, helldur eñ hañ sem ber alla Hlute med Orde siins Kraptar. Hañ liet hina Canversku þrætta vid sig, Hañ svarade strax Hundrads-Hofdingianum, Hañ ædvijtade Konungs-Mañeñ, Hañ Myskunade þeirre Bloodfallssiwku ædur eñ hun Eitt Ord talade. Lææt vera ad Gud drage undañ um Stundar-Saker ad hiæalpa, samt er þad viist, ad hañ hefur heyrt siña Barna Bæner: Eñ vier vitum ecke æ stundum hvers vier biduim: Eñ hañ veit hvad oss þienar, hañ deyder optlega Lijkamañ til ad lijfga Sææleña, hañ breñer hier med Mootlætingaña Ellde, ad vier skulum ecke Eilijflega breña, hañ Krossfester oss med Christo, svo vier verdum honum Handfester; Hañ dregur undañ ad hiæalpa, svo ad Hiæalpeñ þess betur i Hagkome. Sææ ed ei hwngrar, verdur ei Fædsluñe feigeñ; Hañ sem alldrei vard Or-þyrstur, veit ei hvad gott þad er ad svala sier: Svo munde oss ei helldur fiñast miked um Guds Myskunsemder, nema hañ liete oss epter sier þyrsta. Þad er Omogulegt ad Gud liwge, segir Paulus til Hebræos Cap. 6. Þvi skylldu þa ecke hañs Blessudu Ord hafa Stad, sem hañ hefur huggad oss med hiæ Esajam Cap. 56. Þad skal skie, ad ædur eñ þeir kalla, þa vil eg Bænheyra, og æ medañ þeir eru eñ þa ad tala, vil eg heyra. Krosseñ er Elsku-Merke Gu-

ds Almættugs, Þvi hvern þañ Son, sem Faderen̄ elskar, Þañ agar hañ. Hvern mun vor HErra kiærare hafft hafa, eñ sijna Elskulega Moodur, og þañ Læresvein̄, um̄ hvern skrifad stendur, ad JEsus hafe hañ Elskad? Gott er ad eiga Hlutskipte med þeim Christeñ Madur.

O! HErra JEsu Christe, Þu sem vor vegna ert Madur Hörmungaña ordeñ, Jaa, Madkur eñ ecke Madur, Forsmaan Maññana og Fyrerlitning Foolksens, Virdst þu fyrer þiñ eylijfa Guddooms Krapt, Med hveriurn þu hefur þa bitru Kvol og Krossens Dauda yferuñed, ad vera Mættugur i vorum Veikleika, svo ad vier mættum goodre Baraattu beriast, Skeided fullenda, Trwna geyma, og um̄ sijder wr Vijtum bera Coronu Riettlætesins; Hveria DRotteñ hiñ Riettlaate Doomare virdest ad giefa oss aa þeim Degi; Og ecke alleinasta oss, helldur ollum þeim, sem hañs Tilkomu elska. Þad Bænheyre goodur Gud af Naad siñe og Myskun, Fyrer JEsu Christi Nafns Skulld, Amen.

# Predikun

wt af hinu

Fiñta Orde DRotteñs JEsu Christi aa Krossenum.

# Mig Pyrster.

Ordum Daga þegar vor Blessadur Endurlausnare ferdadest umm Samariam, þa giørdest hañ mæddur af Reysuñe, og settest nidur hiaa Jacobs Bruñe, Eñ þar bar ad i sama Siñ Konu nockra wr Borgeñe, er hañ sagde vid: Gief mier ad Drecka, Hun svarade: Hvorneñ bidur þu mig uñ ad drecka eina Samariska Konu, þar þu ert Gydingur, Þvi ecke samneyta Gydingar Samariskum Moñum? Eñ JEsus svarade heñe og sagde: Ef þu visser Guds Gief, og hver sa være er vid þig segir, Gief mier ad drecka, Þa munder þu bidia hañ, ad hañ giæfe þier Lifanda Vatn, Joh. 4. St. Paall vitnar uñ DRottteñ JEsum, 1. Cor. 10. Ad hañ sie Uppspretta þessa Lifanda Vatns, Talande uñ Fedurna a þeñañ Hatt: Ad þeir hafe aller drucked af þeirre Epterkomande Hellu, hver Hella ad er Christur. Nu fyrst Vor Endurlausnare er Uppspretta hiñs Lifanda Vatns. Fyrst þad Vatn, Er hañ vill oss giefa, er svo

Kropt-

Kroptugt og Heilnæmt, ad hver sem af
þvi dreckur, hañ skal ecke þyrsta ad Ey-
lijfu: Fyrst þad skal vera i øllum þeim,
sem Erfide drygia og Þwnga eru þiarder,
Eirn Bruñur sem vellur upp til Eilijfs
Lijfs, Joh. 4. Hverneñ er hañ þa siaalf-
ur i hiñe beysku Kvøl og Angist, yferkom-
eñ af sarrum Þorsta? Þvi Hroopar hañ
a Krossenum? MIG ÞYRSTER.
Þvi er hañs Kraptur Uppþornadur i hon-
um, svo sem oñur Skurn, og hañs Twn-
ga loder vid hañs Goom? Ps. 22. Þvi
eru hañs Kverkar svo Hitnadar, og hañs
Augu Fortærd, Þar hañ biijdur epter siju-
um Gude? Ps. 69. Er Hiaalpræde-
sins Bruñur Uppþornadur? Eru Vel-
lystingaña Straumar Uppþurkader? Er
þad Heilsusamlega Vatns-Flooded, sem
vokvar þa Himnesku Paradijs, alldun-
gis horfed? Eru Lijfsins Ædar med øllu
toomar ordnar? Ecke siundest þar miked
auvanta, Miñ HErra JEsu, a Dege
þiñar Pijnu, Þar þu kvaldest i þeim Lo-
ga. Øllum er þad kuñugt, Ad þegar
eirn Verk-Madur ber Hita og Þwnga
Dagsins, og tekur sier Erfided nærre, Þa

uppþornar hañs Nautturlegur Vokve, svo hañ sæker æreñ Þorste. Hvad skulum vær þa meina um hiñ Trwa Guds Pioon, Esa. 53. Þegar hañ Erfidade i vorum Syndum, og vier giordum hønum Mædu med vorum Misgiørdum, þar hañ var dreigeñ alla Noottena, fraa einum Stad til añars: Allañ Dageñ var hañ Bareñ, Hrakeñ, Hwdstryktur, med Þyrnum kriijndur, med Reyrnum i hañs Andlit sleigeñ, wtdrifeñ af Stadnum med hina þwngu Krossens Byrde, og siidañ eins og ein Bølvan uppaa Gaalgañ heingdur, hvadañ hañs allra Helgasta Blood wtfloode Læktum samañ. Þesse illa Medhøndlan hefur nu kvaled hañs Blessada Muñ med Yfer-maata miklum Þorsta. Ad eg tale ecke um Guds Grimdar Reide-Elld, sem brañ yfer hañs Eingietnum Syne vegna añarlegra Synda, allt til nedsta Helvijtis. Sijnest þier nu ecke Raadlegt Barn Guds, ad þu athuger hvar fyrer þiñ Endurlausnare hefur allt þetta lided? Hvad tijdt hefur þig laangad i Hoornnar Vijn Veralldar þessarar? Eñ hvad sialldañ epter Uppsprettu

Lijf-

Lijffsins, svo ad þu mætter siaa Liooſed i hañs Liooſe, Pſ. 36. Hvad opt hoſum vier Raingläted Jñdrucked, svo sem þurr Jord iñdreckur Vatn? Eñ hvad faaer kuñum vier ad segia med David: Mijn Saala er svo sem þyrst Jord aa moote þier, Pſ. 63. Þar fyrer hefur JEſum Þyrſt aa Dege siñar Pijſlar, ad vier kvitt-er yrdum vid hiñ Eilijfa Kvalaña Þor-sta i Helvijte, Eñ kiæmum aptur i þeir-ra Sammeyte, uñ hverja ſkrifad stend-ur: Þa Hwngrar ecke, Þa Þyrster ecke, Þviad Lambed sem er midt a Guds Stoo-le fæder þaa, og leider þaa fram ad Bruñ-um ferſkra Vatna, Apoc. 7. Vier vor-um fyrer Adams Þorſta aller hrapader ofañ i þa Grifiuna hvar eckert Vatn var iñe, Eñ hiñ Añar Adam, sem er DRottem af Himnum, 1. Cor. 15. hefur fyrer siñ Þorſta uppfyllt oſs af Feitleika sijns Hwſs, og dryckiad oſs med Straum, um Vellyſtingaña. Hvad seger DRott eñ Gud, Levit. 26? Ef þier kaſted mijn-um Setningum aa Bak ydur aptur, og ydur velger vid mijnum Riettendum, þa vil eg ſkipa Ottanum yfer ydur ad koma

med

med Visnan og breñande Porsta, sem fortæra skulu ydar Augum og kvelia Saaler ydar. O hvad laangt erum vier fra þvi, ad vier hofum geymt hañs Riettende, edur geinged a hañs Vegum, Par vier erum aller af-fallner, og hofum vellt oss i Endeime Syndaña, fra eirnre Raanglætingu til añarar, Svo ad allt Hofuded er siwkt, allt Hiartad er veikt, fra Hvirfle og allt til Ylia, Er þar eckr nema Saar, Kaun, Veniar og Prote, Esa. 1. Par fyrer hefur Sonur Elfanda Guds vor vegna þessar Kvaler þolad, Eñ þo allra hellst fyrer vorrar Tungu og Muñs Vanbrwkan, med hverium vier hiñ Myskunsama Gud mest allra vorra Lima og Lida styggium og til Reide reitum. Uñ þetta Efne viliunn vier nu i þetta Siñ nockud framvegis tala. Og fyrer þvi, ad þessar Synder hafa vorum Blessada Endurlausnara svo mikla Mædu auked framar ødrum, Svo sem sijdar mun sagt verda: Pa villium vier med færstu Ordum yfervega, Hversu liootur og Vidurstyggelegur Glæpur ad sie Vanbrwkun Tunguñar, ad vier þess helldur

lœra

læra mættum ad venia hana fraa Skañarlegum Ord-Rædum og Fiblslegu Htale, Eñ temia hana til Packlætis og Lofgiørdar vid hiñ Lifanda Gud, sem oss hefur fyrer Forþienustu Sonarens, frelsad fraa Straffe þessara og þvilijkra Illgiørda. Til þessa hiaalpe oss Myskunsamur goodur Gud, fyrer JEsum Christum, A M E N.

Hegar hiñ Rijke Sælgiætingur, sem Lucas uñ skrifar, Cap. 16. Hañ kvaldest i þvi Dijke, sem rijkur af Elde og Breñesteine, Pa beidde hañ ecke Vægdar aa neinu, nema Porstanum, Jafnvel þo ad Saal og Lijkame pijndest i þeim Loga; Hvar af raada mætte, Ad þegar vor Blessade Endurlausnare var i samre Fordæmingu, Syndañaa vegna, Sem hañ bar Saklaus fyrer vorar Saker, Pa hafe, og þetta vered hañs mesta Kvol, sem hañs Blessada Lijkama Pijnde, Pvi uñ eingeñ oñur Holldsens Saarende heyra. Meñ ad hañ kvartad hafe uñ allañ Kvala-Tijmañ, Og er lijklegt, ad hañ hafe þa mestu Hrellingu lided fyrer hinar mestu Syndet. Eñ ad þær mestu Synder sieu med Muñenum drygdar, Synest mier hañ votte! hiaa Matth. Cap. 15. Pegar Pharisæi misvirdtu fyrer honum þad Ord, er hañ talade, Ad þad saurgade ecke Mañeñ, sem

iñ

iñ uñ Muñeñ, Helldur þad, sem wt af honum geinge. Þvi svo leggur hañ siælfur wt Ord siin fyrer Læresveinunum: Ad þad sem af Muñenum framkome, þad wtgæinge af Hiartanu, Og þad saurge Mañeñ; Eñ af Hiartanu wtkome vondar Hugsaner: Mañdræp, Hoordoomar, Frillulifnadur, Þioofnadur, Liwgvitne og Lastmæle. Eingeñ Synd er svo stoor edur Hrædeleg, sem Gudlostuneñ, Og verdur sw Skom allra mest med Twnguñe frameñ. Ad söñu kvikna allar Synder i Hiartanu, Eñ þær eru ecke svo skiædar, Nema Twngañ flytie þær wt i Allmeñing. Miklu særre verda og med Verkunum drygdar, Þvi margur blygdast vid ad giora þad hañ vogar þo ad tala. Þad eykur og miklu hier æ, Ad margt af þvi Meñ tala, reiknast varla edur ecke fyrer Synd vor æ medal: Eñ þær verda Syndernar stærstar i Guds Auglite, sem litlar edur eingar eru i voru; Hvar fyrer? Þvi vier ydrunst ecke þess, er vier kollum einga Synd vera; Vill þvi hier af audræded verda, ad hinar mestu og verstu Synder verde med Twnguñe drygdar. Þad er og viist, ad allar Skamer og Lester, Sem ad niida Mañeñ og giora hañ vidurstyggelegañ i Guds Auglite, þad verdur añadhvert forsvarad med Vanbrwkan Twnguñar, Ellegar og svo af heñe siælfre i frame haft. Eitt Illgiarnt Hiarta, er ad söñu Mooder Lastaña, Sem ædur er sagt: Eñ þad skiedur æ stundum, ad þeir verda añad-

hvert

hvert med Otta, Hegningareñar, Edur af Blygdun Naatturuñar, Edur og fyrer hollar Amiñingar, Edur og Krapt Guds Orda, drepnar i Moodur-Kvide, heñe til mikillrar Heilſubootar, Eñ ſkule þeir i Lioos koma, þa verda þeir aa Einhvern Haatt af Muñenum og Tunguñe Lid ad hafa. Hver hefur ſvo nockurn Tijma Einhvern Glæp i Verkunum framed, ad hañ hafe ecke añadhvert tilreidt ſier Veg þar til med Muñenum, Edur forſvarad þad ſama med hønum ſijdañ? Og er þad ad ſoñu Naatturlegt og Almeñelegt: Eñ hvert þad er þar fyrer ſvo Gudrækelegt edur Chriſtelegt, læt eg ollum epter ad Hugleida, ſem vita ad Gud er Hiartnaña og Nijrnaña Rañſakare, Og mun þad margt ſkrifa uppaa Reikning, ſem i Myrkrunum er huled. Svo opt ſem mier i Hug koma þaug ſtraungu Ord, Er vor Endurlauſnare ſagde vid Phariſæana, Svo laatande: Eg ſegi ydur, Ad af hveriu Onytiu Orde, ſem ad Meñerner tala, ſkulu þeir Reikningſkap ſtanda i Doomenum, Þvi af þijnum Ordum munt þu Riettlætaſt, og af þijnum Ordum munt þu Fordæmaſt, Matth. 12. Þa ſkielfur mitt Hiarta i mier aumum Syndara, ſem ecke veit Tolu aa þvi, hverſu opt eg hefe hiñ gooda Gud ſtygdañ med Laſtmælum vid Naungañ og odrum Ogudlegum Ordum, Aukhelldur med faanijtu Hiegooma Tale. Eg kañ ecke añars eñ laata mier ſama i Hug koma þegar eg þetta heyre, ſem þeir ed tilheyrdu Fordum

Daga,

Daga, Er JEsus sagde: Ad hæara være Ulfalldanum ad gaunga i giegnum Nalar-Augad, eñ rijkum Mañe i Himnarijki, Er þeir svorudu: Hver maa þa hoolpeñ verda? Matth. 19. Og nema hañ hefde sialfur lagt til þa Blessudu Riettar-Boot, ad þad sem Omøgulegt er fyrer Moñunum, þad være møgulegt fyrer Gude, Pa sie eg ecki ad nockur Syndugra Maña kyñi um̃ eitt Augnablik med roolegri Samvitsku ad vera. Pvi hver kañ ad lofa med David, ad hañ vilie vardveita sijna Vegu, þad hañ syndgi ecki med Twngu siñi, Ps. 39. Og þoott þad hafi hañs goodur Asetningur verid, Pa hygg eg þar laangt fraa vera, ad hañ hafe þad enda kuñad. Nu þoott ad vor Reikningskapur, Bædi af Ordum og Verkum, verdi med Guds Sonar Bloodi wtsliettur og yferdregiñ, þeirra sem aa hañs Nafn trwa, og ecki gaunga epter Holldenu, helldur i Andanum, Rom. 8. Samt skulu Meñ vita, ad þetta ecki Syndlaust er, fyrst þar af aa i Doomenum Reikningskap ad standa, Og ad Meñ skulu hier fyrer svo sem aa hverre añarre vitañlegri Avirdingu i Guds Augliti Forlaats bidia. Muñur og Twnga er oss af Gudi giefiñ til ad tala þarg Eyrendi, er Lijfenu og Lijkamanum vidkoma, til ad Vegsama vorn Gud og Skapara, Til ad aakalla hañs Heilaga Nafn, Til ad keña odrum hañs Vegu, Til ad tala Maali Eckiuñar og hiñs Fodurlausa, Og forsvara hiñ Underþryckta og

Nauð-

Naudstadda. Eñ Gud nærde, hvad opt ad hier ber wt af: Hvad morg Hiegoomleg Skiemtan, Kalls, Skrokseme, Stooryrde og Oþarfer Eidar gänga þar wt af vorum Muñe, og er þetta hin mesta Idia vors Muñs og Tungu, Jafnvel þeirra sem vilia vända Rard sitt, og ecke tala Flærdnie Lygar Naunganum til Skadrædis: Um̃ þessa Hlute hefur hiñ Wijse satt talad, af siñar Bookar 19. Cap. Er hañ segir: Þar er til sa er hrasar med siñe Twngu, eñ ecke af Hiarta, Þvi hver er sa ecke syndge med Twngu siñe? Hvar af vier merkia eigum, Börn mijn, ad ecke eru svoddañ Ord Rædur au Syndar, þvi þoott þær svo af all morgum halldnar sieu, jafnvel þoott þeirra Lijotleike være eingeñ añar, sem þo ecke er, þa koma þær samt i Stad þeirra Hluta, sem Gude ættu til Lofs og Dijrdar ad vera, og Naunganum til Gagnsmuna, Rænande svo hiñ, þeim Skatte, er hañ hefur sier skiled af Muñe og Tungu, eñ þeñañ, Gagne sijnu: Eñ Gud giæfe ad þad være hier med bwed, og ad hin Eitrada Spilling Syndareñar, ecke dreyfde sier vijdar wt med Ogudlegum og banvænum Muñ-Sofnude. Bæge er allt Skadræde Tunguñar upp ad reikna, Þad mætte mæda eina Jarn-Tungu, þo hun tala kyñe, og breyta margañ Muñ. Mier sijnest þo ad Jacob Postule hafe i faum Ordum miked iñebunded i Cap. 3. Þegar hañ segir: Sia ed Eitn lijteñ Elld, hversu miked Skoog kañ hañ upp

ad breña. Tungañ er eirneñ Elldur, Veröld full Ranglætis, Svo er Tungañ a medal vorra Lima, og fleckar allañ Lijkamañ, og uppkveiker alla vora Umgeingni, nær hun af Helvijti upptendrud er, Hvíad allar Natturur Dijrana, Fuglaña og Skridkvikendaña og Sioo-Skrijmslaña verda tamdar og eru tamdar af Mañlegre Natturu; Eñ Tunguna gietur eingeñ Maña tamed, hid Ospaka Jllt, Full Daudleas Eiturs. Pañ Veg talar nu þesse Guds Madur um Tunguna og heñar Brwkun: Eñ hvar forer er hun Elldenum lijk? Pvi ad svo sem Eirn lijtell Neysti, þegar hañ fellur i hid Elldsima, kvikuar hañ smaamsamañ, þar til hañ verdur ad mikle Bæle, og breñer allt i krijngum sig, hvad sem fyrer verdur, Svo slepper Tungañ einu Orde, Orded fæder af sier Grunsemena, Grunsemeñ liooftrar upp Riktenu, Rikted kveiker Almaña Room, Almaña Roomur Ohroodur og illt Mañ-Ord optlega um gooda Meñ, og þa er þess einga Sok hafa, Er þeir vid dreifder eru; Pvi er hun Verolld full Ranglætis? Hvíad i heñar Vanbrwkun er ecke eitt illt, helldur þusundfolld Vondska. Hver hæder og spottar, Nema Tungañ? Hvar af kemur Roogur og Bakmælgi, Nema af Tunguñi? Hvadañ wtflioota Gudlastaner, Nema af Tunguñi? Med hveriu liwga Meñ Lijtum og Skomum uppa Naungañ, utañ med Tunguñi? Hvar bwa Skamarlegar Ord-Ræder og fibls-

fiþlslegt Hial, Nema i Tunguñi? Af þessum gietast oñur Fooſtur epter þeirra eigeñ Mynd, og þeim ollu argare; Svo ſem er Agg, Reide, Prættaner, Fiandſkapur, Mord, Mañdræp, Striid, Barætta og oll ſu Olucka, ſem upp kañ ad hugſaſt Maña æ medal. Hvar fyrer uppkendraſt hun af Helviiti? Þviad Dioſulleñ er Mañdræpari i fræ Upphafi, og hañ ſtood ecki i Sañleikanum, og Sañleikuriñ er ecki i honum, Þegar hañ talar Lijgena, talar hañ af ſier ſiaalfum, Þvi hañ er Ligare og Lijgeñar Fader, Joh. 8. Eñ þeir ed ſier hana temia, Þeir eru af Fodurnum Fianda, og giora Gyrnder ſijns Fodur, Joh. 8. Þvi er hun full daudlegs Eiturs? Þviad ſvo ſem Eitrid, nær þad er iñdruckid, ſmijgur þad ſliootlega iñ i Ædar, Bein og Sinar, þar til þad ſalgar Mañenum, Svo er og Lijgiñ Eitt Atu-Mein Mañlegrar Velferdar og goods Nafns, og þa hun Eitt Siñ æ Lopt komiñ er, og Meñ taka til ad henda hana Muña æ milli, þa liñer hun ecki fyrr, eñ hun hefur fyrergiort goodu Mañordi þeirra, er hun leggſt æ, Þar fyrer ſeger David i Pſ. 5. Og Paulus i hañs Orda Stad, Rom. 3. Ad Hoggorma Eitur ſie under þeirra Vorum, Og i Pſ. 10. Ad þeirra Muñur ſie fullur af Bolvan og Hreckviiſi.

Oll Verolldeñ er full med ſvoddañ Dæmi. Hver kom Mephiboʒet i Ohocka hia David, nema Flaatſkapur Ziba hñs Þienara? 2. Sam. 16. Hver ſveik

 Lijſ-

Lijfed af Nabot, nema Jessabels banvæn Tunga? 1. Reg. 21. Hver syrerkom Amos Spamañi hia Jeroboam Konungi, nema Amaziæ Fortolur? Amos. 7. Hver uppæste Borgar-mwgeñ i Philippis a mooti Paulo og Syla, nema Ein skiæd Tunga? Act. 16. Hver drap Keñemeñena i Nobe, nema Doegs flaraadur Muñur? Hvar med hañ steypti eirnre hastarlegre Olucku yfer siñ Herra, svo ad Gud vard honum arkaflega reidur, og reif Israels Rijke af hañs Hende, eñ gaf þad hañs Pienara. Siaed hier hvad stoorkostlegre Ogiæfu ad Ein Mañskiæd Tunga kañ af Stad ad koma, Svo ad jafnvel Kongar og Fyrstar eru ecke Ohulter fyrer heñe: Hvar fyrer David, Sem var eirn mektugur Herra, bidur Gud a heñañ Haatt, Ps. 119. DRotteñ vardveit þu Saalu mijna fraa Raangsnwnum Vorum og falskre Tungu. Og Salomon hiñ vitraste a medal Konungaña i Austuraalfuñe, hañ helldur Lijgena svo skadsamlega, ad hañ seger; Ad eirn Hofdingi, sem giarnañ heyrer Lijgi, hafe alla Pienara Odyggva. Og kañ eingeñ stærre Olucka einum Maktar-Mañe til ad falla: Og þessi Maalsgrein Salomonis, er hveriu Ordi sañari, þvi aller vilia lifa epter þvi sem eirn Stoor-Herra er lyndur til. Nu þo hañs Pienarar ville samsiña honum og þocknast i ollum odrum hañs Gyrndum og Tilhneigingum, i Lausłæti, i Ohofi i Mat og Dryck, i Agyrni, i Ofridsem, i Ofsbellde,

belldi, i Laatgiædi og Leikáraskap; Pá er þad Heilagleiki hiaa þvi, ad fylla hañs Eyru med Lygar, Þvi hver sem þeim samsiñer, hañ verdur ad byggia alla sijna Giorninga uppaa lausañ Grundvoll, og sitt Hws aa Sande, hvert ed braadlega hrapa mun, svo snart sem Vindureñ blæs, þad er, nær hañ einhveriu Andstreymi mæter, hvar fyrer Salomon eñ aptur seger: Ad saa sem treyster uppaa Lijgena, hañ ale Vindeñ, og hañ hlaupe epter fliwgande Fuglum. Saa Lijgeñi giarnañ trwer, giorer bæde Vonda og Gooda Otrwa. Hiner Raangsnwnu hnijsa epter hvad eirn Hofdingi Ottast, og snwa honum epter þvi sem sialfer vilia þeir med lognum Fraasogum. Nockrer vilia afþvo sijn eigeñ Saurendi med Lastmælum og illu Umtale uñ adra. Sumer koma Vinum sijnum aa Framfæri med Roogie og Bakmælgi uñ þeirra Jafningia. Nockrer samsetia Skrok-Sogur og svo sem añad Æsentijr edur Leik-Spil aa moote Ovinum sijnum, og Otal svoddañ Veide-Brellur hafa vonder Meñ til ad faanga med Einfolld Hiortu: Eñ hiner, sem þa eru prwdare, þegar þeir siaa, ad Eyrun eru svo fol aa þvi haafa Hofde, og ad þeir eckert Forsvar hafa i sijnu Meinleysi, Leggia þeir af Gott ad giora, og temiast aa þad, sem þeir siaa ad gyllda muni til þeirra Tijmañlegrar Velferdar. Þetta sege eg ecke þar fyrer, ad Meñ ei verde Naudsynlega ad heyra bæde Satt og Loged fyrer Mañaña Illsku-Saker.

Hitt seai eg, ad þad byriar vel ad Rañsaka aadur þar er epter giort, svo sem Postuleñ Raadleggur, segiande: Vere hver Madur fliootur til ad heyra, eñ seirn til ad tala, og til Reide tregur, Jac. 1 Eg helld med hinum Viisa, Cap. 10. Eccl. Par þañ segir: Ad betre sie eirn Pioosur, helldur eñ sa, er lijgur jduglega, Eñ baader munu þeir Olucfuna erfa. Pvi hvad eru Fiemuner hiaa goodu Mañordi? Hvert Salomon kallar Gulle betra, Prov. 22. Marger hafa falled fyrer Sverds-Eggium, eñ þo ecke svo marger, sem dotted hafa uñ Tungu sijna, segir Syrach. Eccl. 28. Par af maa siaa, ad Lijgeñ og Bakmælgeñ er ecke einasta Skadvæn þeim, sem fyrer heñe verda, helldur slær hun siñ eigeñ Mañ um Haalseñ. Eitt Riett Trwad Guds Barn þarf ecke svo ad Ottast skiæda Tungu, Pad hefur Athvarf i goodri Samvitsku, sem og optlega hiaa Guds Bornum, sijnum Lijkum: Og beri af þvi, þa hefur þad Athvarf hiaa DRottni, sem er þess Forsvar, er Oriettteñ lijdur, og Rañsakar Hiortun og Nijrun. Og hvad meira er, ad saa sem Oriett lijdur af falskri Tungu fyrer Sakleysi, hañ hefur auglæt Fyrerheit af honum, J hvers Muñe alldrei eru Svik fundeñ, Par hañ segir, Matth. 5. Sæler erud þier nær Meñerner hallmæla ydur og tala i giegn ydur alla Vondsku, fyrer mijns Nafns Saker, Po liwgandi; Fagned þier og vered glader, Pvi ydart Verdkaup er nooglegt aa Himnum. Eñ

eg kalla ad sæ lijdi Hallmæli fyrer Christi Sku- ldt, sem Vero denn ælasar fyrer þa Hlute, sem Christur bodeð hefur. Maa eg þvi hier umm seg- ia, ad A austur falskrar Tungu og Oddrar, sie svo sem Pantur þess Fyrerheitis, er DRottenn lofad hefur þeim, er af henne meiga marganu Ojóf- nud þola Guds vegna, edur Sokum Framkvæm- dar þeirra Hl ta, er hann skipad hefur i sijnu Orde, og kiemur þad hier framm; Ad þeim sem Gud elska, samverki aller Hluter til Gooda, Rom.8 Vite þvi sæ, er annadhvert af Lausmælgi, edur Hvat- vijsi, edur og af Ofund og Fiandskap leggur i Vana sinn ad hallmæla ødrum, Jafnvel þeim sem Guds Viner eru, og hafa kann skie vel giort til hins sama, edur ad minnsta Koste honum eckert tilgiort, (hvers mørg eru Dæme) ad hann hinn same, segi eg, tilbijr sialfum sier þann Ohroodur, sem hann ødrum ætlar: Þvi fyrst steyper hann yfer sig Guds Reide, og sijdann aflar hann sier Ohocka, jafnvel hiaa þeim, sem giarnann heyrt geta, ad ødrum sie hallmællt. Gamallt Ordtæki Veralldarennar segir: Eg elska Svikenn, enn ecki Svikarann, og svo er þvi var- ed hier: Margur er sæ sem getur heyrt sitt Lof, Enn annara Last af einum Flærdar Munni: Enn ef hann er Vitur, Þa forsmaaer hann þann sama, og jafnvel hatar, Þvi hann vænter sier hins sama af honum ef til vill, strax sem hann er wt af Dyrunum geingenn: Fyrer þvi er eckert betra i slijku, enn ad hlijda Raade St. Peturs, er hann segir, 1.Pet.3

 Sæ

Sæ sem vill elska Lijfed og siaa gooda Daga, hañ temie Tungu sijna fraa Vondu, og Varer sijnar ad ei tali þær Svik. Og þoott Meñ kuñe ad eiga Sokullt vid Einhvern, Þa gietur þess, er same Postule segir eñ aptur, 1. Pet. 3. Giallded ecki Illu Illt, edur Last fyrer Lastmæli, helldur blessed i Stadeñ þess, vitandi ad þier erud þar til kallader, Svo ad þier Blessunena erfid. Eñ allra hellst laatum oss þad Hugfast vera, sem Frelsareñ segir nærre med somu Ordum, Matth. 5. Eñ eg segi ydur, Elsked Ovine ydar, Blessed þa, er ydur bølva Giored þeim gott, er ydur hata, og bidied fyrer þeim, sem modtþægia ydur og Offækia, svo ad þier verded Born Fodur ydar, sem aa Himnum er. Ekert er Omañlegra, ekert svijvirdelegra, eñ ad hefna sijn med Lijgi og Lastmælum, og þad giora ei giarnañ utañ þeir, sem ecke megna ad skeyta Skapi sijnu aa añañ Haatt. Þui er verdt ad hroosa, er Memnon Hers-Hofdinge Darii Persa Konungs sagdi Fordum vid Eirn Ord-Haak i Lide sijnu, er hañ Lastmællte Alexandro hinum Stoora, Fiandmañi Darii, Þa laust hañ þeñañ Þegn med Staungeñi, og sagde: Eg el þig til þess ad þu beriest vid Alexandrum, eñ ecke ad þu laster hañ, Svo sem giæte hañ þess til, ad hañ mundi eck hafa Mikeñ Proott til ad Beriast med Hond num, Er svo være Openmyñtur. Eirn Lijgi-Muñur er Tvijeggiudu Sverde lijkur, Þvi hañ skadar aa baadar Sijdur, bæde uppdyktar

ar hañ hid Vonda oa nidrar þvi enu Gooda. Og Þoott ad morgum, Sem vill Christiñ heita, þyke lijtid spuñid i þeñañ Glæp, Og þad svo mjøg lijtid, ad sia þykist Goodu bættur, sem verst gietur uñ siñ Naunga talad a Stundum, þa mættu Meñ þo lijta til þess, ad St. Paull, 1. Cor. 5. Leggur þessa Odygd ad Jofnu vid hina verstu Klæki, og segir: Ad ef nockor, sem Brooder (þad er Christeñ) kallast, sie þess Hattar, skule Meñ ei hafa Umgeingne med honum, og ecki samneyta. Hrædilegt er til þess ad vita, ad Christner Meñ skuli þañ sama Muñ, med hverium þeir medtaka Christi Blessada Holld og Blood, sem sviked var þeirra Synda vegna med Lygum og Flaræd, ad þeir vilia þañ sama Muñ (segi eg) lia Andskotanum til ad skieña hina Froomu og Saklausu Guds Vini med. Eingu er Lygareñ lijkari helldur eñ Flugunum, hverium Dioflarnir verda og samlijktir i Skrifteñi, Pær hafa sitt Fooſtur af añarra Kvikenda Saurendum, Og svo er hiñ Bakmalugi, ad hañ hefur svo ad segia Næring sijna, og elur Lijgena a añarra Maña Ovirdingum, hveriar hañ segir Pusundsiñum stærri, eñ þær eru, Giorandi svo þessa Mijflugu ad einum Ulfallda. Eg vil ei tala margt uñ þa, sem hafa Yndi af ad rægia samañ gooda Vini og Naunga: Eingiñ er skadsamlegri Drepsoott til i Heimenum eñ svoddañ Twnga. Hver er þvilijk Dygd, sem Kiærleikuriñ Christiña Maña a milli: Hañ er

 Grund=

Grundvollur Fridarins, Hañ samteingir Mañaña Hiortu, og giorir Eitt af morgum, Hañ læt- ur eirn bera añars Byrdi, Hañ giorir Riett-trw- ud Guds Born ad Eins Lijkama Limum under JEsu Christo, Sem er Safnadarins Hofnd. Hañ Efler Myskunsemina, Auglijsir Trwna, Styrkir Voning og er þo meſtur af þessum, segir St. Paall, 1. Cor. 13. Eñ eckert er honum svo ban- vænt Eitur, svo sem Roogur og Bakmælgi. Vil- ie nockur hafa Diofuliñ afmaaladañ, Pa virdi hañ eirn Roogs-Mañ fyrer sier, Og er þad hañs fullkomid Bijlæti, svo ei kañ eitt Egg odru lijkara ad vera: Pvi svo sem hañ stendur frañi fyrer Gu- di og aasakar Utvalda Dag og Noott, Apoc. 12. Pad er hañs stærsta Mein ad Madureñ er i Guds Vinaattu, Og þad angrar hañ ad Christner Meñ uñast sijn aa milli: Svo er og hiñ ecki til Frids ef Meñ elskast Jñbyrdis: Hañ kveikir gi- arnañ Hatur aa milli Brædra, hvar Gud hefur Andstygd aa, og hañ spillir og ruglar almeñilegri Fridsemi, svo hañ kuñi ad fiska i þvi Ohreina, Og siaaum vier hier af hvad skadsamlegur ad þesse Lostur er. Taki þo eingeñ svo Ord mijn, ad eg þad Roog kalli, þegar Einhver, sa ed Oriett lijd- ur, kvartar fyrer sijnu Yfervalldi, Edur þeim hañ eiga ad forsvara, uñ þad hañ þykist Van- halldiñ vera, Pvi Valldstiettiñ er hinum Von- du til Hegningar sett, Rom. 13. Og skylldi Oriettureñ ecki fyrer heñi kiærdur verda; Hver- neñ

neñ mætti hun þa giora sitt Embætti ? Eg vil eñ þa framar tala: Ad þoott Eirn, sem Ofkunda lijdur af Vondum Moñum, giori mikid af þessu, Pa hygg eg ad honum eigi i slijku nockud ad vorkieñast, Pvi hañ kañ skie meinar Sokum Faakænsku siñar, ad sitt Maalefne sie betra, eñ þad reynast kañ. Eg verd hier uñ ad tala, Pvi eg veit og reynt hefe, ad þad er Almeñt vor a medal, ad Meñ setia illt Nafn uppaa svoddañ Aklaganer, og kalla þad Roogs Maal, ef nockur kvartar uñ þad hañ Oriett lijdur, Svo ad skie mætti, ad þeir sem Huglitler eru, Eñ þo Heidvirdir vera vilia, ad þeir skirrist vid ad tala uñ þañ Vansa, er þeir fyrer verda, og þoli helldur Oriettiñ, Ecki fyrer Guds Sakir (hvad ed væri hiñ aagiætasti Hlutur a Christnum Mañi, þegar þad skiedur fyrer Guds Sakir) Helldur þess vegna ad þeir Ottast framar Meñena, hiaa hverium þeir ecki Riettenum naa, helldur eñ Gud, Sem hinum Vesæla mun þo aan alls Efa giora riett uñ sijdir, Poott hañ dragi þad undañ uñ Hrijd. Fiærri sie þvi ad eg uñ svoddañ Hluti hier tali, Helldur uñ þaa, er bera Roog Maña a milli, uñ þaa Hluti er þeim eckert vidkoma, Jafnvel olldungis upplogna, og spilla þañiñ Kærleikum a milli þeirra, Sem añars mundu ad ollu saattir vera, Hverium eg sagt hefi, og segi eñ nu, Ad eckert er saarbeittara Pijslarfæri Andskotans. Eg vil ei faa mier til Orda uñ þaa, sem ad vijsvitandi gioraſt Liwgvitni, sijnum Naunga

til

til Falls og Hrösunar. Hvad segir Salomon þar um? Prov. 6. Sex Hluti hatar DRott-iñ, og æ þeim Siounda hefur hañ Andstygd, sem er eirn Fals-Vottur: Er þad og oll Von, Þvi ad Gud er siaalfur Sañleikuriñ; Kañ honum þvi eckert svo gagnstædt ad vera, svo sem eirn Skrok-Vottur. Gud er siaalfur i Doomunum, Þvi er ecki þar vid ad dyliast, ad sæ sem ber Liwgvitne fram fyrer Doomarañ, sem situr i Guds Stad, Hañ liigur ad Gudi. Eirn Fals Vottur er þe-im Mun verri odrum Lygurum, Ad hañ skadar æ svo marga Vegu: Hañ hæder Gud, Hvers hæ-leita Nafn, ad hañ tekur Liigeñi til Vitnis, svo sem villdi hañ giora Gud ad siinum Stall-Broodur i Skomeñi: Hañ svijkur Doomarañ, Hverium hañ Ovitandi kemur til Rangdæmis: Hañ fell-ir hiñ Saklausa, Hvers Blood ad er yfir Svikar-ans Hofdi. Vel talar Salomon uñ þetta, Prov. 19. Eirn Fals-Vottur hædir Doomiñ, og Muñur Ogudlegra gleypir Ranglætid: Sañ-lega hædir hañ Doomiñ, Þvi hañ lætur Riettiñ, Sem er hiñ allra besti Hlutur af Gudi giefiñ, til ad vidhallda Mañaña Sambwd og Selskap i Heiminum, verda ad Riettarleysi, Og hañ fyrrir Christiñ Log og Setninga siinum Asetningi: Hañ svelgir Ranglætid, Þvi sæ bijtur Hofudid af Skomiñi, og hefur wtskwfad allri Blygdan, sem fellir Saklausañ, Þar hañ æ ad reisa hañ, er rei-sir Ranglætañ, sem hañ fella ætti. Og er þad

ecki

ecki noog, B. M. ad Meñ varist ad liwga nockru fyrer Doomi uppaa eirn Saklausañ, Helldur er saa eins argur, og ollu verri, sem þeigir um Sañ-leikañ, Nær hañ er tilkvaddur hañ ad bera, þvi hañ giorir sig sekañ i þeirri Synd, er hañ dylur, Og hyggst ad blynda Augu DRottiñs, sem eru i Doominum. Jaa, Eg segi eñ þa, Hañ er verri eñ hiñ, sem opeñberlega lijgur, Þvi oll Svik eru verri eñ Ofbelldi, Og þess argari, sem þaug eru Sviksamlegri. Gud veit, þad eg ecki veit, hvad svoddañ Meñ þeynkia.

Eg kañ ecki añad sia, eñ Diofulsins Eingill muni hafa barid Sigg i þeirra Samvitskur, og markad þar med Helvijtis Breñi-Merki, um hverja mier virdist ad Paulus tali, 1. Tim. 4. Svo Svijvirdileg, svo Ogudleg, svo Andstyggi-leg er nu Twngunar Vanbrwkun, sem nu hefi eg sagt, og ollu framar eñ eg kañ fraa ad segia: Fyr-er þessar Odaadir, Er Syndugir Meñ leika sier ad, er nu Guds Sonar Blessadur Muñur, J hverium alldrei fundiñ eru nockur Svik, af Daud-legum Þorsta kvaliñ, Og þo ætla þeir sier med þessu Athæfi, Nær þeir Gudlasta, Liwga, Sveria, Baktala, Rægia eirn Broodur vid añañ, Son-iñ vid Fodуriñ, og Þienarañ vid siñ Laanar-Drottiñ, Og hallda aa þessu allt fram i Daudañ, þar til þeir gieta ecki leingur logid: Þo ætla þeir sier, segi eg, med þessu Athæfi iñ ad gaanga til Lijf-sins. O Vei! O Vei! Nærstu miog hefur

Andskotiñ uppfylldt slijkra Mañа Hiortu, Ad þeir meina ad Himnarijki muni svo lijtils verdt, fyrer hvert Konungur Dijrdareñar hefur Lijf sitt laatid, og wtstadid hinar bitru Helvijtis Pijslir, Edur ad JEsu Forþienusta muni gagna þeim, er þafliñ breida alla Æfi sijna, Og ad hiñ straungi og Riettlaati Gud muni kasta þessari dijrmætu Perlu fyrer þaug Svijn, er hana þañiñ Foetum troda. Hver Eyru hefur ad heyra, hañ heyri þad, og laatid ydur þad til Hiarta gaanga: Leggid af Svik og Prettvijsi, Roog, Lijgi og Bak-Mælgi, Vitandi þad, ad hver sem læst þioona Gudi og temur ecki Twngu sijna, Hañ villir sitt Hiarta og hañs Gudrækni er Hiegoomi, Jac. 1. Eñ allra helst sieu hier um aminntir Forelldrar, og adrir, Sem Ungdoominum stioorna eiga, ad þeir ecki einasta hafi eingañ illañ Muñsofnud fyrer Bornunum, Edur lijdi, Nær þaug slijkt giora; Helldur venie þeirra Ungmeñis Alldur til Packlætis og Lofgiordar vid hiñ Lifanda Gud, Eñ straffi roggsamlega skammarlegar Ord-Rædur og Fijblslegt Hial, ad þess haattar Klækir nai eingri Root i Barnaña Hiarta, Pvi þad vill eirn Gamall um Hond hafa, er hañ Ungur nam, þar til hañ maa skie, kiemur i þañ Kvala-Stad, Hvar hañ ecki fær eirn Vatns Dropa til ad kiæla med Twngu sijna. Og þo hvad mest, a Ungdoominum Vara ad taka fyrer hiñi skadsomu Lijgi, hver ed myrdir Saalernar, segir hiñ

Vijsi,

Wijsi, og þad þess helldur, sem Mañligri Natturu er hættara hier vid, Þvi allt Holld er Lijgiarnt, Segir Postuliñ: Sijdañ Fadir Lijgenar, Hiñ bolvade Hoggormur, spioo Syndeñi iñ i Heimiñ, med hiñi Fyrstu Lijgi, Sijdañ hefur alldrei um̃ heillt grooed fyrer oss Adams Nidium, Þvi ætti Børnunum eingiñ Lijgi ad þolast, Jafnvel þoott hun smaa og Saklaus vera þyke, þvi ef nockur venur sig aa, ad liwga opt ad Gamne sier, þa er hætt vid, ad honum fari so fram̃ i Kunsteñi, ad honum þyke ecke mikid fyrer ad liwga Lijf og Æru af sijnum Naaunga, Og ad hañ liwgi svo leingi ad odrum, ad hañ liwgi um̃ sijder ad siaalfum sier, og trwi þad satt sie, er hañ þo vita mætti Lijgi vera. Hvad er ad vera yfergiefiñ i fraaleitt Siñe, Ef ecke er þetta? Rom. 1. O! HErra JEsu Christe, Þu sem ecke upplaukst þijnum Muñi, helldur eñ Saudur til Slaatrunar leiddur, Þa þu Mootmæliñ þolder, og þeir toludu i giegn þier alla Vonsku; Virdst þu med þessari þiñi Forþienustu ad bæta Mælgi vora, og vorn Oþarfañ Muñsofnud: Legg þu þitt Lof i vorn Muñ, Og laat þijna Dijrd og Vegsemd vera Eyterlæti vorra Vara.

O! Vor Gud, þu ert vor Gud, laat vora Saalu aarla þyrsta eptir þier, og vort Lijf gyrnast þig aa Þurrlendenu, Þar vier þreytter erum fyrer utañ Vatn, Ps. 63. Og i hiñi Sijdustu Daudans Neyd, Þa vor Tunga gietur ecki talad leingur;

Þa

Pa virdst þu ad lata þiñ Heilaga Anda tala i Hiortum vorum, Og bera vorum Anda Vitne uñ, ad vier sieum Guds Born, og Arfar Himnarijkis; Par allir Utvallder segia þier Eilijfa Dijrd og Lof uñ allar Alldir Allda. Pad Bænheyre Myskunsamur og goodur Gud, fyrer Sonarins Forþienustu, og veiti oss þar til Naad H. Anda, Amen.

# Predikun

wt af hinu

Siötta Orde DRottens JEsu Christi a Krossenum.

## Pad Er Fullkomnad.

Vent er þad sem hiñ Almattuge Gud og Fader DRottens Vors JEsu Christi hafde umboded sijnum Eingietnum Syne ad framkvæma, þegar hañ sende hañ i þeñañ Heim, Synduga Meñ Saaluhoolpna ad giöra, 1. Tim. 1. Sem var, ad keña Moñunum Veg Saaluhiaalpareñar, Og ad forlijka þa vid sialfañ

Gud

Gud med hiñe Olijrmætu Foorn, fyrer hveria hañ er Einuſiñi iñgeingiñ i þad Allra Helgaſta, ad wtvegadri eiliifre Endurlauſn, Heb. 9. Hid Fyrra wtrietti hañ, allt frꜳ þvi hañ iñgieck hid Kieñemañliga Embætti, Pegar hañ var ſkijrdur af Johañe i Anni Jordan, og ſvo ad ſegla Preſtvijgdur og ſmurdur med Hellögum Anda, Matth. 3. Par uñ talar hañ ſvo ſiꜳlfur, eptir hina laungu og allra Hiartnæmuſtu Predikun fyrer ſijnum Læreſveinum, ſvo ſem til eins Skilnadar under ſiñ Dauda, er ritud ſtendur hiꜳ Johañem, Cap. 17. Eg heft, ſegir hañ vid Födureñ, fullkomnad þad Verk, Er þu fieckſt mier ad giöra, og heft Opeñberad þitt Nafn Moñunum. Hid Sijdara beſur hañ framkvæmt i öllu þvi, er hañ ꜳ öllum ſijnum Hierviſtar-Dögum Saklaus þolde fyrer vorra Synda Sakir, Par hañ var i Fꜳtækt og Örbyrgd aliñ, Par hañ var Nelfum vafiñ, Par hañ var i Aſna-Stalliñ nidurlagdur, Par hañ var af Herode Oſſooktur, Par hañ vard Land-Flootta, Par hañ Hwngradi og Pyrſti, Par hañ Preyttiſt og Siſigdi, Par hañ

 var

var Umſkoriñ, ſaa ed þo umſkier Iſraels Hiarta og hañs Sædis Hiarta, Devt. 30. Þar hañ var Bundiñ og Hrakiñ, Sem Dioſuliñ bundid hefur med Myrk-raña Hleckium, 2. Pet. 2. Þar hañ var Hæddur og Spottadur, J hverium ad bwa allir Fiaarſioodir Vitſkuñar, Col. 2. Þar hønum var hrækt i Andlit, ſem jafnvel med Hraaka ſijnum læknade hiña Daufu, Maallauſu og Blindu, Marc. 7. Hañ var Falſklega aaklagadur, ſem er hiñ einaſti Arnadar-Madur millum Guds og Maña, 1. Tim. 2. Og hañ var ſeldur fyrer 30. Silfur-Peninga, Hvers Einaſti Blood-Dropi er Þuſundſiñum Dijrmætari eñ allar hañs Skiepnur. Med allri þeſſari Armædu, Er DRotteñ vor þoldi aa hiñi Mæduſomu Hraknings Reiſu ſiña Lijfdaga, fraa Aſna-Stallenum til Gaalgans, hefur hañ Fullkomnad þad Allra Furdulegaſta Daaſemdar-Verk, ſem nockurn Tijma hefur ſkied, Edur heyrſt aa Himne og Jørdu, Sem var ad forlijka Mañeñ vid Gud, og Myſkunſemena vid Riettlæted. Eñ allra hellſt hefur hañ þad Fullkomnad, og eirn

eirn Fullkomeñ Enda a bunded, þegar hañ Foornfærdi sialfum sier Gude til eins Sætleiks Ilms, Eph. 5. A Krossens Altari, Hvar fyrer, Pegar hañ visse þad var allt afstaded, Sem hañs Eilijfa Riettlæti, af hinum Trwa Guds Pioon, Esa. 53. wtheimti, Sem hin Eilijfa Spekt hafdi aasett, ad hañ lijda skylldi, sem hiñ Eilijfi Kiærleiki Sialfviliugur þola villdi, Pegar hañ hafdi fyrer utañ allañ añañ Hita og Pwnga Dagsins vered Hwdstrycktur, Pyrnum Coronadur, at Krossen uppheingdur, medal Spillvirkia Reiknadur, Og med Galli og Edikt Dryckiadur epter Ritningunum, og eckert epter var, Reima þad ad fela Anda siñ i Fodursins Hendur, og Deya, Pa sagdt hañ: PAD Er FULLkomnad. Pesse er hin Einasta Foorn, sem Gudi lijkade fyrer Syndernar. Pad stendur skrifad uñ Noa, Gen. 8 Ad hañ hafi byggt DRottne Eitt Altari, Pa hañ var frelsadur af Vatns-Floodenu, og offrad þar af allskonar hreinum Dijrum, Og Gud lucktadi Eirn Hvijldar Ilm, Svo sem þar verdur ad Ordum komest, Og hañ sagdi i

sijna Hiarta: Eg vil ei framar bølva Jordinñi fyrer Mañsins Saktr, og ecki fortæra ollu þvi er Lijfs Anda hefur ar Jordiñe. Hafi nu hiñ Myskunsami Gud svo blijdkast vid þessa Foorn, Er Noe giørdi honum til Hlijdnis og Packlætis i Von Eptirkomandi Giæda, Hvad miklu framar mun hañs Reidi þa hvijlast, og Stadar nema vid þetta Dijrmæta Offur sijns Eingietens Sonar, er honum giørdist Hlijdiñ allt til Dauðans, og ei framar upptendrast yfer þeim, sem ar hañs Nafn trwa? Hver kañ þessari Fooruførtngu kroptugri edur fullkomnari ad vera? Hvar ed Kleñemadurinñ er Gud og Madur, eirn Prestur eptir Skickan Melchisedec, Ps. 110. aan Fødur ar Jorduñi, aan Moodur i Himnenum, aan Uppruna, Heb. 7. Pvi hañ er gietiñ aadur eñ Morgun-Stiarnañ var, Hañs Utgaangur er fra Eilijfd, Mich. 5. Hver vill wtskijra hañs Gietnad? Esa. 53. Foorniñ er hid Saklausa Guds Lamb sem ad i burtu ber Veralldarinñar Synder, Joh. 1. J hverium ad Faderen alleina sijna Velþocknan hefur: Hañ er

eins

eins og Saudur til Slatrunar leiddur, Og hañ þagdi svo sem Lamb fyrer þeim þad klipper, og upplauk ecki sijnum Muñi, Esa. 53. Svo ad Foornar-Blooded, er Guds eigid Blood, med hveriu hañ hefur Endurleyst Christnena, Act. 20. Hvert ed hreinsar oss og þvær af ollum vorum Syndum, 1. Joh. 1. Elldurinñ med hverium Foorneñ upptendrast og fullkomnast, Er hiñ Breñandi Kiærleiki Eingietins Sonar Guds, med hverium hañ elskadt oss þegar vier vorum hañs Ovinir, Rom. 5. Hver honum ordiñ er svo sterkur, sem Daudinñ, Hvern mikil Votn kuña ecki wt ad slockva, Cant. 8. Og Vatns Floodiñ miklu sijdur ad klefia, eñ Baals Presta Vatns-Austur þañ Elld, Er af Himnunum ofañ fiell yfer Foorn Eliæ Spaamañs Fordum Daga, 1. Reg. 18. Þessi Kiærleiki er Eirn Himneskur Elskuñar Elldur, Þvi Gud, sem i Himnenum byr Hañ er Eirn Elldur, Heb. 12. Hañ er og Kiærleikuriñ, 1. Joh. 4. Hañ bioo og i Christo, Og Christur er sialfur sañur Gud og þad eilijfa Lijf, 1. Joh. 5. Þar fyrer er vort Endurlausnar Verk svo

Fullkomed. Og þvott ad Guds Eingietiñ Sonur meinti eckert aňad med þessu Ordi, Eñ þess Fullkomnan, Þa heyrer svo margt þar til, ad mier sijnest Eitt Gudhrædt Hiarta kyñi med mikillri Unadsemd ad yfervega hvad mikid þetta Ord i sier innibindur. Villum vier þvi med Færstu Ordum Hugleida i þetta Siñ; Hvad vor Endurlausnari bodar oss hier ad vera FULLkomnad, Med þeim Lærdoomum, Er þar ad lwta. Gud hialpe oss þar til med sijnum Hellaga Anda, J JESU Nafni, A M E N.

Sïaed, Vier Forum Upp Til Jerusalem, Sagdi Endurlausnariñ til sijna Læresveina, Hiar Luc. i 18. Cap. Og þar mun Fullkomnast allt þad Skrifad er af Spamoñunum um Mañsins Son, Og hañ mun Ofurseliast Heidingium, Og mun spottadur, svijvirdtur og hræktur verda, og þeir munu Hwdstrijkia hañ og af Dogum rada. Ecke meinar Vor Endurlausnari ad þad muni allt þar framkvæmast, sem um hañ er spad, Þvi margt af þvi var adur uppfyllt a hañs Hiervistar-Dogum. Ein Mey hafdi Frioossom orded, Esa. 7. Sa Hertogiñ sem stioorna skyllde hañs Foolki Jsrael, var Allareidu wtgeingiñ af Bethlehem a Gydinga

inga Landi, Mich. 5. Jacobs Stiarna vaꝛ uppruñiñ, Num. 24. Andi DRottiñs var yf-er hañ komiñ, Hañ hafdi smurt hañ til ad predika Evangelium, Fatækum hafdi hañ sendt hañ, Esa. 16. Blindir feingu Syn, Daufir heyrdu, Hiñ Hallti dansadi svo sem Hiortur, og þar uppleyst-ust Tungur margra: Hver Furduverk hañ sialfur uppa sig þijdir, Matth. 11. Pegar hañ svaradi Johañis Læresveinum, sem til hañs voru sendir. Hañ hafdi og alla Reidu svo sem Hoog-vær Konungur iñrided til Dootturiñar Zion, Sit-iandi a Eirnre Ausnu, og a Folanum heñar Sy-ni, Zach. 9. Þetta var allt samañ uppfyllt, og þurfti ei framar upp ad fyllast: Þar fyrer sten-dur hier i Textanum eitt Ord, Er merkir ad binda Enda a eirn Hlut, og jafnvel hid sijdarsta af høn-um ad fullgiøra: Þad hefur vor blessadi Endur-lausnari giørt i siñi beisku Kvol, Er hañ þoldi vor vegna eptir hina sijdurstu Reisu sijna til Jerusa-lem, þar hid Saklausa Guds Lamb, sem Foornfæ-rt er fra Upphafi Veralldar, J Skugga Fyrer-myndanaña, var sialfur slatradur a Krossens Alltari, Hvar eptir hin saña Riettlætesins Sool fagurt skein, eptir Formyrkvan Daudans, yfer alla þa, sem Hwngra og Þyrsta eptir Riettlæt-enu, og hefur med sijnum Uppruna Skuggañ i bu-rt drifid, og Myndir hins Gamla Testamentesins afmaad, sem ei kuñu Samvitskurnar ad hreinsa, Heb. 9. Og þegar hañ var uppheingdur, hefur

hañ alla Hluti til siin dreigid, Joh. 12. Tiallded i Musterenu er i sundur-rifnad, og þad Allra-Helgasta, J hvert ecki mætti iñgæanga, nema hiñ Ypparsti Kleñemadur Einusiñi æ Ari, Er Almeñelegt ordid, Svo ad Figururnar umsneruft i Sañleika, Spædoomarnir i Fullkomnan, Kyrkiu-Lögmælid i Evangelium, sem er Christi Lögmaal, og hinar mörgu Foornfæringar i eina Foorn JEsu Christi Guds Eingietens Sonar, sem er Forlijkun fyrer vorar, og ecki einasta fyrer vorar, helldur fyrer allar Verallðariñar Syndir. Um þessa Allra Helgustu Dæsemd hafa Fordum Daga spæd, David Konungur i Ps. 22. Zacharias Spæmadur i hañs Bookar 12. Cap. Eñ allra greinelegast Esajas i hañs Spædooma 53. Cap. Siæ þu; Miñ Pioon mun forsiælslega breyta, og hañ mun upphefiast og miög hætt upphafiñ verda, Svo þad margir munu hneixlast æ þier, af þvi ad hañs Yferlitur er vidurstyggelegre helldur eñ añara Mañs, og hañs Asynd helldur eñ Mañana Barna; Eñ hañ mun æ þeñañ Hætt ædreifa marga Heidingia, sem þad eirneñ Konungarner munu siinum Muñi samañ hallda i mooti honum; Þviad þeim sem eckert er þar af kuñgiort, þeir somu munu siæ þad med Fagnadi, og þeir sem þar hafa ecki neitt wt af heyrt, þeir munu merkia þad. Þetta er i JEsu Allra Helgustu Kvol og Piinu olldungis Fullkomnad, þvi i hañs Dauda erum vier skijrdir, fyrer hañs Dauda er

Heilsu-

Heilsusamleg Guds Raad auglioos ordeñ øllum Moñum; Og þa vier medtokum þad Heilaga Holld og Blood, sem a Krossenum doo vor vegna, Pa kuñgiørum vier Dauda DRottiñs; Og fyrer siñ Dauda, er hañ Daudans Daudi og Helviitis Olifian ordeñ, Os. 11. Par fyrer hefur vor HErra med fullum og øllum Rietti og Myndugleika sagt a Krossenum: PAD ER FULLKOMNAD. Pui jafnvel þoott hañ hefde ecki eñ þa siñ Anda fra sier lated, er hañ þesse Blessudu Ord taladi, Pa hafdi þo Daudiñ alla Reidu feinged svo Yfer-Hond yfer Lijfenu, ad hañ kuñi epter Natturlegum Hætti ecki framar ad lifa; Og hañ taladi þesse Ord med þeim Epterfylgiandi a medañ hañ var ad deyia; Staddur a milli Tijmans og Eylijfdareñar.

Siai hier aller Christner Meñ, hvert nockurt af øllum Guds Ordum kañ ad bregdast, og hversu satt þad er, sem Paulus til Hebræos segir, Cap. 12. Ad þad sie Omogulegt ad Gud kuñi ad liuga: Jaa, Himin og Jord munu forganga, Eñ hañs Ord forganga alldrei, Paug munu forganga, Eñ hañ vara, Himnarner munu fyrnast sem añad Fat, Og svo sem Klædi mun hañ þeim umhverfa. Og þeir muuu umbreytast, Eñ hañ er eirn og hiñ sami, og hañs Ar þrotna ecki, Heb 1. Aller Spameñ hafa til Christum spad, Og allt hvad þeir spad hafa, þad er a Christo og i honum Fullkomnad. Eñ hañ hefur

eirniñ spaad, hvad eptir hañs Daga skie mundi hier a Jorduñi. Kom þad nockud fram vid hañs elskulega Læresveina eptir hañs Himnafor, ad hañ hefdi þad ecki adur sagt? Hañ sagdi þeim fyrir, Ad þeir mundi Sijta og Grææta, eñ Heimuriñ mundi fagna, Ad þeir mundi aaklaga þaa, og wr Eirnri Borg i Adra offækia: Hwdstrykia þaa i sijnum Samkundu Hwsum og Lijfi svipta, Matth. 10. Og hver sem ad þaa Lijflieti, hañ mundi meina sig ad giora Gudi þægt Verk, Joh. 16. Þetta er alltsamañ aa þeim Fullkomnad, Og ecki einungis aa þeim, helldur aa øllum hañs heilogu Pijslarvottum, Sem Vitnisburdiñ JEsu Christi hafa med sijnu saklausa Bloodi undirskrifad. Hañ fyrersagdi Jerusalems Eydileggingu, hversu ad Her-Meñ mundu hana umkrijngia og hana nidur ad Velli briota, og ecki læta eirn Stein yfir Steini i heñi standa, Luc. 19. So ad Gydingum mundi þeirra Hws i Eydi lætid verda, Matth. 23. Allt þetta er Fullkomnad og framkomid. Vor Frelsari hefur oss og eptirlætid eirn merkilegañ Spaadoom, Matth. 25. Cap. Um hiñ Sijdasta Dag, hversu þad Mañsins Sonur muni koma i siñi Dijrd, og allir heilagir Einglar med honum, og hañ muni sitia aa Sæti siñar Dijrdar, og allar Pioodir muni samañsafnast fyrer honum, Og hversu hañ muni segia til þeirra aa hægri Hond: Komid blessadir Born mijns Fodur, og eignist þad Rijki, sem ydur er-

tilbwid fra Upphafi Verolldar. Eñ til hiña a Vinstri: Farid fra mier Bölvadir i eylijfañ Elld, sem fyrirbwiñ er Dioflinum og ollum hañs Arum. Vier sem nu vitum ad allt þetta er fram-komid a Christo, Sem fyrer er sagt um hañs fyrri Tilkomu af Moyse og Spamoñunum, Hvi skylldum vier ecki trwa þvi, er hañ sialfur segir um hina sijdari Tilkomu sijna? Hvi siaid, Hier er meiri eñ Moyses. Nu fyrst vier hofum þess-ara Maña Vitni medtekid: Hvad miklu helldur skylldum vier Guds Vitnisburd medtaka? 1. Joh. 5. Vier alosum allir Gydingum, ad þeir þecktu ecki siñ Vitiunar Tijma, og ad þeir hafi Ko-nung Dijrdareñar Krossfestañ: Eñ siaum til ad vier ei uppfyllum þeirra Mælingu, hveria vier lostum. Þeir sogdu: Hefdum vier lifad a Dog-um Fedra vorra, villdum vier ecki hafa þeirra Stallbrædur verid i Lijflati Spamañaña. Svo veit eg ad margur er eñ nu sem þeynkir: Hef-da eg lifad a Christi Dogum, og verid eirn af hañs Lærisveinum, Heyrt hañs Kieñingar, og sied hañs Krapta-Verk, munda eg ecki hafa giort mig sekañ i Bloodi hiñs Riettlata. Eñ sia til ad þig hendi ei verra eñ Gydingana: Þeir Krossfestu hañ Einusiñi; Sia til ad þu Krossfestir hañ ecki ad nyu, Nie halldir Sattmalans Blood Al-meñilegt, med hveriu þu ert Endurkeyptur, Hebr. 10. J þvi ad forsma Guds Langlundar Gied-eptir þijnu forhertu Hiarta, Og safnir þier svo

Reidi a Degi Reidiñar, og Guds Riettlætis Dooms, Rom. 2. Pu hefur einga Affsokun þoott ei hafir þu Christum sied i Holldinu, Þvi hañ er þier fyrer Augum afmaaladur i Ordinu, Gal. 3. Og ei gagnar þier meira sw Afbotun fyrer Guds Doomi, helldur eñ Brædrum hiñs Rijka, Þoott ei væri Lazarus til þeirra sendur. Seig þar fyrer ecki i Hiarta þijnu: Hver mun uppfara i Himeniñ? Þvi það er að toga Christum ofañ; Edur hver mun nidurstijga i Underdiwpiñ? Pað er að leida Christ aptur fra Daudum. Eñ hvad segir hañ? Nærri þier er Ordid, J Muñi þijnum og Hiarta þijnu: Pad er Ord Trwareñar er vier predikum, segir St. Paall, Rom. 16. Þvi svo sem þad Gydingar høfdu Moysen og Spaameñina; af hverium Christi Tilkoma var og fyrersøgd, Svo hefer þu og siaalfañ Christum, Hañs Ord og hañs Postula, af hverium hin Sijdari er bodud med øllu liioosari Ordum, helldur eñ nockurn Tijma hin Fyrri i Gamla Testamentenu: Þvi skuli Meñ segia nockud Gydingum til Uñbootar, Pa voru Figurur og Spaadoomar hiñs Gamla Testamentis svo Olioosar, að audvelldlega skie kuñi, Að þeir, sem epter Holldlegum Skilningi Rañsøkudu Ritningarnar, ætla mundu, að Messias yrdi nockurskonar Veralldlegur Herra: Eñ fyrer oss hefur Christur berlega talad, og mællt einga Ordskvidu, Par hañ segir hiaa Matth. Cap. 24. Mañsins Sonur mun koma i Skyum Him-

Himens med Makt og miklu Velldi. Og St. Paall tekur undir med honum, 1. Tess. 4. DRottiñ mun med Hroopi og Hoefud-Eingilsins Rodduog Guds Lwdri af Himnum ofañ koma. Og aptur talar hañ svo þar uñ, Rom. 2. Ad DRottiñ muni þa Dœma uñ Heimugleg Mañaña Efni, eptir sijnu Evangelio fyrer JEsum Christum. Þetta vita Meñ allt ei sijdur eñ Gydingar vissu fyrer hañs Tilkomu i Holldid. Þvi drygia Meñ þa allar Odaadir? Liwga, Stela, Ræna, Sveria falsklega, Forakta Gud og hañs H. Ord, Afrækia hañs Bodord, Eru Astlausir, Ofundsiwkir, Drambsamir, Forelldrunum Ohlijdugir, Forakta Yferbodna, Foottroda Undirgiefna, og fremia allar þær Skañir, fyrer hveriar, ad Gud hefur afbrotid þaa Natturlegu Kvistina, Rom. 11. Og yfergiefid Heidingiana i fraaleitt Siñi, Rom. 1. Svo ad eingiñ hefur sw Svijvirding aa medal þeirra æfd verid, ad ecki sie hun vidlijk framiñ nu i Christilegri Kyrkiu, Ad undañtekiñi Opiñberri Afguda-Dijrkan, Og sinijda Meñ sier þo marga Gudi auk hiñs Saña, og hooraft Daglega fram hiaa honum, eptir þvi sem hver er Skapi fariñ, Og þeir sem eckert añad hafa, giora siaalfa sig ad Gudum, og leggia meiri Virdingu aa siñ vesæla Kropp og faraada Saal, Er honum illa stioornar, helldur eñ aa hiñ Lifanda Gud, Sem hvorutveggiu kañ ad kasta i eilijfañ Elld, Ef hañ vill gaanga i Doom vid Syndarañ, svo ad fram

sijnist

sijnist Kominn Spaadoomur Petri i margra Verk-um, hvad sem Hiartad hefur ad geima, Par hann segir: Ad a Sijdustu Dogum muni uppkoma Spottarar, Peir ed segi: Hvar er Fyrerheit hanns Tilkomu? Pvi sijdann Fedurnir sofnudu, þa hefur þad svo tilgeingid i fraa Upphafi Skopunar, 2. Pet. 3. Jaa, Ef oss þykir laangt ad bijda ept-ir þeim Teiknum, sem skie eiga fyrer hinn Sijdarsta Dag, Pa meigum vier þo vel vita, ad þad muni alla Reidu taka til framm ad koma, sem HErrann Christur bendir oss til, Luc. 18. Er hann segir: Pegar Mannsins Sonur kemur, Meinid þier hann muni finna Trw a Jordu? Nu ef ad Christi Spaadoomar, Ef hanns Heilogu Kienningar, Ef Stroffun og Hootanir, Pær ed skie i hanns Nafni, Ef hanns Polinmædi og Langlundar-Ged kunna ecki ad leida Manneskiuna til Yoranarennar, Pa mættum vier af sialfu Gudleysinu i Heiminum læra ad snwast til Guds, og af Vantrwnni sem drottna tekur i Verolldinni, ad trwa a hinn Lifanda Gud, Sem Himin og Jord hefur skapad.

Nu segiunst vier þo allir vænta hinns Sijdarsta Dags: Svo segld mier þa i Guds Nafni, segid mier: J hveriu Trausti lifa Menn svo Athuga-laust? Mun hann nockud senda Bod undann sier? Nei, Einginn ønnur, enn þaug, sem Endurlausnar-innumgietur, Matth. 24. Og so Daudann, hver ed Daglega vid oss talar i Eptirdæmunum, Og mætti vera svo sem eirn þeigiandi Predikari i vor-

um Eyrum; Sem eñ þa lisum, Pvi ſvo ſem Pie-
nariñ er, ſvo er og Hwsboondiñ, ad hañ keinur
eins og Piaofur, a Nootu, 2. Pet. 3. Og þad
mun framkoma, ſem Endurlauſnariñ ſegir. Ad
ſvo ſem þad var a Dogum Noe, ſvo muni og ver-
da Tilkoma Mañſins Sonar, Pvi ſvo ſem þeir
voru fyrer Floodid, ad þeir atu og druccu, Gyp-
tuſt og ſig gypta lietu allt til þeſs Dags, er Noe
gieck iñ i Orkina, og þeir viſſu ecki af fyrr eñ Flood-
id kom og took þa: Svo mun og verda Tilko-
ma Mañſins Sonar, Matth. 24. Mun nock-
ur vita af þeſſum Degi nær hañ koma ſkal? Ein-
gañvegiñ; Pviad Einglar a Himnum vita þad
ecki: Og Mañſins Sonur, Sem hiñ ſami er
Guds Sonur, hañ viſſi þad ecki a ſijnum Hier-
viſtar Dogum eptir Mañdoominum, Marc. 13.
Kañ nockur ad hyliaſt fyrer hañs Augliti, Edur
hañs Reidi, Sem a Stoolnum ſitur? Munu
nockud Fiolliñ hrynia yfir þa? Edur Halsar-
ner hylia þa þeim til Undañſkota? Laangt er fra
þvi. Hrynia munu þaug ad ſoñu, og þeir um
Kollſteypaſt, Eñ þo med þvi Moote, ad Hofud-
Skiepnurnar munu af Hita braadna, eñ Jordiñ
og oll þaug Verk ſem a heñe eru, munu uppbrend
verda. Og þeir ſem hafa bundid Hiarta ſitt vid
Heim þeñañ, Peir munu fyrerfaraſt med ollu þvi
ſem i honum er. Er nockurt Undañfæri fra þeſſ-
um Doomi og Degi DRottens? Eckert, Pvi
hveria ſem hid ſtraanga og hrædelega Dooms. A-

fellt yfergeingur, Peim man kastad verda i þad Dijki, sem rijkur af Elldi og Breñesteini, þeirra Reikur mun uppstijga um Alldir Allda, og þeirra Ormur mun ecki deya, og þeirra Elldur mun ecki wtslockna, Apoc. 19. og Esa. 66. Eñ hver hlijdervorri Rædu? Og hverium verdur Armleggur DRottens predikadur, segir Esajas, 53. Hvad skal eg til þess ætla ad þeir muni Ottast Dag DRottens, hvern þeir hyggia langt i burtu vera, sem ecki hrædast siñ Dauda-Dag, er jafnañ fyrir Dyrunum stendur, Og þeir ecki vita nema uppreñi med hverre Soolu, sem ad skijn yfer þeirra Rænglæti og illar Athafner, Og Meñ lifa þo svo sem ættu þeir alldrei ad deya, Jafnvel þo þeir varla añad giori eñ ad forþiena Daudañ, svo sem Verdlaun Syndareñar, Rom. 6. Hver Eyru hefur ad heyra, Hañ heyre þad. Vakid og Bidied svo ad þier fallid ecki i Freistne, Matth. 26. Vakid, þvi þier vitid ecki a hverium Tijma HwsHErrañ kiemur, Marc. 13. Og þetta mun allt vissulega fullkomnast. Af Fullkomnan Spaadoomaña rijs Fullkomnan vorrar Endurlausnar og Uppbygging Christelegrar Kyrkiu. Hiaa Luc. 14. Cap. Framsetti vor Blessadi Endurlausnari Eina Eptterlijking a þeñañ Hatt: Hver er sa af ydur, Nær hañ vill byggia Eirn Turn, ad hañ ecki setie sig nidur adur, og reikne Kostnadiñ, Hvert hañ hafi þad til, hvar med hañ kuñi ad fullkomnast, Ad þegar hañ hefur Grundvolliñ

lagt

sagt, og duger ecki til ad fullkomna þad, ecki gis-ri aller Gis ad honum, Þeir ed þad siaa, Og segi: Þesse Madur took til ad byggia og gat ecki full-komnad? Ad sönu taladi DRotteñ þesse Ord til Mañsiøldans, er honum eptirfylgdi fraa Hwsi Phariseans, hvar hañ hafdi læknad hiñ Vatns-siwka, J þeirri Veru, ad hver saa sem honum villdi til Handa gaanga, mætti vita, hvad þeir ættu ad hafa til ad bera, sem villdu hañs Læresveinar vera: Sem er þad Hiartalag, ad hata Fodur og Moodur, Konu og Born, Brædur og Syst-ur, og jafnvel Saalu sijna hiaa honum, svo sem sköñu aadur segir i sama Capitula. Eñ nu maa eg þo um̃ Siñ heimfæra þad uppaa sialfañ hañ: O! hvad vel hefur vor Herra reiknad allt þad er þursti til Byggingar siñar Christelegrar Kyrkiu? Hañ vissi allt þad er yfer hañ atti ad koma; Hañ var sier medvitandi siña Guddooms Krapta, Hverier alleina kuñu þær bitru Helvijtis Pijsler wt ad standa. Hvad maa svo dijrmætt vera, sem Guds Jbwd i Mañenum? Hvad kuñi svo kroptugt ad fiñast til Forlijkunar, svo sem Guds eigid Blood? Hver kuñi þvilijkur Bitalingur fyrer Syndina ad upphugsast, Svo sem Daudi Eingietens Guds Sonar? Hver er so aagiæt og fullkomiñ Foorn, Svo sem hid Saklausa Guds Lamb, Sem ad i burtu ber Heimsens Syndir? Þessu hroosar St. Petur Postuli DRottens, þar er hañ segir: Þier erud ecki med Forgeingeleg-

 um

um Hlutum, Gull nie Silfri Endurleyster, helld-
ur med dijrmætu Bloodi þess saklausa og flecklau-
sa Lambsins Christi, 1. Pet. 1. Allt þetta hefur
Guds Sonur lagt til Byggingar siñar Christne,
svo ad hañ hefur med ollum Rietti sagt vid siñ Him-
neska Fodur: Eg hefi Vegsamad þig a Jord-
uñi: Eg hefi Fullkomnad þad Verk er þu fieckst
mier ad giora, Joh. 17. JEsus er sa Dijrmæti
Steirniñ, hverium Uppbyggiendur hafa i burtu
kastad: Eñ þa hañ wtsuaradur var, giordist hañ
ad Horni Hyrningar, hvar yfer hin mikla Bygg-
ing hañs Kyrkiu hier a Jorduñi er stadfest og
Grundvollud, um hvern i Raun og Sañleika þad
segiast mà, er hañ sagdi Fordum vid St. Petur,
ad Helvijtaña Port megna ecki i giegn honum,
Matth. 16. Pad er merkilegt, sem skrifad stend-
ur i Genesis Bookar Cap. 2. um Skopun Kon-
uñar, ad Gud hafi latid Svefnhofga falla a
Mañeñ, og hañ hafi giort Konuna af þvi Rifi, er
hañ took af hañs Sijdu: Og sijnest svo sem ad
Mañsins Endur-Skopun sie ecki þessu Olijk;
Pvi þegar JEsus sofnadi a Krossens Galga, og
hin myrkva Daudans Noott lagdi haug Bless-
udu Augun samañ, Hver ad eru Pusundsiñum
Kiærari eñ Sooliñ, Pa var hañs Sijda med
Sverde opnud, hvadañ wt rañ Blood og Vatn.
Um þetta hefur Eirn af Skalldum vorum merki-
lega kvedid, med hveriu og hiner Gomlu Læri-
Fedur Kyrkiuñar vilia ad teiknud sieu þaug Tvo
Sacra-

Sacramenta Skijrnareñar og Altaresins, Hver ad eru hin sterkustu Maattar-Trie i Guds Kyrk-iu hier a Jordune.

Pad er og viist, ad i siñi Skijrn uppbyriadi saa Himneske Verk-Meistareñ þetta Forvirki, þa saf-nadi hañ sier Læresveinum, hveria hañ uppfrœddi i Himneskri Speki, og sendi þa siidañ wt ødrum ad kieña. Og i siñi Heilögu Skijrn hefur hañ øll Votn helgad, Svo þaug verda kyñu heilsusamleg Laug til ad afþvo Syndernar, og Samvitskurnar ad hreinsa af Daudleaum Verkum. Eñ i siñi all-ra Helgustu Kvøl og Pijnu, hefar Hañ Pad Full-komnad, svo þar er eckert framar ad giora. Pvi segir Pistels-Skrifariñ til Hebr. Cap. 10. Ad hañ hafi med einne Foornfæringu eilijflega Full-komnad þa sem Heilagir gioraft skylldu. Og hañ kallar hañ i 12. Cap. Uppbyriara og Fullkomn-ara Trwariñar. Miñ HErra JEsu, hvad kuñi þar nu framar ad gioraft vid þiñ Vijngard, sem ad þu ecki giort hefur? Esa. 5. Pu hefur gyrdt i krijngum hañ med þiñi Vernd og Varatekt; Pu hefur hreinsad hañ af Steinunum, þad er Stoor-griiti vorra Synda og Hneixlana, uñ hveriar margur Rasad hefur:. Pu hefur plantad Eirn Kostulegañ Vijnvid þar iñi, Sem ert sialfur þu, Eñ Greinernar eru þeir sem a hitt Nafn trwa. Hver sem þar er a, hañ mun bera mikiñ Avoxt, Joh. 15. Pu hefur uppbyggt Eirn Turn þar iñi, sem er hid Heilaga Predikunar Embætti, J hver-

ium, Svo sem adrer Hofud-Stoolpar, ad eru þijn haleitu Sacramenta. Þu hefur giort eina Vijn-Pressu þar i, Sem er þijn bitra Kvol og Pijna: Hana hefur þu sialfur trodid, og litad þiñ Kyrtil i Vijni, Og þiñ Mottul i Vijn-Beria Bloodi, Gen. 49. Padañ eru Lækerner wtruñir uñ allañ þiñ Vijngard, ad hverium þu Endurnærir og vidurkveikir alla þa, sem eru angradir og sundurknosadir. Þu Blessada Guds Lamb, Þu hefur allt Fullkomnad med þiñi Kvol og Pijnu. Allt er Fullkomnad, Þviad Guds Logmaal er uppfyllt, hvert eingiñ añar kuñi ad fullkomna. Allt er Fullkomnad, Þviad Leyndardoomur Hoødtekiuñar er Fullkomnadur. Allt er Fullkomnad, Þvi þu hefur allar vorar Syndir borid uppa Tried, og kastad þeim þadañ i Hassins Diwp, Svo þeirra skuli ecki ad Eilijfu miñst verda. Allt er Fullkomnad, Þvi Guds stranga Riettlæti er Fullnægt. Allt er Fullkomnad, Þviad Madutiñ, sem af Natturuñi er Reidiñar Barn og Ofullkomiñ, hañ er fyrer Trwna a JEsum Christum Fullkomiñ ordiñ. Allt er Fullkomnad, Þvi Mañaña Makt er vfer þier Fullkomnud, Þeir ræntu þig þijnum Klædum, Þeir upphengdu þig a Krossiñ, Þeir Lijflietu þig Konung Dijrdariñar. Strakskapur Syndariñar er med ollu Fullkomnadur, Þegar Gudlausir Meñ svijfast ecki ad leggia Hendur a hiñ Lifanda Gud, Þar fyrer sagdi Postuliñ Fordum Daga, Act. 13. Þa þeir

hefdu

hefdu fullkomnad allt þad sem um̃ hann er skrifad; Tooku þeir hañ ofañ af Trienu og logdu hañ nidur i Grofina. Allt er Fullkomnad, Þviad Him̃narijki er upplokid og allir Hlutir eru til Reidu, Luc. 14. Allt er Fullkomnad, Þvi Vilie þess Himneska Fodur er Fullkomnadur. Miñ HErra JEsu, Þu komst af Himnum ofañ, Ecki til ad giora þiñ Vilia, helldur hañs Vilia sem þig sende, Joh. 6. Og ad Fullkomna hañs Verk, Joh. 4. Eñ hver er þa Guds Goodur og Naadugur Vilie, Nema sa, ad aller Meñ verdi Saaluhólpnir, og komist til Sañleikssins Vidurkieñingar? Þetta er i JEsu Bitrustu Kvøl og Pijnu ølldungis Fullkomnad aa øllum þeim, sem trwa aa Nafn Eingietins Sonar Guds. Hver kañ nu framvegis ad orvænta sier Guds Naadar og Myskunsemi? Þar þiñ Ypparsti Biskup og Hirdir vorra Saalna, hefur med þeim Blessudu Ordum, aa hveriar Naadiñ er wthellt, Opiñberlega yferlijst voru Frelsi aa Krossens Gaalga. Kañ nockud Syndiñ nu svo miøg ad yfergnæfa; ad Naadiñ i JEsu Christo ecki miklu framar yfirgnæfi? Skyllda eg laata mier þad til Hugar koma, ad Gud muni hefna þeirra Glæpaña aa mier aumum Syndara, Fyrir hveria hañs Eingietiñ Sonur hefur fullu golldid? O! Miñ Gud, Þegar mitt Hiarta bradnar i mier wt af Miñingu Illgiørda miña, Og þær taka til ad verda mier ofru þwngar, Þa hugsa eg til þess Samtals, er A-

 brahams

braham Fadir Trwadra atti vid Guds Son, er hañ sa hañs Dag, Laungu adur eñ hañ fædd-ist af hañs Sædi, Gen. 18. v. 15. Pad sie fiær-lægt þier (sagdi hañ) ad þu glørir þvilijkt, ad þu deydir hiñ Riettlæta med hinum Rangláta, Pad sie fiærri þier, Skylldi ecki allrar Veralldar-iñar Domari gióra hvad Riett er? Nu skrif-ar St. Pall, Rom. 8 v. 3. Vegna Vanmættar Lögmalsins, Af þvi þad veiktist fyrer Holldid, hefur Gud sendandi siñ Son i Lijkingu Synd-ugs Hollds, og fyrir Syndina, fordæmt Synd-ina i Holldinu: Eg meina i Christi Holldi, hver ed bar vorar Syndir, Esa. 53. Og wtstood i þvi Syndariñar Fordæmingu, svo þad er straffad a Syndlausu Holldi, er af Syndugu var tiluñid. Pad vottar Paulus, Er hañ segir; Ad Christur hafi leyst oss af Lögmalsins Bölvan, ordiñ Böl-van fyrir oss, og eñ aptur, 2. Cor. 5. Ad þañ sem ecki vissi af Synd, Pañ hefi Gud giort ad Synd fyrir oss, Svo vier yrdum Guds Riettlæti i hon-um. Fyrst hañ hefur nu fordæmt Syndina i Holldi Sonarins, Pa mun hañ ei heimta Giolld fyrir hana af mijnu Holldi, Og fyrst Christur er fyrir mijna Skulld svo sem hiñ Ranglati straff-adur, Pa em eg Riettlætur ordiñ og Ostraffan-legur. Gud hefur fordæmt mitt Ranglæte a honum, þvi mun hañ ei fordæma hañs Riettlæti a mier. Fiærri sie þad honum, sem alla Verolld-ina med Riettvijsi dæmir, ad hañ heimti Tvisvar

Giolld

Gioslld fyrir hiñ sama Hlut. Eg giordi Gudi hiñ stærsta Oriett, Ef eg meinti bad Syndiñ yrdi nockurn Tijma svo stoor i Jllskuñi, ad Gud sie ecki Fullkomnari i Giæskuñi, Þegar hañs Naad-ar leitad er med Ydraniñi. Eg veit ad Syndiñ reiknast eptir þvi, sem saa er stoor til, er hun er giord a mooti, sem er hiñ Allsvalldandi Gud: Eñ bad huggar mig, ad hañ hiñ sami er Forlijkun fyrir mijnar Syndir: Eg veit þær skilia a milli Guds og mijn, Eñ JEsus i siñi Kvol og Pijnu hefur mig svo fast vid Gud bundid, ad eingiñ fær mig slitid af hañs Hendi, og eg em þess Full-oruggur, ad hañ muni ecki spirna þeim Vesæling burt af siñi Nyst-unar Footskor, Er þar liggur i Trausti hañs Pij-slar, sem svo mikid hefur uñid til, ad Maduriñ kyñi ad verda Eirn Andi med Gudi, ad hañ gaf siñ An-da i Daudañ fyrir siñ Ovin. Jaa, HErra JE-su, Eg þeinki þar uñ, ad þetta var Eitt Almættis Ord, er þu hier taladir, midt i Daudanum, munt þu ecki kuña ad vera nu svo kroptugur i mijnum Breiskleika, þegar eg berst vid Daudañ, i hinum siidustu Andarslitrum; HErra, Laat þu þa þetta Blessada Ord lifa i Hiarta mijnu, Svo ad Stærd þiñar Forþienustu sie ætijd fyrir Augum mier, mi-dt i Andlaatinu, ad eg med þess meira Trausti mei-gi fela miñ Anda i þijnar Hendur. Hiaalpa þu mier þa, Skeidid ad fullkomna, Svo eg Riettlæti-sins Coronu wr Bijtum beri, Og aflogdu þvi, sem Haalfverkid er fyrir þier, Fullkomnadur verdi,

og inntekinn i eilijfa Dijrd og Fognud a Landi Lifand di Mana: Pad Bænheyri Myskunsamur og Nadarrijkur Gud, Fyrer sinn Eingietinn Son JEsum Christum, Og giefi þar til Nad Heilags Anda, A M E N.

# Predikun

wt af hinu
Siøunda Orde DRottens JEsu
Christi a Krossenum.

## FAdir i Þijnar Hendur / Fel eg minn Anda.

VEl hefur hinn H. Paulus wtmaalad Ounnrædilega Hlijdnt vors Blessada Endurlausnara vid sinn Himneska Fødur, Þar ed hann segir: Ad hann hafi giørst Fodurnum Hlijdinn allt til Daudans, Jaa, allt til Krossens Dauda, Phil. 2. Þvi þoott hun a øllum hans Hiervistar-Døgum anglioos være i øllum hans Ordum og Giørdum, Pa er þo eckert hennar lioosara

Merki, helldur eñ þaug Blessudu Ord er hañ taladi aa siñi Dauda Stundu, med hverium hañ fool siñ Anda i Fodursins Hendur. Hver kañ stærri Audmykt ad vera eñ þessi? Gud var sijnum Eingietnum Syni Reidur fyrer uppaalagdar Syndir, Hañ wthellti siñi Brædi yfir siñ Trwa Plonn, sem hañ hafdi wtvalid, J hverium hañs Saala Velþocknan hefur, Esa. 42. Sverdid var alla Reidu dottid aa hiñ gooda Hyrdir, og þañ Mañ er hañ elskadi, Hañ var Saklaus Lijflaattiñ, Hañ Bitaladi hvad hañ ecki rænti. Hañ þoldi alla Logmaalsins Bolvan, Sem Logmaalinu alleina Fullnægiu giordi, og þott hañ bært hier nu alla Heimsins Sekt fyrer utañ allañ siñ Tilverknad, Pa Bifaladi hañ þo siñ Anda i Fodursins Hendur; Hañ hafdi aadur bedid ad hiñ Beiski Kaleikur Pijnuñar mætti fraa sier takast, og vard ecki Bænheyrdur. Hañ kvartadi Aumkunarlega uñ, haangandi aa Krossens Gaalga, ad hañ væri af Gudi Forlaatiñ, Eñ ei ad sijdur Audmykir hañ sig undir Volldugа Guds Hond i sijnu Andlaati. Uñ þetta Hroop

 DRott-

DRottiñs JEsu Christi a Krossenum talar svo Pistils-Skrifariñ til Hebr. 5. Ad hañ hafi a sijnum Hollds-Døgum Offrad Bænum og Audmiwkum Fyrerbeidslum til hañs sem kuñi ad frelsa hañ fra Daudanum med miklu Hroopi og Taarafollum, og sie ad Bænunum heyrdum, Frelsadur eptir Velþocknan. Þad er Merkilegt a vorum HErra, Ad hañ Lietst med miklu Kalli, eptir þvi sem Gudspiallameñirner skrifa. Syndugir Meñ þa þeir eru ad-komnir Dauda, þa dregur svo af Burdum þeirra ad Twngañ talar ei leingur, Eñ þvi var ei þañiñ varid fyrer DRottni JEsu; Hañ Lietst med miklu Hroopi, Hvar i hañ audsijndi siñ Almættis Krapt, Og ad hañ ecki alleina Madur væri, helldur og sañur Gud, hver ad Fodurnum og H. Anda er Samjafn, og samrar Veru med bædum þeim, Po samt audmijktr hañ sig fyrer sijnum Himneska Fødur eptir Mañdoominum, og hañ bifalar hønum sijna Saalu, Sem øllum Syndugum Saalum er af Gudi giefiñ til Riettlætis, Helgunar og Endurlausnar, 1. Cor. 1. O! Miñ HErra JEsu,

JEsu, Hvad satt er þad sem þu talad hefur hiaa Joh. 10. Cap. Einginn tekur mijna Saalu fraa mier, helldur legg eg hana sialfur af; Jeg hefi Valld til ad leggia hana af og hana aptur ad taka. Hier hefur JEsus bevijsad sinn Guddoomlega Kærleika, Er hann hefur til Syndugra Manna, Þvi einginn hefur stærri Elsku helldur enn svo, ad hann gefi sitt Lijf wt fyrer aðrann, Joh. 15. Enn JEsus hefur wtgefid sitt Lijf fyrir sijna Saudi, Joh. 10. Jaa, fyrer Ovini sijna. St. Paall segir, ad varla finnist faa, sem deyi fyrer Riettlaatann, Rom. 5. Og reynum vier þad satt ad vera, Ecki Einungis i Dæmunum, helldur finnum vier þad i vorum Samvitskum, Enn JEsus doo fyrer Ranglaata, Fyrer Reideñar Born, Fyrer sijna Ovini, Fyrir þaa sem hann Hwdstryktu, Hæddu og Krossfestu. Þetta kennir oss Syndugum Mønnum, hversu Dijrmætur ad sie Daudi vors HErra: Hanns Lijf var hid allra Dijrmætasta, Þvi þad var Guds Lijf og Mannsins i einni Persoonu: Lijf hinns Allra Megtugasta Konungs; Lijf hinns Allra Vijsasta Lærefodur; Lijf hinns

Allra

Allra Saklausasta og Riettlaatasta Mañs; Lijf hiñs Besta og Almaattuga Læknirs, Og þad var i Daudañ wtgefid fyrer hañs Ovini, Sem aadur er sagt: Fyrer Ohacklaata, Fyrer Illvirkiana, og hañ lagdi þad fraa sier, til þess ad hañ þessa Ovini, Ohacklaata og Illrædis-Meñ, leysti wr Eilijfu Helvijtis Baali, sem þeir forskulldad høfdu, Og ecki einasta til ad Endurkaupa þaa fraa Helvijtis Pijslum, helldur til ad giøra þaa sier ad Brædrum, Ad Samorfum og Erfingium Eilijfrar Himnarijkis Gledi. Mun nockurt þvilijkt Stein-Hiarta til vera, Sem ei skylldi elska DRottiñ JEsum frañ yfir alla Hluti, Þar hañ hefur oss svo heitt elskad? Hañ Lietst med haarri Raustu, Hvar af audsied er, ad hañ hafdi Krapt og Almætti til ad behallda Saalu siñi leingur, hefdi honum þad þocknast, Jafnvel þo hañ eptir Naatturlegum Hætti ei kyñi leingur ad lifa. Hañ misti ei Raustina midt i Andlaatinu, helldur Hroopadi aa Daudañ, Sem ei þordi ad gaanga til moots vid Lijfid, Þvi Daudiñ vissi ad þeirra Vidskipti mundu sier ad Bana verda, Og hañs

Brodd-

Broddur mundi ſijdañ midur bijta, Ef hañ hønum beittti giegn þeim Horn-Steinenum i Zion, uppa hvern ad bygd er Lijf og Hellſugiof Chriſtiña Maña. Mun nöckud Leonid oſkra i Skooginum, Nema þad Braud hafi? Segir Amos 3. Cap. Og mà þad maklega uñ vorn Endurlauſnara ſegia: Hañ Hroopar hier ſvo ſem eirn Sigurvegari, Pad Leonid af Kyni Juda Oſkrar yfir Daudanum, Dioflinum og Helvijti, undir eins og hañ þreif Herfangid wt af Herleidinguñi, og giørdiſt Daudans Daudi og Helvijtis Olifian. DRottenn mun wtgànga ſvo ſem ein Hetia, Segir Eſajas: Svo ſem eirn Strijds-Kappi mun hañ Uppvekia Vandlætid, Hañ mun Hroopa og Kalla og Oflugur verda yfir ſijnum Ovinum, Eſa. 42. Hafi þar nockurn Tijma Reynd à giørſt, Pa er þad i JEſu Chriſti Dauda-Strijdi ſkied, Pvi þar hefur Gud fyrſt tiltekid ad leggia alla hañs Ovini til Skarar Fóota hønum, 1. Cor. 15. Eñ reiſt hønum til fulls eirn Tignar-Stool, Sem vara mun frà Eylijfd til Eylijfdar, Hebr. 1. Af vors Endurlauſnara Allra

Helg-

Helgustu Lijfernis Haattum er Christnum Mañi audsært, ad hañ er Guds Sonur, Og ad honum er eptir Mañdoomenum allt Valld giefid bædi á Himni og Jordu, Eñ eckl er þad sijdst auglioost ordid i hañs Dauda, Þar hañ ecki einasta hroopadi svo sem eirn Sigurvegari, helldur byrgdi hañ þad fagra Heimsins Lioos, Klauf Biorgiñ i sundur, Hristi Jordina, Sundur-reif Fortialld Musterisins: Eñ svo ad hañ audsijndi hvar til hañ Daaiñ værl, þa sneri hañ Ogudlegum Heidingium og sijnum Offooknurum til Yd'ranar og Apturhvarfs med þessu Kalli og Teiknum. Framar er þad Athugaverdt, V. G. Elskuleg, Ad ei þurfti Christur siñar Saaluhiaalpar vegna ad fela siñ Anda i Fødursins Hendur, Þvi hañ var Hreirn og Heilagur, og fraaskiliñ Syndurunum, Svo sem Pistils-Skrifariñ til Hebræos segir, Cap. 7. Hañ þurfti ei fyrer siñi Saalu Umhyggiu ad bera, Sem er allra Maña Saaluhiaalpari. Hañ þurfti ei Diøfuliñ ad Ottast, sem sialfur var Diøfulsins Otti og Sigrari, helldur vtlldi hañ auglijsa hier fyrer

er ollum Heimi, ad hañ væri Guds Eingietiñ Sonur, og þo sañur Madur. Pad hañ kallar Gud siñ Fodur, auglysir hañs Faderni. Pad hañ doo, þad vottar hañs Mañdoom. Hañ var Fordæmdur af þvi Andliga Raadi i Jerusalem, og aaklagadur fyrir Pilato, Pad hañ hefdi giørt sig sialfañ ad Guds Syni, Eñ hier sijnir hañ ad Gud sie hañs Fadir. Med Daudanum audsyndi hañ, ad hañ Mañsins Sonur væri, Eñ med þvi ad hañ Lietst med miklu Hroopi, Auglijsti hañ sig Guds Son ad vera, Svo ad jafnvel Eirn Heidingi jaatadi þad, og medkiendi þad Satt ad vera, fyrir þa somu Orsok. Eñ allra hellst hefur vor blessade Endurlausnari kieñt oss med þessum Ordum, Hverniñ vier eigum ad bwa oss til vors Dauda, Og þvi hefur hañ haatt kallad og Opiñberlega Hroopad, ad allir Naalægir skylldu þad heyra meiga þeim til Eptirdæmis, sem vid hiñ grimma Ovin Daudañ þreyta eiga. Vier vilium og aan leingri Iñgaangs wt af þessu Blessada Ordi Vors HErra, Taka oss Orsok til ad Ihuga, Hvad oss eigi ad uppvekia til ad

læra,

læra, ad deya Christelega, og hugsa Daglega um̃ vorn Dauda. Hvar til oss hiaalpi hth̃ Lifandi Gud med Naad siins Heilaga Anda, Fyrir JEsu Christi Forþienustu Skulld, AMEN.

NIER Lesum i Piiningar Historiu Vors HERRA, ad þegar hañ JESUS med þessu Kalli, Pa hafi Hofuds-Madurin̄ sem þar stood Jafngiegnt honum, Og þad Foolkid sem hiaa honum var, Ordid miog Ottasleiglñ; Varid sier aa Briooft, Priisad Gud og sagt: Sañlega hefur þesse Madur Riettlaatur verid og Guds Sonur. Hvar af audsied er, hversu kroptug ad hafi verid þessi Ord Vors HErra til ad um̃hversa þeim sem kom̃u aadur fromdu alla Ohæfu i giegn honum. Eñ ef þau maattu svo mikid i þessara Maña Hiortum, skylldum vier ecki laata oss þau til Hiarta gaanga, sem ecki siidur hofum Konung Diirdariñar Krossfestañ med vorum Syndum, helldur eñ þesser, Svo ad vorar Saalir uppvekiast mættu til ad hugsa um̃ vora Burtfor af Heimi þessum. Kieñ þu oss ad telia vora Daga, ad vier Forsiaalir verdum, Segir Guds Madur Moyses i siñi Bæn sem skrifud stendur i Ps. 90. Hvad kollum vier meiri Framsyni eñ ad siaa fyrir ysirhaangandi Ogiæfu, Og haga svo Efnum vorum, ad Meñ faai vidgiort, ad hun sem miñst skadi þegar hun ad

Hond-

Hondum kiemur. Nu er eckert svo hrædilegt so sem Daudiñ, Hvern hiñ Wijsi Aristoteles kallar hiñ skielfelegasta Mootgang: Og Satan sem þetta Skrijmsle hefur i Fyrstu af sier gietid, og mai þar fyrir best þeckia hañs Nætturu, hañ talar þar svo uñ af Jobs Bookar 1. Cap. Hwd fyrir Hwd, og allt hvad Madurin aa, maa hañ giefa vid Saalu siñi. Nu þurfum vier ecki ad dyliast vid, hvert hañ muni oss ad Hondum bera edur ei, Þvi þad mai hver uñ sig segia, sem Job sagdi i siñar Bookar 30. Cap. Jeg veit ad þu munir afhenda mig Daudanum, hvar ad Hijbijli eru tileinkud allre lifandi Skiepnu. Jaa, hver er saa Madur, sem lifir og ecki mun Daudañ siaa? Segir David, Ps. 88. Seig mier nu Christiñ Madur, Þu sem veist ad þu Endilega ætt ad deya, Eñ veist ecki aa hverium hellst Tijma þad skie muni. Er nockur Framsyni meiri eñ sw, ad bwast hier vid i Tijma? Eg meina eingiñ, Þvi þoott ad Saaliñ reyni Megn sitt og Atgiorfi i þvi, ad safna Goze og Peningum? J þvi, ad komast til Heidurs og Metorda; J þvi, ad hafa allt hvad eins Hiarta lystir, Þa skal þo allt þetta skilia vid oss i Daudanum. Þessir Hlutir verda oss samfara, Sumum leingur, Eñ sumum skiemur, Eñ þo eingum leingur eñ til Grafariñar; Sijdañ skulum vier þad ødrum eptirlaata; Eñ hañ sem deyr skal þess Gialld edur Not hafa, sem hañ hefur lifad til, og bwist vid Daudanum aa siñi

 Veg-

Vegferdar Reisu, fra Vögguñi til Grafareñar, Sijdañ um allar Aller Allda: Eñ med hveriu Mooti kuña Meñ betur vid Daudanum ad bwast, eñ ad befala Gudi sijna Sääla (sem hana giefid hefur) ad Dæmi Vors Lausnára, og þad ecki Einusiñi, helldur ydugléga? JEsus vissi nær hañ deya skylldi, Svo sem allt þad er yfir hañ ætti ad koma, Eñ þad veitst þu ecki Syndugur Madur, Helldur er þad svo sem Lærifaderiñ segir: Gud hefur lætid Daudans Dag Ovissañ verá, so ad vier æ ollum Lijfsdogum vorum skylldum bwast vid Daudanum. Po eckert añad væri, sem oss kyñi ad hvetia til ad bwa oss undir vorn Dauda, helldur eñ Daudans Oviss Tijmi, Pa væri þad ærid noog. Pad er Diktur Heidiña Skallda, ad Tantalus Konungur hafi þa Pijsl eptir Daudañ, ad yfir Hofdi honum hangi Biarg nockurt æ Einum Hor-Prædi, hvert hañ veit ecki nær ed dettur, Og er svo alldrei an Kvijda fyrir þvi, ad þad muni, þegar miñst varir, falla i Hofud honum. Ecki þarf ad sækia þeñañ Otta i Undirdiwpiñ, hvar ed Heidnir Meñ ætludu ad Framlidnum Sælum mundi Vist ætlud. Daudiñ er Eirn Klettur, sem ad i þessum Heimi jafnañ hangir yfir Hofdi voru, æ hinum veika Hor-Prædi Lijfsins, um hvert ad St. Jacob so talar Cap. 4 Ad þad sie nockurskonar Gufa, hver ed sieft um Stundar-Sakir og hverfur sijdañ. Pegar þessi veiki Prædur nu slitnar, Pa fellur

Daudiñ

Daudiñ yfir ofs i þvi sama Bili, Þar erum vier allir, Er skomu adur lifdum, Eins og alldrei ættum vier ad deya. Og þott ad Gud giefi allmørgum Toomstund til ad beriast vid Daudañ, Og hofum vier þess þo noog Dæmi, ad hañ hefur ecki margar Sv'ptingar vid suma Meñ. Eñ þvi skylldi eg ecki vænta mier hins sama, Er eg svo optlega sie ad þa hendir, sem ecki hafa syndgad meira eñ eg, og eg er med somu Kiorum og sama Skilmaala i Heimiñ boriñ, Eins og þeir. Og fyrst ad þessu er svo varid, þa sie eg ecki hvernveg Daudlegur Madur kuñi nockurn Tijma ad vera Ohultur uñ sijna Velferd, Nema hañ temie sier ad befala jduglega Saal sijna i Skaparans Hendur, og bwa sig undir þad Dagliga, sem hañ maa vænta sier aa hverium Degi; Jaa hverium Tijma, og hveriu Augna-Bliki, sem er saa Ovijsa-Vargur Daudiñ, Þviad med svoddañ Mooti verdur Daudiñ sigradur, Þa hañ kiemur, Ef Meñ eru jafnañ buner vid honum, adur eñ hañ kiemur. Meñ skulu ei hnijsa eptir þvi, med hveriu Mooti hañ muni ad koma, Þvi þad er ofs ecki uñt ad vita, helldur vera vissir uñ, hvert vier múnum fara, hvad af ofs verda muni, Ef hañ ad Skyndingu kiemur. Vel talar Endurlausnariñ hier uñ hiaa Matth. Cap. 24. Þar ed hañ segir: Vaked, Þvi þier vitid ecki aa hverium Tijma ydar HErra muni koma, Og vitid þad; Ef ad Hwsbondiñ vissi aa hverri Stundu ad Þioofuriñ kiæmi, muni

de hafi vaka og ecki laata sitt Hws i giegnum gra-
fa. HErra Gud, Hver er Dijrgripur kostulig-
ri eñ Saaliñ? Sw ed Gud sialfur hefur blaasid
i Mañsins Nasir, Hun sem ad er Guds Myndi
Mañenum, Hun sem med JEsu Guds Sonar
Dijrmætu Bloodi, er fraa Helviiti Endurkeypt;
Hun sem ordiñ er Guddoomsins Naatturu hlutta-
kandi, þar Christi Saal er samteingd i Eirni Per-
soonu vid Guddoomiñ, og þeir sem ad Christum el-
ska, erú ordnir Eirn Andi med honum. Hvert
er þvilijkt Liggiandi Fe, sem þessi Gierseml? Skyll-
dum vier ecki hafa vakandi Auga a þvi Hwsi, hvar
hun er iñi geymd, Svo ad Dagur DRottiñs
Hver ed koma mun svo sem Pioofur uñi Nootti,
hitti oss ecki varbwna, Og ad Diofulliñ, sem ad
er Pioofur og Mordingi Saalnaña, grafist ecki
eptir þessum Kostulega Dijr-Grip, þegar oss
miñst varir, med Daudans Broddi. Eingiñ
Hlutur er svo viss, Svo sem Daudiñ, og eingiñ
svo Oviss, Sem Dauda-Stundiñ. Ef nockur
ætti sier einhvers Skada Von af Vatns Floodi,
af Elldi, af Ofridi, af Storm-Vidri edur
ødru soddañ Voveiflegu, Mundi hañ ecki hafa
Athuga aa sier, og bwast vid þad besta hañ kyñi,
ad þad sem miñst grandadi honum edur hañs
Fiaar-Hlutum, nær slijkt ad Hondum bæri? Nu
er eingiñ Efi aa þvi, ad eckert af þessu er svo vijst,
sem Daudiñ, og þo eckert svo Voveiflegt. þvi skyll-
du Meñ þa ecki bwa sig betur i mooti honum, eñ
hveriu

hveriu odru; sem oss kyñi ad Hendingu til ad falla? Þess er og ad giæta, ad allt añad; er Mañlig Tilfelli kuña fra oss ad taka, Pad kañ aptur ad bætast. Ef nockurs Hws breñur, þad verdur bygt upp aptur, ef hañ hefur ei Fe til ad giora þad svo vænt, sem þad var, Pa samt, svo hañ gieti þar iñi bwid: Veri og af þvi, þa er þad so stutt Stund, ad vier erum komner uppa Jardnesk Hijbijli, Pvi vier hofum hier ecki stadfastañ Samastad. Verdi einhver stoliñ Fiar Hlutum sijnum edur tapi þeim a añañ Hatt, þa hefur hañ þo eckert añad mist, eñ þad, hveriu Molur og Rid kuña ad granda, og Þioofuriñ fieck eptirgrafist, Matth. 6. Er og varla nockud tijdara eñ þad, ad slijkt bætist Einum aptur a Einhvern Hatt, og hvernig sem þvi er varid, Pa a hañ þo alltijd þañ Kost, svo leingi hañ lifir, Jafnvel þott hañ Gaungu-Madur verdi, ad safna sier Fiesiood a Himnum, hvern eingiñ ma fra honum taka. Eirn kañ ad fara a Mis Virdingar siñar, sem alltijdt er, Eñ margur hefur feingid hana aptur med meiri Virdingu, heldur eñ svarar þeirre Ovirdingu, er hañ hafdi af Missernum, Eñ þott af þvi beri, þa segir David: Ad Maduriñ muni ei leingi i Heidrinum blijfa, Lijkiast mun hañ Kvikendum þeim ed deya, Psalm. 48. Og þvi mun eg lata mier svo miog fallast um þañ Hlut, Er svo Skañviñur er, og eg vissi alltijd stood i Mañaña Valldi. Eingiñ er þvilijkur Heidur, sem ad heita Guds Barn:

Þess kañ eingiñ ad varna mier, og eingiñ af mier ad taka. Heilbrygdina mlssa Meñ og optlega, eñ hana hefur Læknariñ morgum bætt, og nockrer hafa siaalfkrafa Heilsuna aptur feingid: Eñ ef þad skiedur ecki, Þa hafa Vanheilindi Lijkamans ordid morgum ad Saalar Bata. Svo er nu Boot vid ollu þessu aa einhvern Haatt:. Eñ nær Meñ L jfid missa, Þa er audvitad, ad vier eigum ecki til þess Apturkvæmt, fyrr eñ i Uppriisuñi, og er þad lioosara eñ svo, ad þurfi ad þvi Vitni ad leida, Þa munu þa sumir uppriisa til eilijfs Lijfs, Eñ hinir til Eilijfrar Glotunar, og vid slijku er eingiñ Boot, Nema svo, ad lifa svo i Heimi þessum, ad vier jafnañ sieum vissir um, ad hvert helldur vier Lifum eda Deyum, Þa sieum vier DRottins; Rom. 14. Hvar til Guds Sonur hefur giefid bin bestu Raad, Er hañ segir: Joh. 11. Hver sem trwir aa mig, þad skal skie, ad þoott hañ deye, þa skal hañ samt lifa. Eñ i þessu verdur St. Paals Raadum ad fylgia, þar hañ segir: Reynid hvert ad þier erud i Trwñi, 2. Cor. 13. Þvi þad er eiñ Efa vijst, ad þad ecki allt er Trw, er Meñ Trw kalla. Ad sonu er þad Gudlig Sañendi, sem Frelsariñ segir: Ad hver sem trwir aa Soniñ, Hañ hafi Eilijst Lijf, Joh. 3. Eñ saa ed illa lifir og samþyckist Syndunum, svo hañ laate einhverja af þeim drottna i sijnum Daudligum Lijkama, og hlijdir heñi i heñar Gyrndum, Þad er laangt fraa þvi, ad hañ trwi aa Soniñ, Jafnvel þoott hañ

vití

viti allt þad, Er trwa og segia a um̃ hañ; Þvi segir St. Jacob: Sijn mier Trw þijna af Verkunum, Jac. 2. Þad ber fyrst til þeß, ad þoott hañ vidurkieñi med Muñinum, ad JEsus sie Gud og Guds Sonur, Þa neitar hañ þo þvi i Verkunum, Þvi ef hañ er Gud, þa er hañ sa Gud, er ecki lijkar Ogudlegt Athæfi. Hañ er ad soñu Gud, sa ed giarnañ medtekur Syndarañ, eñ ecki sa ed leyfi honum framvegis ad syndga, Þad saña eg med Dæmi Hoor-Konuñar, Hverre þa Bruñur Myskunariñar hafdi Syndina tilgiefid, baud hañ ad hun ei skylldi framar syndga, Joh. 8. Hañ er ad soñu Gud, Sa ed med mikillri Þoliñmædi og Umburdarlyndi lijdur Syndarañ, Ei þeß vegna, ad hañ hafi Þocknan a Syndiñi, helldur til þeß, ad hañ med Rijkdoomi siñar Giæsku leidi hiñ Ogudliga til Ydranar. Hañ er ad soñu eirn þoliñmoodur Gud, sem ecki vill strax wthella siñi Brædi yfir þañ, sem hleipur med Þioofnum til ad stela, og leggur Lag sitt vid Hoordooms-Meñ, Edur situr og talar i giegn sijnum Broodur, Synl Moodur siñar, Psalm. 49. Jafnvel þoott hañ sia þetta og þeigi.

Eñ seged mier: A Syndariñ þar fyrir ad meina, ad hañ sie lijkur sier? Edur ætla til ad hañ sie anægdur þar med, Ef Meñ þylia Trwarjatningüna og vidurkieña hañ alleina med Ordi, Eñ eingañvegiñ med Verki? Fiærri fer þvi. Þvi ad þegar hañ segir, ad sa hafi Eilijft Lijf, Er

 trwir

trwir a Sonin, Pa segir han strax eptir: Ad sa sem ei hlydi Syninum, Han muni ei sia Lijfid, helldur muni Guds Reidi blijfa yfir honum, Joh. 3. Vitum vier ecki, ad Heilagur Andi tilbijr og verkar Trwna i Hiortum Guds Barna, sem eru hans Musteri? 1. Cor. 6. En hvernen a han ad hafa sijna Verkan i þvi Hiarta, sem er fullt af Ondemi hina verstu Synda? Segid mier þa, hvernin meigum vier kalla, ad han Riett-Trwadur sie, Edur þeynki nockurn Tijma til sijns Dauda, Sem æfir sig i Syndinni og liær hene sijna Limu til Ibwdar? Endurlausnarin segir, Ad sa sem trwir a Sonin Fordæmist elgi, Joh. 3. En nu hefi eg þad sijnt, ad sa trwir ecki sem liggur i Syndunum Ydrunarlaust. Hvad meinar þu þa Christin Madur? Mun sa ei þurfa Daudan ad Ottast, hverium Doomurin strax a eptir fylgir, Er ecki vill aflata ad syndga fyrr en Daudin stefnir honum fyrir Guds Doom? Er þad moguleat ad sa trwi a Sonin, sem ecki elskar han? Langt fra, Þvi svo segir Paulus: Bolvadur vere sa, sem ecki Elskar DRottin voorn JEsum Christum, 1. Cor. 16. En nu er eingen Bolvan yfir þeim, sem JEsum med Trwnni umfadma, Þvi þeir alleina reiknast i Tolu þeirra sem eru i JEsu Christo, a hverium Paall segir eingin Fordæming sie, Rom. 8. En sa, sem vijsvitandi Dagliga styggir sin Endurlausnara med meotþrooanligum Syndum, og velker

er sier i þeim a mooti Samvitskuñi, Mun hañ nockud JEsum elska? Sa sem JEsus ecki sialfur elskar, hañ kañ ecki a hañs Nafn ad trwa, Þvi eckert er hañs Elsku-Merki meira til vor, eñ þad, ad hañ hefur sendt oss Heilagañ Anda, sa ed plantar i oss Trwna, svo vier gietum hañ elskad, Og tilreiknad oss hañs Forþienustu og allar Astgiafir: Þar fyrer segir sa Læresveirn, sem JEsus elskadi: Af þvi elskum vier hañ, ad hañ elskadi oss fyrri, 1. Joh. 4. Eñ hverium hefur hañ heitid siña Elsku? Þeim sem hañ elska og vardveita hañs Ord, Joh. 14. Þad eru hañs Bodord, af hverium Tvo eru hin sierlegustu, Sem er ad elskast Iñbyrdis, Hvar i Kærleikuriñ er iñifaliñ, hvern St. Paall kallar Logmaalsins Uppfylling, Rom. 13. Hitt Añad er, Ad taka siñ Kross uppa sig og fylgia Christo eptir, Luc. 14. J hverium Hellog Poliñmædi er oss bodiñ, Hver ecki er sijdst i þvi foolgiñ, ad temia sitt Holld og Blood, og leifa þeim ecki sijnar Gyrndir ad rækia: Þvi þegar St. Paall hefur upptalid, Gal. 5. Hver ad sieu Holldsins, og hver Andans Verk, þa endar hañ Tal sitt med þessum dijrmætu Ordum: Eñ þeir sem Christo tilheyra, Krossfesta sitt Holld med þess Gyrndum og Tilhneigingum Sa sem nu vill med fullu Trausti fela siñ Anda i Fodursins Hendur, hañ temie sier þessar Hugreñingar, og adrar þvilijkar, Og ecki einasta hugsi þad, helldur fylli þad med Verkinu, er hañ hugsar i Hiartanu,

eptir þvi sem hañ fyrer Raad Guds fær afkastad. Ad soñu er þad vijst, ad a hverium Tijma, sem hiñ Ogudlegi snijr sier fra sijnu Ogudlegu Athæfi, Pa vill hiñ Goodi Gud vera honum Naadugur, Þvi hañ vill ecki Syndarans Dauda, helldur ad hañ snwi sier og lifi, Ezech. 33. Eñ þo er hiñ Fyrsti Tijmi sa besti, og stoor Haski i Undañdrættinum. St. Petur bijdur Christnum Moñum, ad þeir befali hinum Trwa Skapara Saalir sijnar med goodum Verkum, 1. Pet. 4. Af hveriu audsært er, Ad hañ vill, ad Meñ skuli byria þvilijka Hluti aarla Alldur sijns, og ecki geyma þad til hiñs sijdarsta Andartaks, Edur þar til ad Meñ gieta ecki leingur mikid Gott edur Illt giört. Veit eg ad Gudi er eingiñ Hlutur Omattugur, Og hañs Gæska vid Synduga Meñ, er miklu meiri eñ fra meigi segia, Po hrædist eg þa Ydran, er eirn ætlar sier, ad giora a Soottar-Sængeñi, Nema hoñ hafi vanid sig aadur til ad ydrast Daglega, Þar þad er svoddañ Vanda-Verk ad ydrast, Og ad leita uñ Iñstu Fylsni sijns Hiarta, ad þvi sem Madur hefur Gudi a mooti brotid uñ allañ siñ Alldur, Ad Heilbrygdum Moñum veitir ecki af ad giora þad svo sem vera a, Þvi mun þad torsooktara verda þeim, sem fullt hefur i Fangi ad beriast vid Daudañ og allar þær Pijslir, er honum fylgia, Nema hañ aadur hafi giort þetta Verk ad Handverki, og hafi Registur Synda siña hreinskrifad i Hiartanu, Svo honum sie tamt ad lesa

þad.

þad. Og hier ad auki dyliast margir vid, þeir ed siwkir liggia, ad Soottiñ muni leida þær heim, og bidia Gud helldur um̃ ad vægia Lijkamans Plaagu; helldur eñ ad fyrergiefa sier Syndernar, edur ad bifala Skaparanum Sælir sijnar med goodum Verkum edur Asetningi til Lifnadarins Betrunar, Ef þeir kyñu heilir ad verda: Og þoott svo vera kyñi, þa siaa Meñ hverniñ ad sumra þeirra Apturhvarfi er varid, sem hafa verid komnir i Daudañ, Eñ Guds Poliñmædi hefur þo reist þær Fætur aptur, ad þeir hafa sijdañ eingu betur lifad, helldur miklu verr sumir hverier. Eg veit og eckí hvada Goodverk Meñ skylldu fremia aa Dauda-Stunduñi, Nema (kañ skie) Olmusugiørdir vid Fatæka edur Giafir til Fødurlandsins og Christilegrar Kyrkiu Uppbyggingar. Eg kalla þad ad soñu vel giørt, Og er lijkast hiñ Naadugi Gud aalijti þvilijkt, nær þad framkemur af Trwudu og Sañydrandi Hiarta. Eñ giæt þo ad Christiñ Madur, hversu mikid þad muni mijnka þijna Goodvilld i Guds Augliti, ad þu hefur geymt þvilijkt þar til þu gietur ecki siaalfur leingur brwkad.

Er þad riett ad fara þa fyrst ad giefa Gudi, þegar vier eigum vid ad skilia? Hvert sem er, Þad er þa ordid svo ad segia Erfingians, eñ ecki siaalfs þijns, Er þu giefur, svo ad Einhver kyñi ad giora sier i Lund, ad þad ætti heima hiaa þier, er Jacob skrifar Cap. 5. Nu vel þier Rijkir segir hañ: Graatid og Ylfrid i Eymdum ydar, er yfir ydur koma

koma munu, Ydar Audæfi eru fwnud, og ydar Fatnadur Molietiñ, Ydar Gull og Silfur er ridgad, og þeirra Rid er til Vitnis at mooti ydur, og mun eta ydvart Holld svo sem Elldur, Þier hafid Fesioodunum safnad til hiña siidustu Dagaña. Einkis þarfnast sa Guds vegna, er svo giørir; Eñ þo er seint betra eñ alldrei, Ef þad er af sañri Trw og Ydran giort, Þvi þeirra Verk munu þo eptirfylgia þeim, Segir Andiñ i Opiñberingar Bookiñi, 14. Eñ sa sem vill befala Saalu siina Gudi med goodum Verkum, hañ siai til ad þaug sieu vel giørd, Þvi svo merkir þetta Ord hiaa Petri, Cap. 3. Ecki af Sialfshælni, Ecki af Hiegoomlegri Raufn edur Metordagyrnd, helldur af Trwñi, af Myskunsemiñi, af Kiærleikanum til Naaungans, og allra hellst af Elskuñi til Guds, og til Lofs og Diirdar honum, Giætandi ad þvi, ad þad kañ margt ad þykia Gull, Silfur og diirmætir Steinar hiaa sialfum oss, Sem i Guds Augliti ecki er nema Haalm-Straa, og dugir til einkis nema ad breñast i Elldi, 1. Cor. 3. Og iafnvel þott ad eitt Guds Barn kuñi ad hugga sig ad nockru Leiti vid þad Gooda, sem Guds Andi med þvi verkad hefur hier i Naadiñi, Ecki svo sem nockra Forþienan edur Skulld hiaa Gudi iñlagda, helldur svo sem Avoxtu Trwareñar, Þvi Oniitir Þioonar erum vier, Iafnvel þott vier giørdum allt þad vier eigum ad giøra, Luc. 17. Þa reidi sig eingiñ þar uppaa, Edur

byggi

hvǫgi Sæluhiælp siina æ svo lausum Grund-
velli, helldur æ Biargi Hiælpræðisins, Sem er
Christur, og æ hans Forþienustu, Pvi þott
DRottiñ hafi sagt, Ad eirn Vatns Dryckur skyl-
di ecki Olaunadur vera, sæ ed i Lærisveins Nafni
er giefiñ, Matth. 10. Poott hañ segi eñ aptur,
Luc. 16. Ad vier skulum giora oss Vini af hinum
rauglæta Mamona, Svo ad þa oss þriitur,
medtaki þeir oss i Eylijfar Tialldbwdir, þa skied-
ur þad fyrer Guds Fyrerheit og Forþienustu JE-
su Christi, eñ ei fyrer Verdskulldan vora. Ef vi-
er hvi vilium Riettilega fela Sælir vorar Gudi æ
Hendur, Pa þeynkium optar til þess, sem vier hof-
um illa giort, og lætum af hvi, helldur eñ hiñs, sem
gott kyñi ad vera i Fari voru, eñ lætum þo alldrei
af hvi, og þreytunst ecki Gott ad giora. Vier
þurfum ecki ad skrifa hiæ oss Goodgiordir vorar,
Pvi ef nockrar meiga svo kallast, þa er ei hætt vid
hvi, ad þeim gleymt verdi, Hañ skrifar þad i siñ
Reikning, er segia vill æ hinum efsta Degi: Hv-
ad þier giordud Einum af þessum miñstu Bræl-
ingum, þad giordud þier mier, Matth. 25. At-
li þad þa eingiñ, ad hañ fari med Olmusugiordum
einum, Gudi þocknast, Nema adrir hans Lijfernis
Hættir þeim sambioodi. Sæ sem giefur miklar
Olmusur, eñ lifir þar fyrer utañ ad Munudum
siinum, Fremiandi allt Jllt, eptir hvi sem hañ er
Skapi fariñ, hañ dregur sialfañ sig æ Tælar.
Par var eirn Riikur Mæri Fordum Daga, Er
liet

liet bera eptir sier Siood mikiñ, fullañ af Gialldi, Og er hañ mœtti nockrum, er hañ þoottist eiga Varhendt, Laust hañ þañ sama Kiñ-Hest, og gallt strax af Sioodnum svo mikid, sem hañ kuñi ad Løgum sekur uñ ad dœmast. Ætli Meñ ecki ad þad muni svo til gaanga fyrer þvi mikla Allsheriar Þijngi i Himnenum, ad Meñ meigi wtsiwga Hws Eckna og Fodurlausra, meida Naungañ i Ordum og Verkum, aafella hiñ Saklausa, skioota undañ hinum Hreckvijsa, Svijkia, Baktala og Ofrœgia siñ Brood ur, Reisa Tvijdrœgni og Sundurþyckiu millum Maña, Edur adhafast adra þvillijka Glœpi, Eñ afþvo allt sijdañ med nockrum Olmusugiordum, og meina ad Gud sie þa aanœgdur, Jafnvel þoott eirn lifi og laati sem honum lijkar. Ecki er slijkt ad bifala Gudi Saalu sijna med goodum Verkum, þvi allt svoddañ er aa mooti Kiærleikanum, aan hvers ad jafnvel Trwiñ er daud og Magtarlaus, Jac. 2. Og hvad slijkar Olmusur gylldi til Saaluhiaalpar, vottar St. Paall, 1. Cor. 13. Segiandi: Þoott eg bitadi Eigur mijnar nidur fyrer Faatœka og hefdi ecki Kiærleikañ, Þa gagnadi mier þad eckert. Meira þarf til þeß ad vera viß uñ Velferd Saalar siñar, eñ ausa wt nockrum Femunum, Þvi ef hiñ Riettlaati verdur naumlega Hoolpiñ, Hvar mun hiñ Ogudlegi og Syndariñ þa byrtast? Segir St. Petur i sijns Fyrra Pistils 4. Cap. Hlijdni er betri eñ Offur, sagdi Fordum Samuel

vid Saul Konung, 1. Sam. 15. Þess var og oll Von, Þviad i Foornunum offrudu þeir aarlegu Holldi, Dijraña og Fuglaña, a hverium Gud þo einga Þocknan hefur, eñ i Hlijdniñi sijnu eigiñ, Ps. 48. Þad er, ad þeir sem Gud elskudu, tomdu sitt Holld fra vondum Verkum, Gudi til Hlijdnis, og er Gud eins Lyndur nu, og hañ þa var. Olmusu Verkiñ kallast Gudi gefiñ, Hitt byriar ad giora, eñ þaug ecki eptir ad skilia. Fyrir þvi, sa sem vill Gudi Foornir færa, hañ giori ecki einasta þetta, helldur Offri honum Harmþrungnum og sundurknosudum Anda, hvern hañ mun ecki fyrirlijta:. Hañ offri þvi, sem honum alleina vel-lijkar, sem er Forþienustu sijns Eingietins Sonar, Hañ hlijdi St. Pals Radi, þar ed hañ segir: Rom. 12. So aamiñi eg ydur Brædur, fyrir Myskunsemdir Guds, ad þier Offrid Gudi Lijkami ydar, Eina Lifandi Foorn, Heilaga, Gudi þacknæmilega, Ydar Skilningsfulla Pioonustu, Og gloriist ei lijkir Olld þessari, helldur umūmyndist fyrir Endurnijung ydvars Hiarta, ad þier reynid, hver ad sie goodur og þægilegur og algiordur Guds Vilie. Þañiñ befala Meñ riettileaa Skaparanum Saaler sijnar: Svo giordi Christur ecki fyrir sijna Pers, Helldur oss til Eptirdæmis, sem aadur er sagt: Hañ gat ecki añad eñ Gudi þocknast, Þar hañ var af hañs Skauti wtgeingiñ, Og hañs Eingietiñ Sonur, Eirniñ eptir Mañdoominum; Hañs Matur og Dryckur var ad giora hañs

Vilia,

Villia, sem hañ sendi, Joh. 4. Maturiñ smackar vel þeim, er hañ til sijn tekur, Og varla verda Meñ nockrum Hlut fegnari; Svo var og Christo eingiñ Hlutur svo iñdæll, sem ad giøra Villia Fodursins, Pad sañadist i Grasgardinum, Er hañ beiddi ad sa Kaleikuriñ mætti fra sier takast, Og þo sagdi hañ: Ecki miñ, Helldur verdi þiñ Vilie.

Þetta giørdi Christur; Eñ þu sem villt heita Christiñ Madur, Tem þier slijkt Hugarfar, Ef þu villt Guds Barn heita. Christur var af Fodurnum Gietiñ, þvi giørdi hañ Fodursins Villia. Johañes segir og 1. Ep. Cap. 2. Sa sem giører Riettvijsina, hañ er fæddur af honum. Christur elskadi oss svo miøg, ad hañ gaf sitt Lijf i Daudañ fyrir oss. Eñ hvad segir Johañes aptur i sama Pistle, Cap. 4. Elskunst Iñbyrdis; Sa sem Elskar, hañ er fæddur af Gudi. Christur elskadi siñ Fodur, af þvi hañ var hañs Sonur, Giørum sama ef vier vilium Guds Born og hañs Brædur heita, Og munum vier sijdur syndga, Þvi Johañes segir eñ nu, Cap. 5. Þessi er Elska Guds, ad vier vardveitum hañs Bodord, og hañs Bodord eru ecki þwng. Hvar fyrir eru þaug ecki þwng? Þviad Elskañ til Guds, Hun giører þad liett, sem Holldi og Bloodi er Obærilegt, Þvi hañs Sædi er i þeim, sem hañ elskar, segir hiñ same Guds Madur, 1. Ep. Cap. 2. Christur hefur Heimiñ sigrad af þvi hañ var Guds Sonur, Añars hefdi þad Omøgulegt verid, Svo giøra og

Guds

Guds Born, Þvi hvad sem af Gudi er fædt, Þad yfirviñur Heimiñ, Og þessi er Sigurriñ, er Heimiñ viñur, Trwiñ vor: segir Johañes, 1. Joh. 5. Med þessum Hætti skulu Meñ afhenda Gudi Sælur sijnar, Eñ ecki ætla sier ad lifa ad Villd siñi, allañ siñ Alldur, og giora þad svo med Einu Orde, þegar komid er undir hin Sijdurstu Andvørp, Þvi jafnvel þott eckert sie añad Raad fyrir þa, sem komnir eru, vid Daudans Hættu, Eñ þetta, Og þad muni, kañ skie morgum ad fullu gagnad hafa, sem med misjofnum Hætti hafa alid Alldur siñ, Þa er eingiñ viss uñ, med hveriu Mooti Gudi þocknast hañ burt ad kalla, med Sverdi, med Ellds-Voda, med Vatns-Floodi, med Brada-Sott, Edur hañ vill læta hañ af Elldi uppþorna, Þvi kalla eg ecki Raad, Nema i Tijma sie tekid, og þad Ræd eg øllum ad Hugleida, sem vilia deya Riettlætra Maña Dauda. Þad er merkilegt, ad vor Blessadi Endurlausnari hefur tekid þessa sijna Andlæts Bæn af hinum 30. Psalmi Davids, Þar hañ segir: Þu munt wtleida mig af Snoruñi, sem þeir hafa lagt heimugliga fyrir mig, Þvi þu ert miñ Verndari; J Þijnar Hendur Fel Eg Miñ Anda. Og hefur vor Frelsari med þessu feingid oss i Hendur hid skarpasta Vopn a mooti Daudanum, sem er Guds H. Ord, hvert ad er Sverd Andans. Eingiñ er þvilijk Veria i hinu bitra Dauda-Strijdi, sem þessi, eñ hverrar hiñ sterki, Vijkingur er Osiorandi, og eingiñ hefur sar

vel wr hañs Faungtokum komist, sem þvi hefur ecki fyrir sig beitt. Eñ þess er ad giæta, Syndugur Madur, ad þad skal aarla sier vid Siidu binda, Þvi þu veitst ecki nær Hwss. HErrañ kiemur, hvert ad Kvolldi Dags, edur uñ Midnætti, edur þa Hañiñ galar, eda sneña Morguns, Marc. 13. Hier uñ maa eg segia eins og Aristoteles hefur skrifad uñ Testamentis Giordir, ad saa sem eckert Raad giorir fyrir siinum Siidarsta Vilia, fyrr eñ aa Deyanda Degi, hañ sie liikur þeim, er velkest i Hafs-Olgu, og ecki lærir ad hondla med Skips-Reidañ, Fyrr eñ þar er komid. Svo hygg eg og þeim Raadfaatt verda muni, Sem ecki kom til Hugar, ad taka uppaa sig Guds Herskrwda, fyrr eñ Soottiñ hafde kastad honum i Bana-Saungina. Hvad villt þu giora aa hiñi kolldu Daudañs Tiid, hafir þu eckert af Guds Ordi numid þier til Huggunar i Daudanum, þegar hañs Obliida hefur feingid Yfir-Hond yfir Saalu og Liikama? Þegar Samvitskañ tekur til ad klaga, Þegar Miñing Illgiordaña Ofbiidur Saalu þiñi, Þegar Satan leidir þier fyrir Sioonir Guds straanga Riettlæti, hvert ed hañ hefur allt þaungad til dulid fyrir þiinum Augum; Þegar Helviiti tekur til ad sperra sitt Gin upp aa mooti þier, og biidur sig til ad svelgia þiina vesælu Ond, strax sem hun wtfer af Liikamanum? Seig mier, Hvad villt þu giora i þessum Praungum staddur, hafir þu eckert af honum numid; Sem Daudañ hefur i

Sigur

Sigur uppsvelgt? Pu villt kañ skie ad þiñ Saaluſorgari huggi þig, Edur þijnir Naaungar telie uñ fyrir þier: Eñ seig mier; A hañ þa hid fyrsta ad undirvijsa þier Veg Saaluhlaalpariñar, þegar Eyrun heyra ecki leingur, Augun siaa ecki leingur, Og Tungañ gietur ei talad leingur? Mun þa vera Tijmi til ad hafa Not af þeim Lærdoomum, Peim Amiñingum, Peim Huggunum, er þu uñ allañ þiñ Alldur forsmaad hefur, og trodld undir Footum þier, Sem añad Endeme? Verda kañ ad slijkt verdi ad Lidi, Eñ ecki er þar uppaa ad treysta, Pvi þu veitst ecki hvad mikil Uñsvif Daudiñ lætur þier eptir, Og ecki, nema Reidiñar Dagur komiñ sie, aa hvern þu hefur eptir þijnu forhørdnudu Hiarta safnad þier Reidi og Guds Riettlaatri Hegningu, Rom. 2. Pa kañ skie þad verdi nockud uñ seirna, ad taka þad til Laans af ødrum med hinum Faavijsu Jomfrwnum, med hveriu Brwdgumanum skal sagna, fyrir þañ sem eckert aa hiaa sialfum sier. Laat þier þvi sagt vera Christiñ Madur; J Dag, J Dag, aa medañ þu heyrir hañs Roddu, þa forherd ecki þitt Hiarta, helldur svo opt sem þu heyrir Guds H. Ord predikad og uñ Hond hast, þa safna þar af i Fiesiood þijns Hiarta, þvi er þier gagna kuñi i Daudans Tijd, Pvi þad mun þiñi Saalu hollast vera, sem þu sialfur i þijnu Hiarta geymt hefur. Laat alldrei þijn Augu svo aptur, ad þu ecki befalir þiñ Anda i Fødursins Milldu Hond, Pvi þu veitst ecki hvert þu

munir þeim ad Morgne Dags aptur uppliwka; Laat Soolina alldrei ſvo uppreña nie undirgaunga, ad þu ecki Jtrekir hid ſama. Og ſvo opt ſem þier i Hug kiemur þiñ Daudi og Burtfør af Heimi þeſſum, þa bid Gud af Hiarta hier uñ, Bid Jduglega, Bid heitt, Bid alvarlega. JEſus hroopadi þegar hañ fool ſiñ Anda i Fødurſins Hendur, til ad ſijna þar med ſijna Alvoru i Bæniñi, Þu ſkallt og hroopa med Trwariñar Muñi, meir eñ med Lijkamans; Og vert viſs þar uñ, ad hañs Myſkunar-Eyra er næſta buñt til ad heyra þiñar Andvarpanir. Laat Tilfiñingu Helvijtis Bryna og Ofur-Hita Kvalaña, ſem þu med Syndiñi forþienad hefur, eñ Guds Sonur borid þiña vegna, Upptendra i þier Hita Bænariñar og Elſkuñar til Guds, Pa kañ hañ ei añad eñ vera þier Naadugur og Myſkunſamur, þvi ef þad ſatt er, ſvo ſem þad er i allañ Maata Obrygdanlegt, ſem hañ ſegir fyrir Muñ Eſajæ 65. Ad ædur eñ þeir kalla, þa vilie hañ ſvara, og hañ vilie heyra æ medañ vier erum ad tala, Pa mun þad ſijdſt bregdaſt i Daudanum, Pa veit vor Gud, ad oſs meſt ælligg-ur, Pa er eingiñ Tijmi til ad draga leingur undañ Hiaalpina.

FADJR J PJNAR HENDUR FEL EG MJNN ANDA, ſagdi Endurlauſnariñ: Med þeſſu Allra Sætaſta Fodur-Nafni, hefur Vor HErra JEſus ſijnt oſs iñ i Guds Myſkunar Ydur, Pviad, Ef ad vier ſem vondir erum, kuñum

um ad giefa Bornum vorum goodar Gaafur, hvad miklu framar mun hiñ Himneski Fadir giefa þeim Heilagañ Anda, sem hañ þar um bidia? Luc. 11. Er nockur saa Fadir, ad hañ giefi sijnu Barni Stein fyrir Braud, Edur Hoggorm fyrir Fisk? O! hvad miklu sijdur mun Fadir Myskunsemdaña vera þeim Afundiñ, Edur bregdast þeim, sem til hañs hroopa og Andvarpa i hiñi sijdurstu Daudans Angist? Er nockur sw Moodir, Ef hun sier Afkvæmi sijns Lijfs beriast vid Ondina og kveliast þrönglega, ad hun ecki aumki sig þar yfir og hiaalpi þvi at alla Vegu, sem heñi mogulegt er? Og þo ad hun gleymi þessu, þa vill hañ samt ecki oss gleyma, Esa. 49. I PJJNAR HENDUR Fel Eg Miñ ANDA, sagdi Vor HErra: Guds Hond þijdir adskilianlegt i Heilagri Ritningu: Þad merkir hañs Guddoomlega Forsioon, Svo segir Job: Cap. 12. J hañs Hendi er oll Lifandi Saal og allra Maña Andi: Þad merkir Guds sterka Almætti, Þad vitnar Moyses, Devt. Cap. 4. Er hañ kallar hina sterku Hond Guds og wtriettañ Armlegg med miklum Undrunum. Þad þijdir Vernd og Forsvar hiñs Almattuga Guds, Þess gietur Moyses, Devt. 33. Segiandi: Allir Heilagir eru i hañs Hendi. Þad merkir Giæsku Guds og mikla Goodgyrne, Þad kieñir oss David, Ps. 104. Af þeñañ Hætt: Þu giefur þeim ad þeir samañsafne, Þu upplijkur þiñi Hendi og þeir sediast af Giædum.

ædum. Pad merkir og Guds Trwfesti og Or-brygdulan̄ San̄leika; Hvar af komiñ er fra Or-ds Hættur Ritningariñar: Ad upplypta siñi Hendi, Svo sem DRottiñ segir: Exod. 6. Cap. Eg vil leida ydur til þess Landsins, yfir hveriu eg hefi upplypt miñi Hendi, ad eg giefi þad Abra-ham, Isaac og Jacob. Segid mier, hver vill nu draga han̄s Saudi af svoddan̄ eirni Almætt-is Hendi? Kan̄ nockur han̄s sterka Armlegg Afl-vana ad giora? Megna nockud Helvijtan̄a Port æ mooti honum? Jaa, Hvar kan̄ Sælum vor-um Ohættara ad vera, eñ i þeirri Hendi, sem Hi-men og Jörd skapadi af eingu Efni, sem Diosul-iñ bundid hefur med Myrkroña Hleckium, sem mælir Siarfar-Hafid med sijnum Hnefa, Esa. 40. MJNN ANDA, segir Endurlausnar-iñ. Pad er þier Ein eilijf Huggun, Syndugur Madur, sem ordiñ ert Eirn Andi med Christo, Eirn Limur æ han̄s Andlegum Lijkama; Eirn Kvistur æ þvi Blessada Vijn-Trie, Joh. 15. Pvi Lijfsins Trie, Hvers Blod ad gagna til Heidinga-lan̄a Lækningar, Apoc. 22. Pvi undir eins og han̄ fool siñ Anda i Fodursins Hendur, þa hefur han̄ og Befalad honum allra þeirra Sælir sem honum giefnir eru, ad þeir væri þar sem han̄ er, Joh. 14. Hier vid hefur Stephanus huggad sig, þegar Grioot-Hrijdiñ lamdi æ honum midt i Daudanum, Er han̄ sagde: HErra JEsu, med-tak þu miñ Anda, Pan̄ sama Anda, sem JEsus

hafdi

hafdi aadur befalad sijnum Himneska Fodur, aasamt med sijnum Anda; Þañ hiñ sama fool Guds Pijslar-Vottur i JEsu Blessadar Hendur. Christur er Safnadarins Hofud, Eñ vier erum hañs Limir, Eph. 1. Eg em þess full-vruggur, ad JEsu Andligur Lijkami, er ecki i sundurskiptur, Þad Limernir meigi Añars-stadar vera, eñ þeirra Hofud er. Þvi skyllda eg þad meina, ad Gudi ecki væri uñhugad uñ Mañaña Saalir, fyrir hveriar hañs Eingietiñ Sonur hefur lidid Kvol og Krossins Dauda, Þar Eirn Titlingur fellur ecki aa Jordu, aan hañs Vilia? Miñ Gud, Þiñ Eingietiñ Sonur hefur Daudañ i Sigur uppsvelgt, Esa. 25. Svo ad eg yrdi Erfingi Eilijfs Lijfs. Munt þu lijda Helvijti ad gleypa Saalu mijna, Þar eg vona aa hañ? Miñ Skapari, Þiñ Sonur hefur Endurkeypt mig med sijnu dijrmæta Bloodi.; Hver aa ad lwka honum Andvirdi sijns Lausnar-Gialds, Hañs Bloodugañ Sveita, Hañs Bond og Fiotur, Hañs Hwdstroku og Þyrni-Krijningu, og alla hañs Kvol og Krossens-Dauda? Skyllda eg syndugur Ormur Tapadur verda, Sem i Daudanum ligg vid hañs Mykunar Footskor, Og bid uñ Nadina, Eñ afbid Riettiñ?

O! HErra JEsu Christi, Hvers Saala ad vard hrygg allt i Daudañ fyrir vorra Synda Skulld, Vier bidium þig i diwpustu Audmykt vors Hiarta, Bid þu þiñ Himneska Fodur fyr-

er oss, Ad þegar vorar Orþiædar Sælir mæna wt af þessu Vesæla Lijkamans Hreisi, Nær það tekur ad sundurglidna af Daudans Ofbodi, til þiña Blessudu Augna, Sem i Daudanum Formyrkvudust, þa vilie hañ rietta oss sijna Myskunar Hond og medtaka vorn Anda i eylijfa Dijrd og Fognud, Hvar vier mættum hiñi Haaleitu Guddoomsins Preñingu O-Endañlegt Lof sijngia uñ allar Alldir Allda. Það Bænheyre Gud i JESU Nafni,

AMEN.





# Bæn fyrer Predikun.

O Þu Riettvijsi og Myskunsamt Gud! Hverium eins skylld er þijn Gæska og þitt Riettlæti, Hver ed hefur giefid þiñ Son i Daudañ fyrer oss, Lijflausa Saka-Meñ, og lætid hañ gialllda þad hañ ecki rænti. Vier Fææædar-Mañesk-iur søllumi Dag til Skarar Foota þiña, Og medkeñum, ad vier høfum lagt Syndugar Hendur æ hiñ Saklausa og Riettlæta, Og hefur oss þad ecki noog verid, ad Illgiørdir vorar hafa hañ æ Gæalgañ neglt, Helldur jafnvel þoott vier vitum, ad þetta skied sie af þiñi Alvijsu Raadstøf-un til Myskunar oss, þa høfum vier eckt heyrt þad Ordid af Krossenum, med so bll-wgum edur Angurfullum Hiørtum, ad Miñing hañs Kvala hafi kvalid i oss Gyr-ndina til þeirra Illgiørdaña, er hañ Sak-lausañ kvoldu, Og vier høfum fært med

oss marga Ovini Krossens undir þiña Orda Heyrn, Sem eru Obættar Syndir vegna Toomlætis vors og Ydrunarleysis, so sem ad ecki kiæmum vier þaangad til ad miñast Dauda DRottiñs, Helldur til ad endurnija hañ og Spotta med toomri Lijkamans Hegdan, eñ ecki til ad Elska hañ af Gnægd Hiartans. Og hvort Straff er þa Osstoort fyrer oss DRottiñ, Sem þañig høfum trodid Guds Son undir Footunum, og Sattmaalans Blood Almeñilegt halldid? Enn sijdur vor Gud, þa er þetta þijns Eingetins Sonar Blood vort einasta Traust. O! laat þad sætta oss vid þig DRottiñ miñ. Hvar fyrir wthellti hañ þvi? Alleina til ad giora Syndugа Meñ Hoolpna. Ecki kañ Fiøldi Syndaña nie Stærd þeirra, ad giora þad Ogyldt, sem þu hefur siaalfur ætlad oss til Skullda-Lwkningar, Þvi þad er Guds Blood, Sem er meiri Hiarta voru, er Fordæmir oss. Og i þeirri Von, ad þijn Gæska muni uppgiefa oss Sekternar: Þa beigium vier Knie vor i Nafni DRottiñs JESU Christi, og drepum oss nidur aa Footskør þijna; HErra,

Lꝍat ecki þijns Sonar Blood Vanmꝍattugt verda ꝍ oß Syndugum Ormum, og veit oß, Ad so sem oß eru margar Syndir fyrergiefnar, So meigum vier og elska, ad þvi Leiti vier finum til þiñar Reidi ORottiñ, eñ hylium oß þo i Biarg-Skorunum. J þijns Sonar Bleßudum Undum vilium vier hylia oß, ꝍ medañ hun fram̄ hiꝍ geingur, Og nær vier nu so fundid hofum Hitañ af heñi, ad hun kiemur wt ꝍ oß Tꝍrunum: Þa gief ad vier so meigum þvo Hiarta vort i þeim, ad þad þeß hæfilegra sie til ad verda þveigid i JEsu Bloodi. Veit oß nu Styrk þijns Anda til þeß, ad vier so miñunst Kvala þijns Sonar ꝍ þeßum Fostu-Tijma, ad þu alldrei framar viller miñast Jllgiørda vorra, Og gief þeßu þijnu Eyrendi Fram̄gꝍng. Bænheyr þad fyrer JESU Arnan og Medalgaungu.

Fader vor, etc.



# Bæn eptir Predikun.

Wier þockum þier HErra JEsu Christe, Saññr Gud og saññr Madur, ad þu med þiñi Heiløgu Pijnu og Dauda, og Blessadri Bloods Uthellingu, hefur Endurleyst oss Aumar, Syndugar og Fordæmdar Maññeskiur, aan allra vorra Verka, Forþienustu og Verdugleika. O! HErra JEsu Christe, Hvørsu stoor hefur þijn Pijna verid, og hvørsu þwng Kvøl og Pijsl þad hefur verid, Hvørsu margfallda Neyd þu hefur lidid, Hvørsu diwpar eru þijnar Undir og Beniar, Hvørsu beiskur og saar þiñ Daudi hefur verid, Hvørsu Osegiañleg er þijn Elska, med hvørri þu hefur Sætt oss vid þiñ Elskulegañ Fødur, Þar þu sveittist þeim Blooduga Sveita vid Fiallid Oliveti, af þeirri Daudans Angist, So Blood-Dropanir hrundu aa Jordina, Og þar þu varst af øllum þijnum Lærisveinum Yfergiefiñ, og gafst þig Viliugañ i Hendur þeirra leidu Gydinga, og þess Ogudlega Skara, Hvørier þig þvijngudu hardlega,

og

og leiddu þig bundiñ, aan allrar Vægdar, fraa Einum Raanglaatum Doomara til Añars, Hvar þu varst Falsklega aaklagadur, Hræktur og haduglega Svijvirdtur, og med Hnefum sleigiñ i þijna Asioonu? Vegna vorra Misgiorninga varstu Særdur, og fyrer vorra Synda-Sakir varstu Sleigiñ og Hwdstryktur, med Þyrnum Coronadur og Hryggilega wtleiddur, so sem eirn slæmur Ormur, saa ecki er neinum Mañi lijkur, Þvi þu varst hiñ allra Fyrerlitlegasti og Audvirdilegasti, fullur af Kvøl og Kraankleika, So Heidins Mañs Hiarta hefur eirniñ aumkad sig þar yfir, og sagt: Siaaid hvilijk Mañeskia þad er. Þu varst fyrer vorra Misgiorninga Sakir aa medal Tveggia Spillvirkia reiknadur, og so sem ein Bølvau Uppheingdur, Og med Naglum stwngiñ i giegnum Hendur og Fætur. Þar ad auki i þijnum Þorsta, med Galli og Ediki Dryckiadur, Og med stoorri Kvøl hefur þu uppgiefid þiñ Anda, So ad þu Bitaladir vora Skulld, Og ad vier yrdum fyrer þijnar Benjar Heilbrygdir.

Fyrer

Fyrer þessa þijna Pijnu, og alla adra Kvol og Pijning, Segium vier þier Lof og Packir, og bidium þig, Ad þu lætir þessa þijna Heilogu og beisku Pijnu, ecki vera skieda oss til Onijtis, Helldur ad vier Huggum oss vid hana af ollu Hiarta, og Hroosium oss af heñi, og Hugleidum hana so, og fyrer oss byrdum, ad allar vondar Gyrndir i oss verdi Nidurþryktar og wtslocktar, Eñ þar a moo-ti meigi allar goodar Dygdir i oss Jñplantast og aukast. So ad vier deyum fra Syndunum, eñ lifum Riettlætinu, og eptirfylgium þier, Sem oss er settur til Fyrermyndunar, og gaungum i þijn Footspor, Og uñberum hid Vonda med Poliñmædi, og lijdum O-Riettindiñ med goodri Samvitsku.

Fader vor, etc.



Psalm-



# Psalmur
## wt af Sio Ordum Christi
## a Krossenum.

Ton, O JEsu Nafn þitt Ilmsætt er.

I.

JEsus Christur a Krosse var, Kvalldest allur hans Lijkami sár, Med hinne mestu Pijnu, Sio Ord vor O Drotten sagde þar, Haf þau i Hiarta þijnu.

2. Fyrsta: Sijner han sæta Rand, Sin Fodur kroptuglega bad, um Heill Ovina sina: Min Fader, Fyrergief Peim Pad, Peir Vita Ei Hvad Peir Vina.

3. Annad: Hans mikla Myskun er, Minast þad jafnan skylldum vier, Næningia so ried svara: An Efa Skalltu I Dag Med Mier, I Mijnu Rijke Vera.

4. Pridia: Merker hans milldu Trw, Munadarlausre segir nu: Sia, Par Er Son Pin Kvinna; Johannes, Moder Pijn Et Sw, Hene Skallt Umsioon Inna.

5. Fioorda: Ord hans skallt festa i Hug, Frelsaren dijrt ad keypte þig, Pvi sagde han sig Pyrsta;

Han

